# Fiorda Book.

um þann

# Sanna Christendom

Edur

# Natturunnar Bok.

Sem sijner hvornenn ad su stora Heimsens Natturu Bok, þad eru skapadar Skiepnur, vitna um GUD, og leida oss til hans rettrar Þeckingar, og Dijrkunar.

Col. I. v. 16.

Fyrer hann eru aller Hluter skapader, bæde a Himne, og Jordu, sijneleger og o-sijneleger.

Openb. 5. v. 15.

Og allar skapadar Skiepnur, sem eru a Himnum, og a Jordu, og under Jordunne, og i Siofnum, heirda eg seigia til þess, sem a Stolnum sat og til Lambsens: Lof og Æra, og Priis, og Styrkleike, sie þier, fra Eilijfd, og til Eilijfdar.

KAUPMANNAHOFN, 1732.

# Formale yfer þessa Fiordu Bok.

SA mikle og dyrlege GUds Spamadur Moses, setur oss fyrer sioner, i Bok Skøpunarennar, tvø sterk, og auglios Vitne um GUd, sem er allra Hluta Skapare; af hvørium þad fyrra er sa store Heimur, sem hefur i sier Himen og Jord, Sio, Gros, Trie, Dyr, og annad þviumlijkt, hvad allt saman Moses sijner oss, ad sie af GUde giort, og bere Vitnesburd um GUd. Annad vitned er sa litle Heimur edur Madurenn, sem hann seiger og so sie af GUde skapadur, og ber vitne um hann. Þesse Vitne verda og so annarstadar i H. Ritningu framleidd, so sem þau, af hvørra Vitnesburde vier skulum læra ad þacka vorum Skapara, og hvørnenn vier eigum ad skicka oss vid hann: hvad og eirnenn gefed hefur Meistara þessarar Bokar um þann Sanna Christendom, ordsok til ad framfæra soddann Vitnesburde, i þessum hennar Fiorda Parte, ødrum til Nytsemdar, gagns og goda, og

 þar

þar med ſijna, hvørnenn ad bæde Menner-
ner, og adrar ſkapadar Skepnur, bere vitne
um GUd og hans Eigenlegleika, Pionuſtu
og Dijrkun, og hvørnenn þær eige ad vera
fyrer vorum Augum, ſo ſem GUds Hendur
og Leidſagnarar, ſem viiſe oſſ Veg og fære
til ſialfs GUds. Enn vilie nockur efaſt um̄
þad, ad ſoddann eige heima hia þeim ſanna
Chriſtendome, þa eru god Rad og Efne til,
ad færa Beviiſingar til þeſſ, ad þad heirer
hønum i Sannleika til. Aller hluter eru viſſ-
ulega af GUde ſkapader, ſo ſem H. Ritning
klarlega, og omotmælanlega vottar i Annar-
ar Moſis B: 6. 20. Cap. hia Joh. 1. J Piſtl.
til Col. 1. og miøg vijda annarſtadar. Enn
hvar fyrer munu aller hluter af GUde ſkapa-
der vera? Er þad| ecke ſked til þeſſ, ad þeir be-
re Vitnesburd um̄ GUd? Himnarner frgintelia
GUds Diird, og Feſtingenn kunngiører Verkenn hans
Handa Pſ. 19 v. 1. Allar ſkadadar Skepnur a
Himne og a Jordu ſeigia, ad þeim heire til
Styrkleike, Lof og Æra, ſem ſitie a Stol-
num. So ſem þar ſtendur i Openberingar b.
5. Cap. Og i Ordskvida Bok. 16. Cap. Le-
ſum vier, ad GUd hafe giort alla Hlute veg-
na ſialfs ſins. Sieu nu aller Hluter ſkapa-
der af GUde fyrer ſialfs hans ſaker, og bere
þeſſ-

þessvegna Vitnesburd um GUd, vijse oss og eirnenn veg til hans; þa er þad ecke af sier komed, helldur vel tilheirelegt, ad hvor eirn Christenn Madur, gefe giætur ad þvi, hvornenn hann verde med soddann mote leiddur til Guds. So hefur og sialfur Gud tilskickad, ad natturleger Hluter skule brukast i Sacramentunum, og vera ossi þeim Teikn, og Styrking, um Guds osijnelega giørninga, sem hann fyrer þau verkar og framkvæmer. Þar takast og eirnenn þralega i Skriptenne, Samlijkingar af natturlegum hlutum, uppa þa andlegu; so sem uppa vora Uppriisu 1. Cor. 15. Guds rijke: hia Matth. 13. og marga adra hlute i imsum stodum. Paulus og eirnenn i Pistlenum til Rom. 8. Cap. v. 19. 20. 21. miner oss a, ad gefa giætur ad Skepnanna Angist, og ahyggiusamlegre Epterbijdingu, ad þær vilia giarnann vera frijar fra Þrælkan og Þienustu fafeingelegrar Veru. um hvad verdur og framar høndlad i Psalm. 104. og ødrum þvilijkum Psalmum, so vel sem i Jobs Bokar 38. og 39 Cap. Enn þar um, ad undarlegt asigkomulag Skepnanna, leide oss og fære til þeirra Skapara? Um soddann høndlar og so Lærefaderenn Ambrosius, Basilius, og marger adrer i sijnum Utleggingum, yfer þau Verk Guds, sem

giordust a sex Dogum Skopunarennar. Ja, oss verdur og eirnenn i Ritningunne, so sem hia Matth. 6. v. 26. 28. og Jobs B. 12. Cap. v. 7. boded ad gefa gaum ad skopudum Skepnum, og af þeirra Yfervegan ad læra, og verda upp-hvatter til þess, sem heirer til vors Guds Pio-nustu; pad er og eirnenn tilheirelegt, og rett-vijst, ad eirn Christen-Madur bruke Guds Þeckingu, Dijrd, Lof, og Prijs. Þar fyrer er þad stodugt og oraskanlegt, ad slijk Um-þeinking skapadra Skepna, sem leiger oss leid til sialfs Guds, og hans rettrar Dijrkunar, er eirn partur af þeirre sonnu Guds Pionustu, og heirer þessvegna til þeim sanna Christendom.

Enn hvornenn færa oss þa og leida skapadar Skepnur til sialfs Guds? þad skedur med þvi mote, ad Gud sijner oss fyrer þær, sijna God-gyrne, Makt, og Speke, og kallar oss so, þar med til sijn. Enn sierdeiles giorer þad i þann mata, ad hann audsijner oss med þeim so miked gott, og hefur sett og skickad, þær allar oss til þienustu. Þvi ecke skedur soddan i þeirre Mei-ningu ad vier skulum lata oss nægia med slijkar Guds Gafur og ecke þeinkia þar umm framar enn so, ad horfa a þær sem Naut a Ny virke; eda bruka þær einasta oss til Lijsteseme, eins og Svinenn, sem eta Eple þau ed falla af Tria-

num,

num, en hura ecke neitt um þad, hvadan þau koma. helldur ad vier skulum taka oss Anleiding af slijkum Gafum Guds og skøpudum Skepnum, sem hann hefur oss gefed og epterlated til ad þeinkia umm þann, fra hvørium þær koma, og læra þar af, ad þeckia hann sialfann, og hvad hann af oss utheimter, og stunda þar epter, ad vier hann ottunst og elskum, fram yfer alla hlute, so og eirnenn, ad vier reidum oss uppa hann alleina og ecke neitt annad.

Þegar eirn Madur gefur synu Barne Eple, eda Peru, Hufu eda Treyu, Kyrtel eda annad þviumlijkt; þa giører hann þad ecke til þeß, ad Barned skule einasta elska þa sømu Gafu, og ecke hafa Þanka eda Gyrnd til annars framar, helldur giører hann þad sierdeiles til þeß, ad þad skule þeinkia til þess sem gaf soddann, elska hann og vyrda langtum meir enn Gafuna; Ja, hallda sig þvi framar til hans, ottast hann hiartanlega, elska og heidra. J Lijkann mata gefur Gud og eirnenn, vor himneskur Fader, oss ad vysu, i skøpudum Skepnum, margar ypparlegar gafur, hann meddeiler oss Regne, og friossømum Tijmum, af Himnenum, og ødru þvi li ku, og uppfiller vor Hiørtu med Fædu og Gladværd. Enn þad giører hann alldeiles ecke i þeirre Meiningu, ad

vier skulum festa vor Hiørtu vid slijkar Gafur, helldur vid hann sialfann alleina, sem þær veiter, og ad vier i soddann Gafum þeckium hann sialfann, elskum hann og dijrkum.

Hier af ma og eirnenn sia, hvad illa eirn Madur giører i þvi, þegar hann i Brukun og Umþeinkingu Skepnanna, lætur sier nægia med þær einsamlar, med Silfur og Gull, Hus og Garda, Akra, Merkur, Skoga, Makt, Byrdingar, og annad þvi umlijkt, sem fyrer Guds Augum er i sannleika ecke nema so sem Eple, og Perur, jafnvel þo þad væru heil Konga-ryke og Keisara-dæme, med þvi ad soddann Gafur eru ecke gefnar oss til þess, ad vor Hiørtu, Þankar, og sinne, skule leggia sig til þeirra, og dast ad þeim; helldur ad þær skule upplipta vorum Hiørtum, og hefia þaug langtum hærra; til þess, fra hvørium þær komu, hvør alleina a ad vera vort yparsta og einasta hiartans traust og Hlutskipte eilyflega, og ad vier lærum af þeim, ad þeckia GUd, framar enn alla hlute, dijrka hann, elska hann, þiona hønum, og vegsama hann.

Og þessvegna lætur Gud og eirnenn Mannenn koma og fædast i Heimenn fatækann, naudstaddann, nakenn, hungradann, og þyrstann, ad hann med soddann mote fyrer Guds

Margfalldar Gafur, og Velgiorninga, sem hañ ødlast, kuñe ad dragast, og drijfast til hans sialfs, ad hann meige smacka þar med, Guds sætu Elsku, og finna i þeim daudlegu og Naudþurftugu skepnum, þann odaudlega og almattuga Gud, sem i oendanlegann mata, kann langtum betur ad gledia, hugga, og styrkia, enn nockrar skapadur Skepnur. Jafnvel þo þær være hundrad þusund-sinnum so margar, sem þær eru, ja, þo þær hefdu hundrad þusundsinnum so storann ypparlegleika Vegsemd og Yndeslegleika sem þær hafa.

So eru þa Skepnurnar einasta þeir vegvijsendur sem skulu færa oss, og seigia leid til Guds vors Skapara, og vors hædsta Goda, hvørn vier skulum þeckia þegar vier brukum hans Gafur, hallda oss til hans og umfadma hann. þvi Ste. Paall i Giorn. B. 17. Cap. seiger, ad hann gefe oss, þessvegna Lijf og Anda, og allt gott, ad vier skulum leita hans, sem ecke er langt fra einum og sierhvørium af oss, i hvørium vier aller erum, lifum og hrærunst. Og hlytur soddann sierdeileß ad skie, fyrer Nad Drottens vors Jesu Christi, sem upplyser alla Menn, komande i þennann Heim, og er Guds Sonur og hans ædste Sendebode, sem vysar oss veg til Guds, ja, hann er su sterkasta Hond Guds,

sem oss fœrer og leider til hans. fyrer hvørn ad aller hluter eru skapadar bæde a Himne og Jørdu, verda borner og halldast vid magt; i hvørium byr øll Filling Guddomsens, Ja, af hvørium og fyrer hvørn ad aller hluter eru.

Þetta skal nu so sagt vera umm Innehalld þeirrar Fiordu Bokar. Hennar Sundurdeiling er þesse: ad i firra Partenum verdur talad um þær synelegu Skepnur almennelega; enn i þeim sydara um Mennena alleina, hvørier a medal allra annara synelegra Skepna hafa i sier Skilning og Skrinsemennar Gafur. Enn so miked sem ahrærer þa tals edur Rædu hætte, sem Meistarenn brukar i ødrum Parte þessarar Fiordu Bokar, ef þeir kunna ad sijnast a stundum nockud harder, þa ma lesa þar um sialfs hans Utlegging i einum og ødrumm Capitula, þess sama Parts, sem og eirnenn i Alyktunenne seinast yfer þa Fiordu Bok. Einkum og sierdeiles, skal hvør eirn vita, ad Meistarenn hefur klarlega, og med berum Ordum vitnad fyrer øllum, ad sinn Vilie og Aform vered hafe, ad so vel skillde þad, er þesse Fiorda Bok innehelldur, sem hinar adrar, skiliast einasta, epter þvi sem þær Symbolisku Kyrkiu-Bækur þess Lutheranisku Safnadar utheimta, og ecke ødruvyse. Guds Nad sieu þeir aller befalader, sem

sem þetta og hvad annad er Johannis Arndts Christendomur Innehelldur lesa, edur heira lesed.

# Registur yfer Capitulana i þeirre Fiordu Bok.



## Sa annar Partur um̃ Mennena sierdeiles.

Mynd, ad hann villde hafa i þeim fierdeiles sijna Lyst, og Velþoknan.



XVIII

XVIII. Ad oll su Hlydne og Þienusta sem Madurenn er GUde umskildugur kome Mannenum sialfum til gagns og goda.

XIX. Þvennslags Þienustu verdur samlykt, nefnelega þeirre, sem Skepnurnar eiga adveita Monnunum, og þeirre sem Mennerner eiga ad veita GUdi.

XX. Af þeirre Þionnstu, sem Skepnurnar giora oss, kann Madur lioslega ad sia, ad GUd hefur vissulega alla hlute i sinne Hende og helldur þeim vid magt.

XXI. Ad oll Verolldenn sie fyrer Skepnanna og Mannanna Þienustu GUde undarlega samteingd.

XXII. Ad sa Firste og hellste Kiærleike, sem vier einn GUde umskylldugir, fæde af sier annann Kiærleika vid Mennena.

XXIII. Orda og Nidurradan skapadra Skepna, syner oss, ad Madurenn er GUds Bylæte.

XXIV. Ad Mennerner sien hvor fyrer sig skylldugir ad elska hvor annann innbyrdes, so sem sialfa sig, og ad sa same Kiærleike kome Mannenum sialfum til Goda.

XXV. Efter þvi allar skapadar Skepnur þiona Ollum Monnum fyrer utann greinarmun, þa kenna þær oss þarmed ad aller Menn skule hallda hvor annann innbyrdes fyrer einn Mann.

XXVI. Ad sa hædste Styrkur, sem Madurenn hefur, kome af þeirre Sameiningu, sem natturleg skyllda Manna a mille, helldur þeim til.

XXVII. Um Kiærleikans Art, Natturu og Avoxt.

XXVIII. Kiærleikans Eigenlegleike er þad, ad hann sameinar sig, vid þann sem hann elskar.

XXIX. I Heimenum er eingenn Hlutur þess verdur, ad hann

-✠ (○) ✠-

# Fiorda Bok.

## Umm þann

# Sanna Christendom.

## Cap. I.

### Um̃ Lioſed ſem ſkapad var a þeim Fyrſta Deige Skøpunarennar.

1. Moſis. B. I.

Gud ſagde, verde Lios, og þar vard Lios.

Pſ. 104.

Þinn Klædnadur er Lioſed, ſem þu ert i.

Joh. I.

Gud er eitt Lios, og þar er eckert Myrkur i hønum.

Jobs Bokar 38. Cap. v. 19. ſeiger Ande Drottens, hvør er ſa Vegurenn, þar Lioſed bigger, og hvør er Myrkurſens Stadur? Hefur þu og ſied Myrkraña Ports-Dyr, Med hvørium ordum kent verdur, ad i þeſſu Lyfe kunne Menn, hvørke fullkomlega ad ſkilia, nie utmala, hvad Lio-

ſed ſie, og ad upprune Lioſens ſie fyrer vorum veikum og breiſkum Skilninge ogrypanlegur.

Þvi þo vier kunnum nockud þar um ad vita, annadhvort fyrir þad ſem vier ſiaum, med vorum Augum, eda leſum þar um i Heilagri Ritningu, þa er þad þo harla ſmar og lytell hlutur þar af. Job. 26. 14. Aungvu ad ſijdur ſkulum vier þo bruka þennann litla og ſmaa hlut, Gude til Dijrdar, af hvorium vier kunnum ad merkia, og finna, ad Lioſed er eitt edla, nettur, og hrein Glantſe, Skin og Biartleike, ſem i Skopunenne hefur vered ſkiled fra þeim ſtoru Heimſens Myrkrum, þegar Skaparenn baud Lioſenu ad ſkijna 2 Cor. 4. v. 6. fyrer hvort Heimmuren upplyſeſt, hreſſeſt, þeckeſt greinelega, og verdur miog ſkinſamlega og furdanlega openberadur; Ja, Lios Lijſſens, epter ſumra Meiningu inflytur med ſoddann mote kropuglega i þan ſtora Heim og ſammeiner ſig, edur innlyſar med furdanlegum hætte, ollum ſkopudum Skepnum, af hvorium Glantſa ſu hædſta Fegurd og Skiærleike er i Solarennar hnottottum Lykama, ſo ſem i þad retta Dags lios, ſamanſettur til ad upplyſa og ſtiorna Deigenum, og þar fyrer hefur ſa almattuge Skapare, kallad Lioſed, Dag. Enn med þvi einum

Chri-

Christnum Manne byriar, med ſijnum Salar og Truar Augum, med ſoddann mote ad alijta ſkapadar Skepnur, ad hann þar med kunne og ſo ad ſkoda þa andlegu hlutena, og ſierdeiles ad ſia og ſkoda Gud ſinn Skapara, og af Giørningunum vegſama verkanna Meiſtara; þa vilium vier eñ og ſo i þeſſu efne forliſta oſſ og ſia, hvørnenn þad lykamlega Lioſed vyſar oſſ til þeſſ andlega, og ber vitne um Gud og vorn Herra JEſum Chriſtum. Allyktum vier þeſſ vegna a þennnan hatt, hafe Gud ſkapad Lioſed, ſo ypparlegt, Gott, og gledelegt, lyfgande, Skiært, lyſande, ſkynande, og glanſande, hvad miklu dægelegra, ypparlegra, og langtum fagurlegar ſkijnande, og lyfgande Lios ma hann þa ſialfur vera? Þar fyrer framſetur Utleggiare Læreføðurſins Dioniſii eina Spurning, hvar fyrer Gud hafe fyrſt Lioſed Skapad? og ſvarer þar til; þviad Lioſed ſie Gude harla lykt, og utrunned af þvi Guddomlega Lioſenu, ſem yfergeingur allann Skilning, og kallar og eirnenn þeſſ vegna Lioſed Jmind Guds Giæſku, og ſeiger, ad Lioſed ſem yfergeingur ſkinſemena, ſie ſialfur Gud: þad Lios, ſem Menn kunna med ſkilningenum ad grypa, ſie i Einglum og Mønnum, og þad ſynelega Lios ſie i Solenne. Epter þvi Gud hefur og ſo

ſo ſkapad Lioſed til þeſſ, ad allar ſkapadar Skepnur ſkule þar med þeckiaſt og adgreinaſt i þeirra utvortes Aſynd, Hegdun, Fegurd og Jndeslegleika; þa ma þar og ſo af alyckta, ad þar ſie eitt annad huled Lios, fyrer hvørt allra Skepna Jnnvortes Mind og hattalag verdur yfervegud, og þeckt; fyrer hvøriu Lioſe, eckert kann ſig ad hilia, hvørſu heimuglegt ſem þad vera kann. þetta ſama hulda Lios, er Guds þeſſ eilyfa Lioſens Glanſe og Vegſemd, fyrer hvøriu erkert erhuled Spek. B. 7. v 26. Hier um talar Dionyſius ſo: lyka ſem þetta ſynelega Heimſens Lios, ſem er ſkapad, ſtyrer, nidurradar, ſtiornar, og uppfiller allt þad ſem er under Himnenum, ſo uppfiller og upplyſer, þad oyfergrypanlega Lioſed, edur þad Lios, ſem yfergeingur allann Skilning, og Forſtand, alla yfer himneſka Anda, med andlegre Upplyſingu; hreinſar allar Saler, giorer þær hluttakande i Lioſens Samfielagſkap, og burt dryfur fra þeim Mirked. meddeiler þeim fyrſt eirnere litlre tegund af Lioſenu, og ſydann nær þær profa þad og þeckia þad, og upptendraſt til þeſſ med ſtorri Epterlangan; þa utheller þad ſig i þær, meir og meir, epter þvi ſem þær, hafa Liſt og Løngun þar til. og ſo ſem þær kunna þad ad grypa og umfadma; þar fyrer yfer geingur

geingur þetta oyfergrypanlega Lioſed allt Lios/ ſem ſa hædſte Liome/og eitt yferſliotanlegt Lios; og upplyſer alla Anda med Fillingu ſijns Lioſſ/ og ſo ſem Upprune til allra Lioſa/ innebindur i ſier i hædſtu Troppu/ allt þad Lios/ ſem er i Ondunum/ Einglunum/ og ollum odrum ſkopudum Skepnum/ og giorer alla ſkinſemdarfulla hlute odaudlega/ þvi lijka ſo ſem Vanvitſkan ſkilur þa fra Lioſenu/ ſem eru blindader/ og afvega Leidder; ſo upplyſer þar þvert a mote nærvera þeſſ oyfergrypanlega Lioſens/ alla þa ſem upplyſter verda/ ja/ ſaman ſafnar þeim/ ſameiner/ fullkomnar/ og frelſar þa fra Villu/ Vanvitſku/ vyſar þeim til þeſſ ſem ſatt/ og rett er/ og færer allra handa falſkar Innbirlingar og Hugſkots Mynder til eirnarar hreirnrar Þeckingar einaſta/ og uppfiller þa med einu einingar fullu Lioſe: þetta eru ord Dionſii.

So ſieſt og eirnenn af Solenne og Lioſenu Guds einſkiæra/ innelega og brennande Elſka. Þvi fyrer hvorn hefur Gud ſkapad Lioſed og Solena? Ecke fyrer ſig ſialfann/ hann hefur ecke þorf a nockre Sol/ eda ſkoprdu Lioſe/ þar hann er ſialfur þad eilyfa og oendanlega lioſed/ helldur hefur Gud ſkapad Solena og Lioſed/ſem lyſer fyrer oſſ/ til goda; og ſkijn þeſſ vegna og ſieſt Guds Kiærleike vid oſſ/ af Solenne og

Lioſenu. Og lijka ſo ſem Lioſed og Solenn ſijner oſſ Guds Giæſku, i øllum hlutum, ſo er og Guds eilyfa Vijsdoms og giæſku Lios, ſoddann ein Sol og Lios, ſem audſijner oſſ Guds Godgyrne og Kiærleika i ølluni hlutum, og kallaſt þeſſvegna i Spekennar B. 7. v. 26. Mind guddomlegrar Giæſku.

Lioſed giører nidurradan a øllum hlutum, gefur þeim viſſann Skamt, Tyma, Maata, og Adgreining; þvi være ecke Lioſed, þa yrde ecke annad enn Hræringur, Oſkick, og Samſull i øllum hlutum, eins verkar þad Lios, Guds Giæſku, og Vyſdoms, ad aller hluter blyfa i ſinne rød hafa ſinn viſſann Tyma, Skamt, og Maata. Liooſed med ſijnu Skine, Glantſa, og Pryde, dregur og loͤkar til ſijn alla hlute; ſo dregur og ſo Guds Giæſka, og Speke alla hlute epter ſier, og til ſijn, ſem til þeſſ fyrſta Uppruna, hvar aller hluter finna ſijna Roſeme og Næring.

Sia hvad hreint ad er Solarennar Lios, ſem ecke kann fleckad ad verda, en langtum, ja, oendanlega ſkiærare, hreirnre og ofleckadre, er Guds Elſka og Godgirne vid oſſ, og kallaſt þeſſvegna med fullum rette eirn ſkiær Speigell, guddomlegs Kraptar i Spek B. 7. v. 76. Gef og eirnenn giætur ad þvi, hvørſu rijkuglega, og

yferfliotanlega, Liosed flytur ut af Solunne; so utfossar Guds Elska og Godgyrne yfer oss langtum yferfliotanlegar; Ja, utbreider sig yfer oss i Oendanlegann mata. Solen og Liosed, eru ecke hreckvijs, nie ogunstug, þau halldа ecke siinum Lioma, og Glantsa inne fyrer nockrum Manne, Eins utbreider sig Guds Kiærleike og Giæska ut yfer allann Heimenn, og meddeiler sier øllum. Solarennar Lios utgeingur af instu Veru Solarennar; so utgeingur og eirnenn Guds Elska til vor, af hans innvortis Hiartans Asetninge og Vilia.

Framar er þess ad giæta, ad med þvi sa almattuge Gud hefur skapad þad lykamlega Lios handa þeim lykamlegu hlutum, þa ma hann ogso vissulega hafa skyckad og til sett Salenne eitt andlegt Lios; og hafe hann sied Mansens Lykama fyrer so dægelegu, og prydelegu Liose, þa ma hann og so vissulega miklu framar hafa tilbued Salenne eitt innvortes Lios; ja; sannarlega hefur hann þad giort, og þetta Salarennar Innvortes Lios, sem adur er sagt, er Gud sialfur, af hvøriu vor Skilningur, fyrer Guds Þecking upplyst i Trunne, og þar fyrer seiger Spamaduren Esaias til Folksens Es. 60. v. 1. Giør þig reidubuenn, og vert klar, þviad þitt Lios kemur, og Dyrd Drottens upprennur yfer þier.

Lyka ſo ſem Solenn og Lioſed upplyſer Heimenn, ſo upplyſer Gud vora Salu, þar fyrer kallaſt Gud, Jac. 1. v. 11. Lioſens Fader; og um Chriſtum talar Johannes þannig Joh. 1. v. 9. ad hann ſie þad ſanna Lios, hvørt ed upplyſer alla Menn, ſem koma i þennann Heim, og hia Malachiam Spamanne kallaſt hann Sol Rettlætiſſens Mal. 4. v. 2. þarfyrer er og H. Ande openberadur i Mind logande Geiſla, og Lykingu elldlegra Tungna, ſem ſette ſig yfer Poſtulana a Hvytaſunnu Hatyd Act. 2. 3. Af þeſſu eilyfa Lioſenu upprennur i øllum GudsEinglum, ſo vel ſem i Salum þerra Heilogu, Lios Nadarennar, Lios Vysdomſens og guddomlegrar Þeckingar, Lios Lyſſens og Sannleikſens, Lios Glede og Huggunar, Lios Guds Dijrdar og Vegſemdar, ja allra heilſuſamlegra og chriſtelegra Dygda Lios. Lioſed er ein dægleg Fegurd og Pryde, þar fyrerſtendur ſo ſkrifad, i Pſalm. 104. 2. Herrann klæder ſig Lioſenu, ſem einu Klæde, Luc. 2. 9. og fegurd og Pryde þeirra H: Eingla er Byrtann af Lioſe Drottens. J þvi eilyfa Lyſenu verdur og ſo Lioſed og Byrtann, Fegurd og Priide þeirra utvolldu. þvi þeir Riettlatu munu ſkijna ſem Solenn, hvad og merkeſt fyrer þa Kvinnu, ſem Solunne var ummſkrydd. Openb. 12. v. 1. So ſem Lioſed er hin dægelegaſta

ga a Fegurd, og Priide, þeſſa forgeingelega Heims, ſo mun og þad eilyfa Lioſed verda hin hædſta Priide og Vegſemd i tilkomande Veroll-du þeirre himneſku Jeruſalem. Openb: 21. v. 11. Þvi meira Lios ſem eirn hlutur hefur, þvi yppar legre er hann almennelega, ſo ſem vier ſiaum a Einglunum, Solunne, Tunglenu, Stiornunum, Gimſteinunum, Malminum, og odru þeſſ hattar, ſo er og Digdenn eitt ſkiært Lios, og allar þær Gafur, ſem þeir utvolldu hafa ſier ad vænta, munu i þvi eilyfa Lyfenu ſkijna i þeim, þar fyrer mun þar, Lyka ſem Solenn og Stiornurnar, eirn yferganga annann i Biartleika 1 Cor. 15. v. 4. Lioſed færer med ſier Inde og Glæde, enn hvad ſtora Glede mun þad eilyfa Lioſed med ſier færa, þegar ſa eilyfe Biartleikans-Dagur frambrunar? Skulum vier meina, ad þad eilyfa Lioſed, kunne ecke framar ad færa med ſier Glede og Unadſemd, enn þeſſa Heims forgeingelega Lios, ſem nu hlytur ad ſkijna yfer þvi ſorgarlega framferde a Jordunne? Lioſed uppvekur þa ſem ſofa; ſo uppvekur og eirnenn Chriſtur, vort Lios, oſſ af Svefne Sindanna, vakna þu upp ſem ſefur ſeiger Paulus Eph. 5. v. 14. ſo mun Chriſtur upplyſa þig. Lioſed vyſar oſſ Vegen, þad giorer og eirnenn vor Herra JEſus Chriſtur, þar fyrer ſeiger

hann Jeg er Lios Heimſens, hvør ſem mier epterfilger ſa mun ei ganga i Myrk unum, helldur hafa Lyſſens Lios. Lioſed fœrer med ſier eirn hulenn Lyſſens Krapt, eins er Chriſtur vor Drottenn ſoddann eitt Lios, i hvøriu ad Lyfed er, og Lyfed er Lios Mannanna, ſem Johannes ſeiger i 1. Cap. Drottenn er mitt Lios, og mitt Hialprœde, hann er Kraptur myns Liifs, ſeiger og David i Pſalm. 27. v. 1. Lioſed kann Madur ecke ad ſia, fyrer utann Lios, ſo kann Madur ecke helldur Gud ad þeckia, nema fyrer Chriſtum, og Heilagan Ande. J þynu Lioſe ſiaum vier Lioſed ſeiger Spamadurenn i Pſalm. 36. 10. Lioſed burtrimer Myrked, ſo burt dryfur og Guds Lios, ſem er Chriſtur, Vantruna, og oll Myrkranna, og Satans Verk, i oſſ, med þvi mote, ad Gud ſeiger i oſſ, ſem i Skøpunar B. 1 Cap. verde Lios. Þar fyrer ſeiger og David Pſ. 18. v. 29. Þu upplyſer mitt Lios Drottenn Gud minn; Drottenn minn Gud, mun giøra mitt Myrkur ad Byrtu. Hia Luc. 1. ſtendur, ad Herrann mune ſkyna fyrer þeim, ſem ſitia i myrkre og Daudans-Skugga; og S. Johannes vottar i Op. B. 18. v. 1. Jeg ſa eirn Eingel ofannfare af Himne, og Jordenn upplyſteſt af hans Byrtu.

Þegar dagſens Lios burtrykur, þa kemur i þeſſ ſtad, Nottenn og Myrkred, og Tunglſens þyckt ſkijnande Glantſe upprennur umſider, ſo ſem eitt Nætur-Lios, ſo er þar og eirnenn fy-

fyrer utann Chriſtum, einſamalt Myrkur og eingenn Sol, helldur forblindar og formyrkvar Skinſemennar favyſt Nætur-Lios Manſens Skilning. Enn lijka ſo ſem þeir ſkycka ſier barndomlega, ſem vilia helldur hafa Birtu af Tunglenu, enn Solunne; ſo giøra þeir og enn þa faviijſlegar, ſem helldur vilia verda upplyſter af veralldlegum vijsdome, enn af Chriſto, þeirre guddomlegu og eiliifu Spekenne. So heimſkulegt ſem þad er, ef einhvør villde helldur lata eitt Vax eda Kerta-lios lyſa ſier a Dagenn, enn Solena; So heimſkulegt er þad, og enn þa langtum framar, ef eirn þikeſt ſia betur, og verda ſkinſamare fyrer veralldlegann Vijsdom en fyrer Guds Speke, ſem er Chriſtur. Æ! hvad fyrer Daruſkapur ma þad vera, ad eirn ſkule vænta ſier meire Upplyſingar af ſkopudum Skepnum, enn af Skaparanum? Sa ſem hier ſkilur vel mijna Meining, hann hefur rettelega biriad, ad na þeirre guddomlegu, eiliifu, og himneſku Spekenne, epter hvørre viér verdum i Pſalm. 119. og i Bok Spekennar, a fyſter mikelega ad ſtunda. Solenn og Lioſed eru himenſens Pryde, eins er og Herrann JEſus Chriſtur i þeirre tilkomande vegſemd Pryde ſinnar Kyrkiu, og Safnadar, ja, fegurdar Skart þeſſ nya Himens,

mens, og þeirrar niju Jardar; þegar þad mun openbert verda, fyrer Augum allra utvalldra, hvornenn hann er Liome Dijrdar ſijns Fodurs og rett imind hans guddomlegrar veru Eb. 1. Lioſed giorer eirn Buſtad næſta yndeſlegann, þarfyrer er og Guds Buſtadur miog yndeſlegur, þvi hann er Lioſed ſialft til hvørs eingenn fær komeſt 1 Tim. 6. v. 16. So hefur hann og ſo giort þa himneſku Jeruſalem til eins liſtelegs Buſtadar, ſem ecke þarf vid Solar og Tungls, helldur upplijſer Diird Drottens hana, og Lambed Guds er hennar Lios Opb. 21. v. 23. Lioſed openberar alla hlute, ſo kann og ecke neitt, epter þvi ſem adur er ſagt, ad ſkijla ſier fyrer Guds oendanlega Lioſe, hvort helldur þad er a Himnum edur a Jordu. Jafnvel allt þad ſem er i øllum Ondum, og i øllum Mannanna Salum, er fyrer hønum lioſt og openbert, ſo ad þankar manlegs Hiarta, jafnvel þeir minſtu, kunna ecke fyrer hønum hullder ad vera, hvar um Skriptenn ſo talar i Pſalm. 90. v. 8. Þu ſetur vorar ovitanlegar Synder i Lios fyrer kijnu Auglite; og i Pſalm. 139. þu formerker mijnar Hugrenningar aleingdar. Item i Spek: Bok 7. Guds Speke geingur i gegnum alla Anda, hvørſu higner, ſkiærer, og ſkarper, ſem þeir eru. Lioſed gefur ſig tit til allra ſkapadra Skepna, og utheller ſier alldeiles yfer

allan

allann Heimenn, ſo ſkipter Gud ſier med ollum Skepnum, enn þo ſierdeiles med Monnunum, og þad er hans Liſt og Glede, ad hann kunne ad giora Monnunum til goda. Lioſed og Solenn, er og ad ſijduſtu, eitt vitne um Forklaran vors lijkama, og Salar i Uppriſunne. Ad viiſu forklaraſt og eirnenn vor Sal i þeſſu Liiſe fyrer H: Anda, hvar um S. Paull vottar ſeigiande: Nu ſkodum vier aller Byrte Drottens, ſo ſem i Speigle, med ohuldre Aſian, og vier verdum um breitter, til Þeirrar ſomu Myndar, fra einum Biartleika til annars, ſo ſem af Anda Drottens 2 Cor. 3. v. 18. En þad er ecke nema litel Uppbyriun, ſem er olldunges ofullkomenn; En ſijdar meir mun vor lijkame og Sal, forklaraſt med eilijfum, og oaflatanlegum Biartleika, hvar um S: Paull ſo talar 1 Cor. 15. v. 41. Annann Biarleik hefur Solenn, enn annann Tungled, annann Biartleik hafa og ſo Stiornurnar, þvi onnur Stiarnann yfervinnur adra i Biartleika, ſo er og Uppriſa framlidenna, Og Daniel ſeiger i ſinnar Bokar 12 Cap. Þeir ſem odrum hafa kent, munu ſkijna, ſem Himenſens Geiſlar, og lijka ſem Stiornur um alldur og ad eilijfu. Item ſeiger ſialfur Endurlauſnaren hia Matth. 13. ad Þeir Rettlatu munu ſkijna ſem Sol i Rijke Fodurs Þeirra.

Uppa þetta var Chriſti Forklaran ein Fyrermindan, þegar hans Andlit liomade fyrer Augum Johannis, Op. B. 1. og fyrer Petre og

Jo-

Johanne, a Fiallenu sem skiæra Sol, og hans Klæde, urdu hvijt sem Snior Matth. 17. v. 2. þad var sa himneske Glanse. þeirrar eilijfu Solarennar. so skein og eirnenn andlit Mosis, sem eirn Elldur og Sol, so ad Israels Børn kunnu ecke uppa hann ad lijta, fyrer Biartleika saker 2. Cor. 3. v. 7 og kom þad til af þvi, ad Gud hafde rædt vid hann; jafnvel þo hann hefde ecke vered nema faa dage hia Drottne / og talad vid hann. Hvada Fegurd / og vegsemd, mun þar þa lysa, og Lioma i oss, þegar vier munum bua hia Gude æfenlega, og vera altijd hia honum? En þad mun ecke verda eitt skelfelegt Skin, so sem af andlite Moysis, helldur lijfelegur og yndeslegur Glantse, þviad uunarsamleike þess eilijfa Liossens, sem er Christur, mun þa forklara oss, so ad jafnvel vor Lykame mun þa verda lijkur hans dijrdarfullum og forklarudum Lykama.

Ad sijdustu kenna þad, og eirnenn Natturu spekingarner, ad i flestum Lijkømum a Jørdunne, sie og so eitt huled og folged lios, sem kome fyrer dag, þegar þeir rotna, siaest þa og þeckest: hvørt og so er Fyrermindan uppa forklaran vorra Lijkama i Uppriſunne sem epter Myrkur Forrotnunarennar i Grøfenne, munu um sijder aptur framkoma til Liossens og

Vegſemdarennar. Og þo þeim verde nidurſad i Forgeingelegleika, þa munu þeir þo upp aptur riiſa i Oforgeingelegleika, og þo þeim verde nidur ſad i Myrkre og Vanſemd, þa munu þeir þo upp aptur ſtanda, i Æru, og Vegſemd, Lioſe, og Glantſa, og þa lioma ſem Himenſens Geiſlar, Sol og ſtiørnur, epter ſem adur ſagt er.

# Cap. II.

## Umm Himenenn, og hvørnenn hann vyſe oſſ til þeirra Andlegu Hlutanna?

Gen. 1.

Og Gud ſagde, þar verde ein Feſting a mille Watnanna, ſem i ſunder ſkal ſkilia vøtnenn, hvørfra ødrum. og Gud Kallade Feſtingina Himenn:

Pſalm: 104. 3.

Drottenn þu utbreider Himenenn ſem annad Vefnadar tialld, þu hvølfer hann øfan med vøtnunum, þu fer a ſkynnum, ſem a ødrum Vagne, og geingur a fiødrum Vindſens.

Pſalm. 19.

Himnarner framtelia Guds Dyrd, og Feſtingenn kungiører Verk hans Handa.

Umm Himenſens Materiu, edur Efne, natu-

turu, art, og eigenlegleika, falla imeſleg Spursmal, Kapprædur og þrattaner, a medal þeirra Lærdu, ſo vel Andlegra ſem Veralldlegra. Enn vier vilium bliifa vid þad viſſaſta, ſem er, ad Himenenn er firſt ein utþanenn og utbreidd Vera; þviad þau Ord, i hvørium talad verdur: Gen. 1. um Skøpunar verk þeſſ annars Dags, hlioda einfalldlega i høfud textanum a þennann haatt. Þar verde ein utþanenn Feſting midt i Votnunum, og þegar Ande Guds, i Jobs B. 37. v. 18. vill gefa til kinna, ad Gud alleina hafe ſkapad Himenenn þa ſeiger hann til Jobs, kantu ad utbreida Himenenn med Drottne? þad er og ecke oliiklegt, ad Himenenn ſie giørdur af Vatnenu: liika ſem Lopted gioreſt af Vatnenu, fyrer eina Utþenſlu; (Utſtrecking) einkum þar Vatned er ecke ohentugt þar til. Herrann baud og eirnenn i Skøpunenne ad Himenenn ſkillde bliifa i Vatnenu, þegar hann ſagde: verde ein utþanenn Feſting i Vatnenu. Enn um þetta ma hvør eirn biihallda ſinne eigenn Meiningu. Þar næſt er Himenenn og ſo, epter þvi ſem Sionenn, og Skinſemenn, ſo vel ſem Høfud ſkepnanna Nidurradan, gefur oſſ ad merkia, ſoddan ein utþanenn Vera, ſem er harla ſmaſmugleg, hrein ſkign og gagn ſkiær. hvad klarlega ſieſt, ef Menn bera Himenenn ſamann vid

adrar

adrar Skiepnur og Lijkama. Skoda þu Jordena, hvad þick, svert, myrk, dimm hun er; lijt og so þvi næst a Vatned, og muntu strax formerkia, ad þad er ecke so myrkt, þickt, og dimt, sem Jordenn, helldur langtum smasmuglegra, skignara, skiærara og hreirnra, og þvi minna sem þad er blandad, af Jordunne, þvi hreinara er þad, so ad Madur kann jafnvel adsia, nockrar alner diupt nidur i þvi. Lijt sijdann til Loptsens, og muntu merkia, ad þad er enn þa langtum smasmuglegra, hreirnra, skignara, og gagnskiærara, so ad Madur kann ad sia nockrar mijlur, i gegnum þad, og þegar þad er nalægt einum, þa er þad so klart og gagnskiært, sem þar være ecke neitt fyrer hans Augum. so er þa Vatned skiærara, og smasmuglegra enn Jorden/ og Lopted skiærara, og smasmuglegra, enn Vatned; enn Himensens Materia edur vera, er enn þa langtum skiærare, og smasmuglegre, enn Lopted, hun er i margra þusund milna leingd, so sem þar sie ecke neitt, fyrer Mansens Augum, so vier kunnum klarlega ad sia, og þeckia Stiornurnar i gegnum hana, af hvorium þær flestu eru, so sem i oendanlegu diupe langt fra oss. So er og i þridia mata Himensens Vera, fyrer saker sijns Hreinleika, stodug, varanleg, og aungre Fordiorfun

fun under orpenn; hun a ecke ſkyllt vid þuiliſka Spillingu, og Oſtødugleika, ſem jardneſker hluter. Himenenn, og Spillingarennar, Ohreinleike, eru tvær Natturur, hvør annare gangſtæd. J fiorda mata, er Himenenn og ſo fullur af undarlegum verkande Kroptum, ſem eru ſetter til ad hafa Stiorn og Verkan i Jardneſkum hlutum. J fimta og ſijdaſta mata, er hann, ſo vijdt ſem merkia ma hnøttottur, og avalur, ſem og harla vijdur og har; ad nockru leite, ſo hann Jnnelike i ſier; og umveſie Stiørnurnar, Hafed, Jørdena, og allt þad ſem þar med filger; og ad nockruleite til þeſſ, ad hann utdeile, þeſſ hentuglegar, ſijnum Kroptum, til alls þeſſ ſem i hønum er innelukt. hann hefur þo annars ecke neitt, ſem hønum hallde uppe, edur hann ſtidie ſig vid, helldur ſtendur hann alleina og bliifur, fyrer Guds Ord og Befalning, ſo ſem Gud hefur hann i fyrſtunne ſett. Þetta er nogſamlega rædt um Himenſens Efne og Veru.

Nu vilium vier adgiæta, hvørninn ad þeſſe lykamlege Himen vijſar oſſ til þeirra andlegu hlutanna.

Mun ecke þeſſe undarlege, dægelege, ſkiære, og hreine Himen, bera eirn merkelegann Vitneſſburd um Gud. Hvad er Himenenn og oll

prij-

Þriðde skapadra Skiepna seiger eirn af þeim gomlu Lærefedrum, annad enn eirn Speigell, i hvorium Madur kann lioslega ad sia, Meistara stycke þess hædsta, og ypparlegasta Verks meistara? Hafe sa almattuge Gud skapad Himenenn, og giort hann soddann eina hreina, skiæra, og ypparlega Veru, ad hun kann ecke af oss, i þessu voru daudlegu stande, og Skilnings Veikleika ad ollu leite nogsamlega ad utgrundast? Hvad yfer allann mata, skiær, hrein, herleg, og ypparleg Vera, mun hann þa sialfur vera? Himensens mikla Hæd og Vijdd, i mote hvørre Jordenn er ecke ad reikna, neina so som eirn lijtell Punctur, eda Prik, bender oss til Guds oransakanlegrar, og oendanlegrar storu Magtar, og Vijsdoms, hvar um Drottenn sialfur so talar hia Spamannenum seigiande Es. 55. v. 9. So miklu meir sem þad Himininn er hærre enn Jordenn, so eru eirnenn mijner Veger hærre enn ydar Veger, og mijnar Hugraner hærre enn ydar hugraner. Þetta Krynglotta og hnøttotta Form Himensens med sinne Vijdd og Hæd, vijsar oss Veg til Guds Eilijfdar. So sem þar er hvørke upphaf nie Ender a einum Hrijng edur Krijnglu, so er og eirnenn Gud fyrer utann allt Upphaf og Ender. Sama hnøttotta Form vijsar oss og eirnenn til Guds allstadar Nalægdar. Efad

Himininn inne likur i ſier alla hlute, og med ſinne omælanlegri Hnotts Vijdattu, yfer griipur og umfadmar alla hlute, ſkillde Gud þa ecke miklu framar alla hlute yfergriipa, inneliika, bera, og umfadma? Hvør metur, ſeiger Eſaias, Eſ. 40. v. 12. Vøttnenn med Hnefanum, og innelykur Himenenn med Spønninne og yfergriipur Jørdena med eirne þriggia þumlunga Breidd, og vegur þau Fiøllenn, med eirnre Vigt, og Halſana med eirnre Vog? er þad ecke Drottenn. So ſem i einum krynglottum Hnette, er ecke neitt, under eda yfer, hærra eda lægra, helldur allt eins, og med liikum hætte, yfergriped og innelukt; ſo uppfiller Gud allt eins alla hlute, hann uppfiller Himenn og Jørd, og er ecke langt fra einum og ſierhvørium af oſſ, þvi vier lifum, hrærumſt; og erum i honum. Act. 17. v. 28. Samt eru Menn under oſſ nedannverdt a Jørdunne, og margar adrar Guds ſkapadar Skepnur, epter þvi ſem Jardarennar kringlott aſigkomulag tilviiſar, en þo hefur Gud þvi ſo hagad og tilſkickad, ad Himenenn er a allar ſiidur, ad ofan verdu, og aller hluter meiga horfa upptil Himenſens og ſtanda under honum, vegna hans kriinglottu og omælanlegu viiddar, hvarum Syrach ſo talar Cap. 43. v. 14. Hann hefur Himenenn finlega krynglottann giørt, og Hønd hins Hædſta hefur hann utviidkad, ſo ad Hi-

me-

menenn þar fyrer, skijler øllum hlutum állt i kryng: og hia þeim øllum er Gud med sinne allstadar Nærveru, og skilur aunguann epter, so ad þar fyrer verdur sagt, i Ps. 65. v. 6. Hann er Traust allra þierra sem a Jordunne eru. Himensens Festing, Oumbreitanlegleike, og Stadfesta, minner oss a Guds og hans Ords Oumbreitanleglika, Stødugleika, og eilijfann Sannleika. Himenenn er fyrer Ord Drottens giørdur, seiger Spamadurenn Ps. 33. v. 6. Og hvad helldur Himnenum uppe, so hann dettur ecke nidur? er þad ecke Guds Ord? Uppa hvøriu hanger hann? a aungvu ødru enn Mætte og Krapte Guds Ords? Drottenn utbreider Nordred uppa ecke neitt. seiger Job. 26. v. 7. 9 11. Stolpar Himensens hrædast, og skelfast, fyrer hans Avitan, enn hann uppehelldur sijnum Stol, og utbreider sin Skij þar yfer. Ef Guds Ord kann nu ad giora Himeninn, so fastann og stødugann; skyllde þad þa ecke og so kunna ad giora þig stedugann, so þu ecke eilijflega hraser. Hallde Gud Himnenum vid magt, og bere hann fyrer sitt kroptuga Ord, skillde hann þa ecke og so kunna, med Krapte sijns Ords, ad bera þig, og binda enda a þad allt, an aflats, sem hann hefur þier heited og lofad? Hier ad auke skal og þesse utvortis Himen leida oss inn til vor sialfra, til vors eigenn Hiarta

og Salar. Þar hefur Gud og eirnenn sinn Himen, i hvørium hann bijr, þar fyrer mæler Esaias þannig Es. 57. 15. So seiger sa hinn Hafe og hann sem upphafenn er, sa ed æfenlegana biir, hvørs Nafn ad er heilagt; Jeg, sa sem i Hædunum og Helgedomenum bigge, og ihia þeim sem hafa sundurknosadann og lijtelatann Anda, so ad eg lijfge Andann þeirra lijtelatu, og Hiørtu þeirra sundurmørdu. J soddann einu Hiarta er Gud med øllu sijnu Ryke, og bijr i þvi so sem i sijnum andlega Himne.

Um sijder mun og þesse lijkamlege utvortis, og forgeingelege Himen, leida oss til þess eilijfa, oforgeingelega, og andlega Dijrdar Himens. Hafe Gud skapad so fagrann og dægelegann Himen, handa daudlegum Skepnum, i hvørium þær verda inneluktar, og vardveittar; hvad dægelegann, og ypparlegann Himen og Bustad, ma hann þa hafa bigt handa þeim odaudlegu, og oforgeingelegu Skepnum? Vier vitum seiger Postulenn 2 Cor. 5. v. 12. þo þetta Jardneska Hus, vorrar Tialldbudar, verde nidurbroted, þad, ad vier høfum Bigging af Gude uppbigda, Hus, eige med høndum giørt, þad æfenennlega er a Himnum, og þar epter andvørpum vier eirnenn, epter vorre Bigging, sem er a Himnum. Psal. 16. 11. Þad er sa Himen, hvar ad er gnott Fagnadarens, og gledelegt Lijf til Guds hægre Handar eilijflegana. Paulus kallar hann og eirnenn Paradijs, og þann Þridia Himen: 2 Cor. 12, 2. han kallast og

so i Skriptenne Himnanna Himen. 1 Reg. 8. v. 27. Um̄ hann talar og Christur, þegar hann seiger hia Joh. 14 Cap. v. 2. J mijns Fødurs Huse eru margar Verur, enn ef ei so være, þa villda eg segia, ad eg fære ad tilbua ydur stad. Hann mun og eirnenn a Dómsens-deige verda vor sa nye Himen og su nya Jørd, þegar þesse sijnelege Himen og Jerd munu forganga; þvi þesse sijnelege Himen, sem i sinn mata er ecke alldeiles hreirn fyrer Gude, epter þui sem þar stendur i Jobs B. 15. 15. mun a samt med Jørdunne um sijder hafa eirn Enda, so ad David seiger þessvegna. Drotten þu hefur Jørdena adur grundvallad, og Himnarner eru þijn Handaverk, þeir munu forganga, aller munu þeir fyrnast so sem eitt Fatt, og þegar þeir forganga, mun sa nye Himen, og su nya Jørd koma i þeirra stad. þar fyrer seiger Postulen Ste Petur, Dagur Drottens mun koma sem Þiofur a Nott, a hvørium Himnarner munu forganga med Storbrestum, enn Høfud skepnurnar bradna, og Jørdenn, og þau Verk, sem þar eru inne, munu uppbrenna enn vier væntum epter nyum Himne, og nyrre Jørdu; epter hans Fyrerheite, i hvørium ad Riettlæted bigger. 2 Pet. 3. 10. 13. Hierum talar og so Johannes seigiande Jeg sa nyann Himen og nya Jørd, þviad hinn fyrste Himenn og fyrsta Jørd forgeingu, og Siorenn er ecke meir, og sa uppa Stolnum sat sagde, sia, eg giøre alle hlute nya Op. B. 21. v. 1. 5. og Drottenn seiger

ger hia Spamannenum Esaiam i 65. v. 17. Sia þu, eg vil skapa nyann Himin og nya Jord, so ad menn munu ei leingur minnast a þad fyrra. Þad er sufagra dægelega, og ypparlega, Guds-Borg, su priidelega Jerusalem, hvørs Biggingar-Meistare ad Gud er. Æ: hvad ypparlegur og yndeslegur Himen/ og Bustadur mun þad verda? þetta er su Vegsemdenn, um hveria Guds Ande seiger, ad þad hafe ei auga sied, og eige eyra heirt, og ecke hafa þad i nockurs mans hiarta komed, hvad Gud hafe fyrerbued þeim er hann elska, 1 Cor. 2. v. 9. og þar fyrer utmalar Johannes þessa Borg og þennan Bustad. so sem fyrer eina Figuru med Samlykingu þeirra hluta, sem eru hiner allra ypparlegusta og kostulegustu i Heimenum, þar hann seiger, ad Borgenn sie af hreinu og skiiru Gulle, hennar Grundveller sieu Gimsteinar, og Portenn af Perlum; Op: B. 22. v. 18. 19. Hann tilleggur þad og eirnenn, ad Guds Diird uppfille Borgena, i Stadenn fyrer Solena og Tungled. þad er sa nye Himen, i hvørium Gud mun vera allt i øllum.

# Cap. III.

## Um Jordena, og hvørnenn hun ber vitne um þa andlegu hlute?

Gen. 1, 9.

Og Gud sagde, safnest Vøtnenn undir Himnenum i eirn stad, so ad siast meige Þurt Land, og Gud kallade Þurlended Jørd.

Ps. 33. v. 5.

Jørden hun er full af Miiskun Drottens

Jørdenn er hin storskornasta, (storgerdasta) og þijngsta, Heimsens Vera og efne, a þeim Þridia Deige Skepunarennar, fra Vatnenu adgreind. og i þeim stora Heime, fyrer Guds magt, ohræranlega sett og grundvollud, sem eirn Mid-punctur, til ad fa og odlast himnesk innfoll og Verkaner, Hun er og eirnen avol og hnøttott, so hun kann a allar siidur, ad taka amote Himensens Verkunum, stendur og eirnenn stødug i Vatnenu, og giører asamt med Vatnenu eirn Hnøtt. og þesse Jardarennar og Vatnsens kringlottur og kuluvarenn hnøttur, hanger og hviler, fyrer Krapt Guds al mattugs Ords, midt i Loptenu og Himensens utþandre Festingu, full med lifande, huled, heimuglegt og osiinelegt Sæde, af hvøriu heimuglegu og osiinelegu sæde, øll Jardarennar Aldene og Avexter uppvaxa friofgast og framkoma.

## Um̃ Jardarennar Grundvoll og Stadfestu.

Þad fyrsta, sem vier høfum hier ad athuga, er þad, Hvørnenn Jardarennar Stadfesta, og grundvollur, setur oss fyrer sioner Guds Almætte og Vijsdom, og verdur þessvegna fyrst ad spurt, hvort nedar sie Jordenn eda Vatned, eda hvort af þessu tuennu, sie Botn eda grunn til hins annars? Þeir Lærdu þræta og keppa mikelega þar um, hvort af þessu tvennu sie nedar. Nockrer meina, ad Vatned sie nedar, og ad Jordenn hvijle, og sitie a Vatnenu: þeir sem so meina hafa þad til siins mats, sem stendur i Psal. 24, v. 2. Drottenn hefur grundvallad Jordena yfer Siafar-Hafenu, og yfer Vøtnuinum tilbued hana. Eins lijka i Psal. 136. ad Drottenn sie, sa sem Jordena hefur utbreidt, yfer Vøtnunum. Þeir bæta þvi og so vid, sem sa Gamle Christeleg-grar Kyrkiu Lærefader Chrisostomus skrifar, þad Jordenn sie so af Gude grundvollud, ad hun hafe Vatned under sier. Enn adrer meina þar þvert amóte ad Jordenn sie nedar, og so sem eirn Botn, eda Grunn under Vatnenu, a hvorium þad hvijlest. þeir forsvara sig þar med, ad Jordenn sie hin þijngsta Hofud skepna; og med þvi hun sie hid þyngsta Element, meina þeir hun sie og so þessvegna løgd nedst og giørd ad þeirre nedstu understødu, og ordenn so Verallðarennar Midpunctur: Hvar hann sie Natturlega kyrr, og hvijle stødulega, kunne

og ecke ad hræraſt, eda flitiaſt þar fra, utann fyrer magt, ſo þeir ſeigia þad villde vera imot Naturunne, ef hann ſkyllde þadann hræraſt eda flitiaſt ur ſijnum Stad, þar hvør ſa Stadur ſem er fyrer utann Midpunctenn, er hærre enn midpunturenn; ſo ad hvert hellſt, ſem Jordenn yrde hrærd, þa hlite hun ad vijkia ur ſijnum ſtad uppa vid, og være þa ecke framar Heimſens Midpunctur, hvad þeir ſeigia ad ſie amote hennar Natturu; og þar til heimfæra þeir og ſo þad ſem ſkrifad ſtendur i Pſalm. 104. Drottenn grundvallar Jardryked a ſinne Stadfeſtu, ſo þad ſkal ecke ſkrikia, helldur blifa um alldur og æfe; hvørt ed ſkedur, ſeigia þeir, med þvi hun hvijle óhræranlega i Midiunne, og kunne ecke þar fra ad ſalla, þeir ſtidia ſig og ſo þar vid, ad ſiofarande menn, leite og finne Botn, og Grun̄ Hafſens med þeirra Mælingarlodum, og grunnſockum, hvør Botn og Grunn ad ſie Jordenn. Nockrer af þeim utleggia, adur framſetta Malsgrein af Pſalm. 24. og 139. um Vatnſens og þurlendeſſens Adgreining, ſem ſkiedi i Skopunenne, epter þvi ſem Moſes utvijſar Gen. 1. v. 9. Enn adrer af þeim ſegia, ad Ordenn i Hofudtungumalenu og ſama Pſalme, kunne ad utleggiaſt, i þeirre Meiningu, ad Drottenn hafe grundvallad jordena i, edur hia Sionum, og

Votnunum. Enn þessa Þrætu og Kieppne slytur Postulenn St. Petur þegar hann seiger 2 Pet. 3. 5. Jordenn stendur til samanns, eda er samannkominn, af Vatninu og i Vatninu/ fyrer Guds Ord; Hvarmed giefed verdur til kinna, ad Jordenn stendur i Vatninu, gioerer eirn kringlottan Hnott med Vatninu, og er þar fyrer grundvollud i Vatninu, og med Vatninu, og so ad segia i Vatned innsveiflud; hvar til nokrir heimfæra þad sem stendur i Psalm. 104. 6. ad Gud hilie Jardryked med Diurpinu so sem ødru Klæde, og þar af kiemur þad, ad eirn Partur Jardarinnar, og eirn Partur Vatnsins er þad nedsta, so ad sumstadar hvyler og hræreft Vatned ofann a Jordinne, og aptur hvijler og hræreft Jordenn sumstadar ofan a Vatninu / þo i þann mata, ad bæde Vatned og Jordenn til samans, giora eirn Hnott, Kulu, edur Kringlu, so sem adur er sagt: og eru þetta ein stor Undur, ad Jordenn stendur so i Vatninu, og sockur þo ecke i Diuped, edur kaffæreft olldunges i Vatninu, helldur er kirr i sijnum Stad, so Menninir kunna ad bua ohullter þar uppa, og skiedur þetta fyrer Guds Ord og Befalning, sem hefur sett Vatninu sijna farvegge, i hvorium þad skal blyfa; Hvar vid Guds Folk eirnen huggar sig i þeim 46 Psal. 3. v. 4. 5. seigiande: Gud hann er

er vort Athvarf, þar fyrir ottustum vier ecke, þo ad Ver-
olldenn undergeinge, og þo ad Jordenn sycke nidur i Hafed
midt, þo ad Siorenn geisade eirnenn, og rotadest umm, og
þo ad Biorgenn ut af hanns Olgu nidurhrinde, samt mun
Guds Stadur vera kostulegur og Lystelegur, med sijnum
Vatnsbrunnum, þad eru heilog Herberge hinns Hædsta.

Þarnæst verdur enn framar spurt; uppa
hvoriu Jordenn eda Jardar kringlann hvylest,
ellegar a hvoriu þesse store Jardarinnar og Va-
tnsins Hnottur, sem er saman settur af Jord og
Vatne, hange; og vid hvad hann hafe sig ad sti-
dia so hann falle ecke? Nockrir meina ad þad sie
Loffted, eda Vindblærinn, sem Jardar-Kring-
lann stidiest vid, hange og hvylest a, þar þad er
vyst, ad Jardarhnotturinn sie a alla vega umm-
girdtur med Loftenu; og þar til Heimfæra þeir
og so, þad sem adur er frammfært, af þeim
104 Psalme, v. 6. ad Gud hilie Jordina med
Vatninu. þeir seigia eirninn, ad med þvi,
Lofted og Vatned hafe hartnær somu Art og
Natturu, þa bere þad eina hitt annad, og Loff-
ted kunne þessvegna audvelldlega Vatned ad be-
ra, sem vier og eirninn Siaum, ad þad ber Skya-
Vatned i storum og þickum Mockum, þvi þo
þau sieu full og þung af Vatninu, þa dreifast
þau samt um Lofted, og Vindurinn ber þau, so
þau falla ecke; þar fyrer seiger Job, Job. 26.
v. 8. Drottenn safnar Vatninu samann i Sky, og Skyenn

rifna

rifna ecke þar under. Og þar Lofted ber Vätned/ seigia þeir / þa ber þad og eirninn Jordena/ sem hanger til samans med Vatninu. Þeir leggia þad og eirninn til / ad fyrir Himensens utþenslu / stadfestit ummvefiest og innelikest Veralldar-Kringlann / i þann mata / ad þær fiorar Hofud-skiepnur / hallde til samanns / og kunne ecke hver fra annare ad vykia; og lijkia þeir þeim vid eitt Egg / i hveriu ad fyrst er þad Hvijta / og sydann Blomed / sem Situr midt i þvi hvijta / og er hvortveggia med eirnere Himnu yferdreied / og þar utannyfer umnurad med Eggiaskurninne / sem helldur ollu til samans / so ad eckert þar af kann ad vykia ur sijnum Stad; A lykann hatt / seigia þeir / hanga Elementinn til samans i Jardarkringlunne / so þad eina hellur odru vid makt / ber þad og dregur; Enn Himininn innelikur i sier yfergrypur og stirker alltsamann / og lætur eckert vykia ur sijnum stad / uppa þad / ad eckert verde audt eda tomt i Natturinne. A þennann hatt meina og hallda nokrir hierum. Enn vier vilium hallda oss vid þad vissa / og þad sem Guds Ord kienner oss i Jobs B. 26. Cap. 7. hvar ed Guds Ande seiger: Drottenn uppheinger Jordena [eda Jardar-Kringluna] a ecke neitt; Hvar med giefed verdur ad skilia / ad Jardar Kringlann / ellegar Jardarinnar og Va-

Vatnsins Hnottur, hafe aungvan hlut ad stidia sig vid, ja, alldeiles ecke neitt, hvar uppa hann hvyleſt eda hange: hvoriu Reinſlann er og eirninn berſynelega ſamhlioda. Þvi þad er vitannlegt, ad ecke finnſt nockurſtadar i kringum Jordina, ſo þungur, þiettur, og ſtødugur Lykame, edur Materia ad Jardarkringlunnar mikle og ſtore þunge, kunne alltyd a hønum ad hviila, flitiaſt og færaſt. Þar fyrer finnum og formerkium vier, ad Jardarkringlann, ſo ſem Job ſynir og eirninn, hefur ølldunges ecke neitt ad ſtidia ſig vid, utann Guds Ord og Befalning, ſem þad hefur ſo tilſkickad; Hun hræreſt, hvyler og hanger i Himenſins Utſtreckingu, efter Guds Skipan og Skickan ølldunges a øngvum hlut. Og høfum vier hier oſſ aftur ad forundra yfer Guds Almætte og Speke, ſem hefur þetta ſo tilſett og ſkickad, og meigum medkienna, ad þad yfergeingur allann vorn Skilning og Forſtand. hvad oſſ verdur og ſo fyrer ſioner ſett, i Jobs B. 38. Cap. v. 45. þar Drottenn ſeiger til Jobs. Hvar varſtu þa eg lagde Grundvøll Jardarinnar, ſeig mier þad, ef þu ert ſo mikell Skilnings madur. veiſtu hvør ed ſette hennar Mal og Mata, edur hvøred dro þann mæle ſnúrenn yfer hana; J hvørium ordum oſſ verdur ecke einaſta kiendt, ad Gud alleina ſie ſa ſem grundvallade Jørdena, og heingde

de hana þannig uppa ecke neitt, helldur og eirninn kunne einskes daudlegs-Manns Skilningur, slykt ad fullgrunda, miklu framar hliote allt soddann, Guds Almætte og Speke, alleina ad tileinkast; þarfyrrir seiger og eirninn su Spekinn, i Ordskvida Bokarinnar 8 Cap. v. 29. 30. Þegar Drottenn lagde Jardarinnar Grundvoll, var eg hia honum. med þessium hætte er þa Jardarkringlann grundvollud, fyrir Guds Speke og Almætte, hvad skied er Mønnunum til gagns og goda, þvi Gud sette Adam med sijnum Bornum og effterkomurum a Jordena so ad Spamadurinn seiger þar fyrir i Psalm. 115. v. 16. Jordina hefur Gud giefed Mannanna bornum.

## Umm Jardarinnar Avoxt.

Þad annad sem vier vilium Jhuga um Jordena, skal vera hennar Avoxtur og Grode, þvi þo ad Jordenn sie uttvortes oasialeg, storskorinn, hørd, þick, myrk, þurr, kold, og so ad seigia daud, þa er hun þo Innvortes, ein lifande og ypparleg Høfudskiepna, sem Skaparinn hefur uppfillt med mikellre Blessan, oþriotande Friofseme, og sædes krøftum, hvorier alldrei hvylast, eda eru ydiulauser, helldur verka alltijd og erfida, so sem lifande Stiørnuklasar, og hætta ecke, firr enn þeir hafa frammleidt

leidt sijna yndeslegu Averke. sem þeir hafa i allra prydelegasta mata tilbued med Skapnade, ylman, Smeck og Farva, hvar med þeir kunna, ad giefa Mønunum til kinna, þeirra Kraft og Dygder.

So koma þeir þa a Vorinn framm af Jordinne, so sem af sijnu Svefn-Herberge, hafa afklædst þeim gamla Lijkama, og iklædt sig þeim nya, sem er ungur, fryskur, og ypparlegur, þvi sa gamle er allur rotinn og daudur, þeir hafa afklædt sig þeim gamla Buninge, sem var sundurrifinn, visenn, slæmur, liotur og otutlegur, hvøred hafde mist syna farfa / Ilman og Alit: og i Staden fyrir þennann gamla Klædnad, hafa þeir teked uppa sig annann nyann.

Fyrer þessa sijna dæelega og endurnyada hegdan og asynd, so vel sem þa agiætu ilman og farva sem þeir hafa i stadenn fyrir Raust og Mal, þa so sem tala þeir til vor a þennann hatt. Siaed þier, Mannanna-Børn, þier hiner vantruudu, vier vorum dauder og erum aptur lifande ordnir, vorn gamla Lykama og Klædnad høfum vier af oss lagt, og erum ordnir nyar Skiepnur, vier høfum endurnyad oss i vorum Uppruna. So aflegged þier og eirnenn i fra ydur, hinn gamla Manninn og klædest þeim Nya Manne. Eph. 4. 23. 24. Endurnyed ydur, i ydar eylyfa Uppruna,

pruna, sem ad er Gud ydar Skapare, efter hvørs Mynd þier erud skapader, og ef þier giø-red þad, þa munud þier a þvi sydasta Dags stora Sumre, epter þad þier hafed aflagt ydar gomlu forgeingelegu Lykame, frammganga aptur af Jördenne, lyka sem vier framm komum med nyum lykømum, vegsemdarinar Fegurd, og dyrdlegum Klædum, sem skijna munu miklu ypparlegar og dyrdlegar en̄ vor Farve, sem vier erum nu med prydder 1 Cor. 15. 42. A medan þier erud hier i Heime, og dragest med þettad auma Lijf, þa vered ecke hugsiuker fyrir ydar Lijkama Matth. 6. 28. Siaed hvørsu dægelega ad vor Skapare, hefur oss ad nyu klædt med so fallegum Lit, og hefur nu gie-fed oss, a hvøriu Are, i so mørg þusund ar, fra fyrstu Veralldarinnar Skøpun allt hingad til, eirn Nyann Lykama, til ad leida oss i lios þar med, sijna Giæsku og Orlæte; Sia, vier med-deilum ydur øllum vorum Kroftum; þvi vo-rir Kraftar þiena oss ecke sialfum, helldur ydur; vier blomgunst ecke fyrir oss sialfa helldur fyrer ydur, i oss blomgast Guds Giæska og Orlæte, fyrir ydar Skulld, og endurnærir ydur fyrir oss, med sinne sætu Ilman og Dægelegleika.

Hvor er sa, sem ecke sier i bland slijkra Jar-darinnar Alldina og Avarta, mørg þusund Vitne,

Vitne, um Guds Kiærleika, Giæsku og Almætte, sem sig sierdeileslega auglyser i þerra Kroftum.

Einginn Avortur og einginn Jurt er so lytelsiorleg, ad hun hafe ecke i sier sierdeiles Kraft og nytseme; under eins og þu geingur framm a eitt grænt Purlende / þa hefur þu under þinum Fotum margfaldann Kraft, þier tilupphelldes og Lækninga. J þvi allra ringasta Grase og Fræe, sem þu kann skie meinar, ad sie onytt, og duge til einkis, er stærre Guds Speke Kraftur og Verkan, enn þu kunner ad ihuga, og rannsaka, þvi Gud hefur ecke skapad neitt forgiefens, so þad kunne ecke ad brukast til gagns og nota; þarfyrir sia til, ad þu ecke forakter Gud i hans Giorningum. Og þar um mattu vera viss, ad ecke er enn nu sa þusundaste partur af Blomstranna Kroftum uppfundenn, og ad fullu rannsakadur. Annars kunna soddann Kraftar i Jardarinnar Avortum og Blomstrum, ad þeckiast af þeirra eiginnlegum audkienningar Teiknum og merkium. Blomstrenn koma framm af Jordinne, sem ein stor Jurta-Bok, miked undarleg og fullkominn; ecke eru Urternar þar i skrifadar, so sem i adrar Pappirs bækur, nie afmaladar, so sem eirn daudur Skugge, helldur eru þær, þar

i, so sem i Guds Bok innskrifadar, framsettar og auglystar, med lifande Bokstøfum fyrir alla Menn, fyrir smaa og stora, fyrir lærda og olærda; þesser lifande Bokstafer, eru þau aminnstu Merke, og Kraftanna audkienningar Teikn, hvar med þau giefa til kinna til hvørs þau duga og þiena. Þau eru Guds lifande Skrift, hvarmed hann miøg merkelega yndeslege og prydelega auglyser þeirra heimuglegann og hulinn Kraft: og soddann Merke eru nockurn part iñefalinn i Avaxtaña og Urtanna Ilman, nockurn part i þeirra Smeck, og nockurn part i þeirra hegdan og Skapnade; þvi eitt Blomstred er ad hegdan og Asynd, sem Høfud, annad sem Augu, þridia sem Tennur, þad fiorda sem Tunga, þad fimta sem Hendur og Fætur, þad siotta sem Hiarta; nockur eru myndud eins og Lifurinn, nockur sem Bladrann, nockur sem Nyrunn, nockur sem Sar, og adrir soddann hluter. Og ef Madur kinne riett ad skilia soddann Audkienningarmerke, og ad lesa soddann lifande Guds Bokstafe, þa visse hann strax hvørs eins Art og Natturu. Enn jafnvel þo Madur skilie hid minnsta þar af, og þad mesta sie huled og duled, þa skal hann þo ecke ad sydur, þacka Gude fyrir þad sem opinnberad er, og þar af þeckia Guds Giæsku og Speke. Hann skal

skal og þacka Gude fyrir Adgreiningar, eda adskilnadar Konstina, i hvørre Mennirnir eru fyrir Guds giæsku upplyster, so ad þeir kunna fyrir hana, ad utdraga Kraftenn, af Jardarinnar Aldinum og Avøxtum, sem geima i sier þad besta sem i þeim er, so Madur kann þar fyrir, ad hafa þess betra Gagn af þeim, þess skyrlegar ad þeckia og formerkia Skaparans Giæsku, hanns Verk, og af Hiarta vegsama hann þar fyrir, ad hann hefur slijkt giert og skapad, oss aumu og veiku Mønnum til goda og Vidhallds.

Sierdeiles þeckest þesse Kraftur, sem Jardarinnar Avexter og Alldine i sier hafa, af Læknesdomunum, i þeim høfum vier þau nettu Grædslu-medøl, og Lækningar, vid øllum Veikleika, Siukdoma og sarindum, so vier meigum og eirninn þar i þeckia, ad Drottinn er vor Grædare. Item i Fædu og Forsorgun, sem kiemur af Jardarinnar Groda og Avexte. Sa gode og giafmillde Skapare Drottenn vor Gud; hefur fyrerætlad øllum Fuglum under Himninum, ei sijdur enn øllum Dijrum a Jordinne, ja, øllu þvi sem hefur Lyf og Anda, so margslags Fædu, med undarlegum hætte, ad þad kann allt ad hafa nægelega Forsorgun a Jordunne. Hann giefur øllu Holde sijna Fædu,

hann upplykur sinne mildu Hønd, og sedur allt þad sem lifer med sinne Velþocknan. Ps. 145. 16. Hann lætur Grased vaxa handa Fienadinum og Kornet Mønnunum til Gagnsemda, og framleider Brauded af Jordinne. Ps. 104. 14. Jørdenn er vegna Grassens, Blomstranna, og annarra Avaxta, eitt stort vista Hus lifanda Guds, i hvøriu ad er mikel Blessan, og Byrder storar, bæde fyrir Menn og Fienad; so ad Spamadurinn seiger þessvegna miked vel i Psalm. 33. v. 5. ad Jørdenn sie full af Drottens Godgirne,

Guds storu Dasemd, ma og eirninn þar af sia, ad Brauded forsorgar allan Lykamann, so ad hvør eirn Munnfiller af Braude, er fæda fyrir alla Lykamans Lime, og Kraftarnir þar af skifta sier um allann Lykama Mannsins. Adrar Urter og Avexter þiena ad eins almennelega einum eda ødrum Lim Lykamans, og þad mestannpart ecke utann Heilbrigdenne til goda, og ad burtdryfa Vanheilendenn, enn Brauded gagnar øllum Lykamanum til Forsorgunar og Uppheldes. Þar fyrir kallar og eirninn sa eilyfe Guds Sonur Jesus Christur, sig sialfann, i andlegann mata, þad lifanda Braud hia Johannem 6. v. 35. so hann giefe þar med ad merkia, ad hann vilie veita øllum Mon-

Mønnum Fædu og Forsorgun, bæde fyrir Sal og Lyf.

Þess er og ad giæta, ad Jardarinnar Avøxtur þienar Mañinum til gagns og Forsorgunar ecke einasta i þvi, ad hann hefur þann Kraft i sier, ad metta strax og endurnæra Mannsins Lykama, hellldur og eirninn þar med, ad hann mettar Fienadenn; þvi þad Gras og sa Jardar Avøxtur, sem Fienadurinn, ieg meina Dyr og Fuglar eta; hann verdur vor Matur og Fæda med Dyranna Miolk og Kiøte: Ja, hann verdur og so vor Klædnadur, þegar vier brukum Dyranna Huder, ull og Har, sem og eirnenn Fuglanna Fidur og Dun, so ad jafnvel vor Klæde og Sængur vara og so af Jordunne. Þad er og furdanleg Guds Dasemd, ad i einu litlu Fræe kann optlega ad hiliast stor Avøxtur, ja, eitt feikna miked trie, med Rot, sijnum Bol, Greinum, Blødum, Sæde og Avøxtum; og hvørt eitt af øllu þessu hefur sierdeiles sinn Krapt til ad lækna og fæda Mannenn; Sæde og avexter vara og eirnenn nyer og fersker a hvøriu Are, vegna þess, ad Natura Sædesens hefur i sier þann friosgunar Anda, fyrer hvørn ad so margfallder Kraptar sig utbreida i so margslags stærd, breidd, hæd og leingd.

Hier heirer og eirnenn til ad tala um sialfrar Jardarennar innvortes Friodsemi i þvi ad færa Avøxt. allt hvad Jordenn af sier gefur, þad er af Gude; enn þad hun gefur af sier eitt og annad miøg rykuglega, þad skedur fyrer sierdeiles Guds Blessan. Þu Drotten, seiger David i Ps. 65. v. 10. vitiar Landsens, vøkvar þad og audgar þad nærsta rikt, Guds Uppsprettu=bruñur hefur noglegt Vatn, þeirra Korn þa lætur þu tingast, þviad so uppbigger þu Landed, þu døggvar þess Akurreinar, og vøcter þad sem plægt er, medur Døggenne myker þu þad, og blessar þess Groda þu koronar Ared med þiñe Godgyrne og þin Fotspor driupa af Feite. Fyrer Guds Blessan verdur Jordenn friodsøm, og ber hvørn Manud sinn sierdeiles Avøxt. fyrer Guds Forsion og Godgyrne, hlytur hun med soddann hætte ad vera vor Upphelldes=forde, og eitt stort Matvælahus. Jardarennar Ofriodseme kemur af þeirre Bølvan, sem sa allra hædste Gud lagde yfer hana: af hvørre ecke ver annad enn Illgrese, sem fordiarfar þann goda Jardarennar Groda, so ad Drotten seiger þessvegna til Adams efter falled: Jordenn skal vera bølvud fyrer þiina skulld, Þyrna og Þistla skal hun af sier gefa. Gen. 3. v. 17. Þar fyrer skulum vier bidia Gud um Jardarennar Friodseme, og Blessan, annars stodar þad ecke neitt þo Menn plægie, eda sae, yrke edur plante: Gud hlytur ad gefa

lucku

luctu og Blessan þar til, annars er alt forgefens. Enn skule vor Bæn verda fyrer Gude þacknæmeleg; þa hliotum vier af øllum Kroptum adfordast Sindernar þar fyrer stendur þar so i Ps. 107. v. 34. ad þad hid friodsama Landed hafe orded avaxtarlaust, fyrer saker Illsku þeirra, sem þar innebinggu.

Su underlega, og outseiganlega Jardarennar Friodseme skal og eirnenn minna oss a þa nyu Jord, sem vier væntum, i hvorre Rettlæted mun biggia 2 Pet. 3. v. 13. Þar mun eingenn vera framar meir, so sem a þessare forgeingelegu Jordu, hvored Bolvannene er underorpenn; helldur mun þar vera einsømul Blessan; ja, su retta Blessan, sem þar mun sierdeilessega opinberast, med otelianlegum eilyfum og himneskum Lyfs kroptum: þa mun su nya Jord vera hin nya Paradys, sem full mun verda af Unadsemd, Lift og Glede: þa munum vier kunna ad seigia med rettu: Blomsturenn eru uppkomenn i Landenu Cant. 2. v. 12. Æ hvad lysleg, indesleg og himnesk Blomstur munu þad verda.

Hier mætte og eirnenn sierilage talad verda, med mørgum ordum, um Jurter og Trie, so sem um Fykiutried hvoriu Drotten Jesus bølvade; Matth. 21. v. 19. um Vidsmiørs vidar

Tried, sem og Oliu vidar Bladed, hvørt Dufann færde Noa aptur med sier i Orkena. Gen. 8. 11. Item um þad syblomlega Palma vidar Trie um hvørt talad verdur i Psalm. 92. v. 13. ad ! eir Rettferdugu munu blomgast sem Palmavidar-Trie. Item um Cedrus tried, hvørs optlega geted verdur i H. Ritningu, sem og eirnenn um þær agiætu Jurter, Ex. 30. v. 23. af hvørium Moises tilreidde þad Heilaga Reikelse, og um þad kostulega og dyrmæta Balsam, sem ad norkruleite var Teikn og Fyrermindan uppa þann H. Anda, og ad norkruleite, uppa Uppriisu Framlidenna, epter þvi Balsamed vardveiter dauda Lykame fyrer Rotnanenne. Sømuleides og eirnenn, um Vyn og Vyntrie, og adra þess slags Jardar Avexte, af hvørium H. Ande i Skriptenne tekur imeslegar Samlykingar, til ad setia oss þar med augliosslega fyrer sioner Guds Rijke; Enn vier hofum ecke asett ad tala hier nockud sierdeilesslega umm sodann saker, þar fyrer ma þeim slept verda ad þessu sinne.

## Umm Jardarennar Fioll og Halsa.

Had þridia sem vier vilium hier hugleida um Jordena, eru hennar Fioll: Fiollenn pryda Jordena: þad er ecke lytel Fegurd og Pry-

de,

de, ad Gud hefur begafad Jordena med so mørgum, haum og listelegum Fiøllum, og þau eru øll i þeim Platsum, sem Gud hefur þeim tileinkad, hvarum skrifad stendur i Psal. 104. v. 8. Fiøllen þau giæfa hatt upp, og Fleterner setia sig nidur i þeim Stad, sem þu Drottenn grundvallader þeim. Fiøllenn eru Guds Fiehyrdslur, i hvørium ad tilreiddur verdur, fyrer Natturuna, allra handa Malmur og Metall: þau eru, so sem adrer brædslu Onar, sem Natturann sialf hefur tilbued, i hvørium Gud siidur, hreinsar, og tilreider / allra handa Malm. J Fiøllunum eru Elementenn, Elldur, og Dampe, Vindur og Vesse, Vatn, og Jørd. Jordenn, i hvørre þeir malmlegu hluter vara, erfull med Steina; og þeir Steinar eru so sem Rot og Sæde til allra handa Malms og Metals.

Fiøllinn verda einnig eptir Natturunnar edle, adstanda hatt upp af Jordenne, og mæna uppi Himenenn, vegna þess ad sa natturlege Kraptur Himensins og Stiarnanna, hefur sina Verkun sierdeilis i þeim hau Fiøllum, til ad sioda og fullvaxinn ad giøra Metall og Malm. ja þær kroptugustu Urter; so sem Reinslann kenner, vara a þeim hau Fiøll um, hvar þær verda hellst hluttakande þess himneska Kraptar

og Verkunar. Hier af kiemur þad og eirnenn/ ad ef Grosiñ sem vaxa a haum Fiollum eru flutt iñ i Urtagardana/ þa verda þau kraftalaus/ þvi þaug missa med þvi mote þa rettu Himinsens Verkun og Krapt. þad er og skrifad umm Læknismerstaran Hippocrates/ ad hann þessarar orsakar vegna/ hafe hellst teked/ þau Gros a haum Fiollum/ er hann brukade til Lækninga. þar af kemur þad og eirnenn ad sum Fioll bera sierdeilis Groda og Avoxt/ innvortis og utvortis/ epter sem þau verda hluttakande Himensens Verkunar og Kraptar: og þad er vist/ ad hvar sem hellst nockur sierlig og merkelig Verkan og Kraptur Himensens finst i Stiornunum þa liggur þar giarnan eitthvert Fiall undir/ sem dregur til sin þvilijkan Krapt og Verkan/ og þarfyrer liggia einnig Fiollinn hingad og þangad adgreind/ og ecke oll i einum stad; hvad ecke er skied af hendingu/ sem þegar Smabørn bera saman nockrar Steinhrugur/ helldur er þad eptir Guds sierdeilisligre Skickun og Nidurradan/ sem hefur radad og sett Fiollinn undir vissann Himinsins Krapt og Verkan/ og þarfyrir stendur so i Psalinum 104. v. Fiollenn þau gnæfa hatt upp/ og Fleterner setia sig nidur undir/ i þeim stad/ sem þu grundvallader þeim. Vier skulum og lata Fiollinn minna oss a Guds Frelse/ Verund

endo og Vardveitslu, hvar umm David segir i Psal. 121. 1. Min Augu hef eg upp til Fiall anna, af hvorium mier kemur Hialpinn. So og eirnenn bad, ad Guds Sofnuder kallast i Skriftinne Fioll, so sem ba sagt verdur Lattu Fiollinn fridinn færa a medal Folksins og Holana Rettlæted. Ps. 72. v. 3. betta eru bau tvø føgru og storu Guds Fioll.

## Umm Votn og Uppsprettur Jardarennar.

Bad Fiorda og sidasta sem vier vilium hier hugleida, eru bau fersku Votn og Uppsprettur, sem Gud hefur Jordena med begafad, og Spamadurinn i Psalm. 104. v. 10. setur jafnt vid Fiollinn, bar hann seigir; bu lætur Brunnana uppspretta i Dolunum, so bad Votnum fram fliote mille Fiallanna: og setur Prophetenn bau barfyrer hia Fiollunum, ad Uppsprettur og Straumar koma uppi Fiollunum, og ad Hirnenenn hefur eina sierdeilislega og kroptuga Sameining med Fiollum og Upsprettumm. Annars, so miked sem ahrærer Brunna og Vatnsføll ba er ad athuga, hver, ad sie beirra Upprune og Orsøk, hvar um ad eruimisligar Meiningar og tilgatur, medal hverra bessar synast ad vera hinar vissusta. Ad Brunna upspretturnar hafe beirra sierdeilis huled Sæde, af hveriu bau

vara

vaxa sem eitt Trie af einum kiarna ellegar Rot/ sem sidan skiptir sier i margar Greinir og kvisler/ og nær þad Sæde ellegar su Rot/ er uppþornud/ þa er og Brunnurinn i burtu horfin og uppþornadur. Og þar fyrer finna menn og þau Plats i hverium fordum/ og fyrir nokrum hundrad Arumm/ stor Vatnsfoll/ og Ar hafa haft þeirra gang/en nu siast þar einginn merke til framar; og somu Vatnsfoll eru nu lika sem eitt Tre/ uppþornud i sinne Rot og olldunges horfinn. Þad sem orsakar styrker og eykur þvilikt Sæde og Rot Uppsprettnañа/ er first su natturlega Heimsins Sameining og Samstemma/ sem er mille þeirra og Stiarnanna; hvar med þær a einn hulinn og osyneligann hatt eru samteingdar lika sem ein Kedia og Hlecker. hvers vegna/ þar sem finast margar Uppsprettur/ þar hefur og eirn sierdeilis Stiornuklase þad Plats/ i hveriu hann verkar: Somuledis þar sem Himininn helldur inne sinne verkan/ og vill ei sijna sinn Kraft og Innras/ einkum so miked sem ahrærer Vatnsstiornurnar/ a medal hverra ad eru Hyades/ sem kallast Siostiornur/ og adrar þesshattar; þar uppþorna aptur Brunnarner. Þess vegna merkia Menn og so/ ad þegar mikill þurkur er fyrir hende/ og Regn kemur ecke i langann Tijma/ þa uppþorna jafnvel þær vatnsrikustu

up-

uppſprettur, ja ſtor renn ande Vatnsfell hiadna burt og þorna upp: af hveriu optliga plagar ad orſakaſt Dyrtijd, hvad Menn þui midur, mattu fornema Anno 1601, þa ſoddann þurkur var i Friſlande og Hollande, vegna þeſſ þad hafde ecke rignt i langan tijma, ad þar ox eckert Gras, og Brunnarner urde þurrir; ſo ad Fenadurinn vard ad naga up Gras Ræturnar, og leitaſt vid ad ſediaſt af Jordenne. Þad annad ſem orſakar ſtyrkir og eykur Brunnanna og Uppſpretnanna Sæde og Hlaup, er Hafid. Sioren hialpar hier ſtorum til/ þarfyrir ſeiger Salomons Predikare c. 1. v. 7. oll Votn falla i Sienn, og þo verdur Siorinn ecke fullur; til þeſſ Stadar ſem þau innfliota, fliota þau aptur i burt. Þaug Votn ſem koma fra Sionum, þreingia ſier uppi gegnum Jordina, og þarmed umgioraſt þau og hreinſaſt af þeirre Selltu ſem þau hofdu af Sionum, og verda ad Brunnum, ſamt briotaſt þau ecke allſtadar ut og verda ad Uppſprettum, helldur einaſta i þeim Stodum, hvar Gude hefur þocknaſt ad tilſetia og nidurleggia Brunnanna Sæde, og þann Verkſtad þeirra himneſku Krapta, ſem þar til heyrir, þeſſvegna ſtendur i Pſalm. 104. v. 10. Drottinn, þu lætur Brunnana uppſpretta. Þarnæſt ſkal oa adgiætaſt um þeſſa Brunna, ad þeir hlaupa jafnann og ſifelldliga;

hvert

hvert ed er einn stor Guds Giorningur og Gafa, ja, eitt stort Undur; þad er og so ein Figura og Liking til þess Eilijfa Lissens, so ad eitt Skald seiger, þarfyrer.

Viijst an aflats Votnog Ar
Viida um Byggder flæda,
Er þad Teickn og Jmynd klar,
eilijfs Fridar Giæda.

J þridia lage er og ad adgiæta Mismun Brunnana og þeirra Nytseme; sumir eru kalder, sumir heitir og Varmir, ja, sumir so heitir ad Madur kann ad skaallda Hænsne og Giæser i þeim. Hia einne Þiod sem kallast Garamantes, finna menn þa Brunna, sem eru so heitir a Nottinne, ad Madur getur ecke drucked af þeim, Sumer Brunnar eru og surer; sumir salltir, sumir beisker. So hefur og Gud giort nockra Læknisdoms Brunna, so sem eru Lauga hverir, og Adrer þess hattar. Flester eru Fædi og Svala brunnar, Umm hveria ed stendur i Psalm. 104. v. 11. ad oll Dijr a morkenne drecke, og þad villudyrinn slokve sinn þorsta. og talar Prophetinn i sonnu Ordum þarfyrir um Villudyrinn, hverium til goda Gud ogso hefur skapad Brunnana, ad vier skulum þeinkia þannig: Ef Gud ber umhiggiu fyrer Fenadenum, og Villudyrunum þa ber hann miklu framar ummsorgun

fy-

fyrir oss Mønnunum Matth. 6. v. 26. Propphetenn Joel, Joel. 2. v. 20. seigir umm Uppþornan Brunnanna, Villudyrinn hropa og, Drottinn, til þin, þviad Vatnslækerner eru uppþornader. Enn ef Villudyrinn hropa til Guds i þeirra Neyd, þa skulum vier þess helldur hropa til Guds i vorre Naud.

J Fiórda mata þa er þar optliga Ununarseme hvar Brunnar og Lækir fliota, og hia þeim hinum somu sitia Himinsins Fuglar, og singia a mille Vidar kvistanna Psal. 104. 12. þad er ein dæelig Saunglist, til hverrar Gud hefur skipad Fuglunum i þeim grænu Skogunum, og hans Lof og Prijs skal allstadar hlioma, og ad Jordinn skal vera full þar af: so ad vier vesælar Manneskiur hugleidum, ad allar Skepnur, og þar fyrir og so vier sialfir, erum skapadar til ad lofa Gud og prijsa.

Ad sidustu skulu og einnenn þær likamligu Uppsprettur minna oss a þa andligu Brunna, og leida oss til þeirra; nefneliga til Christum og hans Nadar Saluhialpar og Giæsku, sem er Nadarennar Brunnur, Hialprædesens Brunnur, og Lijssens Brunnur; Umm hvern Brunn lesid verdur hia Spamannenum Es. c. 55. 1. Nu vel allir þier sem þyrster erud, komed hingad til Vatnsins. Item Es. 12. v. 3. Þier munud med Fagnade Vatnid uppausa ur Hialprædesins

Brunnum. og David segir þar umm i Psalm. 36. 10. Drottinn, hia þier er lifande Uppsprettа, og i þinu Liose siaum vier Liosed. J hverium Brunne vier munum allrahellst eptir þetta lif verda hluttakande, þegar Lambed mun leida oss til lifande Vatns-Brunna, og Gud mun afþurka allan Grat af vorum Augum.

## Annar Partur þessa Capitula.

Jnnehelldur eina Hugleiding nockra Orda i þeim 104 Psalme, umm þad sem Jordunne vidviikur. Fyrr enn vier endum þennann Capitula, vilium vier stuttlega hugleida og yfir vega Sio Sticke, sem umtalad verdur i þeim hundradasta og fiorda Psalme, nefniliga þa hlute sem vidviikia Jordinne, og hafa sina andliga Þijding. First talar Prophetinn þar umm Jordena yfir Hofud, hversu Gud hefur hana Grundvallad; klædt hana med Vatne, prydt med Fiollum, Uppfyllt og skrydt med Brunnum; siidan kemur hann til hvers eins utaf fyrir sig, og talar um sierlega Averte eda Pryde Jardarennar, hvar af hann upptelur Sioslags. First Nattdoggena, med hverre Gud vokvar Fiollenn; Þar nærst Grased; i þridia lage Brauded; Þad fiorda er Vinid; Fimta Vidsmiored, eda Balsamid; Siotta, avoxtur Trianna, og seinast telur hann Fuglana i Skogunum og Dyrenn a Merkenne.

Hvad þad Firsta ahrærer, þa talar Prophetenn þar um a þennann hatt: Drottenn þu vøkvar Fiøllenn hier ofann ad, þu fyller Landit af Avertenum þeim þu gefur. Af Nattdøggenne verda Fiellenn hellst vot ofan til, um hveria Nattdøgg vier vilium first athuga hennar Orsøk og Uppruna; og sidann hennar Verkun, og Frammkvæmd. Nattdøggenn orsakast stundum þar af, at Sky og Þoka liggia a Jørdunne, og allra hellst a Fiøllunum yfer hver Nattdøgginn hellst fellur; so ad Fialled Hermon i Gidingalande er sagt ad sie þar fyrer alltid fullt af Nattdøgg, einnig oskar David umm Gilboa Fiøll, ad þad kome hvorke Regn nie Døgg yfer þau. Og af þvilijkum Skyum og þoku kiemur Nattdøggenn, þvi þar Skyenn og Þokann eru optast nær af Vatne samannsett, og optlega hafa þaug mikinn Vatns þunga i sier, og geima þann lijka sem i Fløskum, þa skiedur þad ad Skij og Þoka, sem liggia þannig a Jørdunne og Fiøllunum væta þaug optliga, og giøda med Nattdøgg. Enn su almennilega Orsøk Nattdaggarennar er Morgunrodenn: þarsyrer seigist ad Nattdøggenn fædest af Morgunrodanum i Psal. 110. 3. og er Morgunrodenn eckert annad enn Solarennar Glanse a Morgnana, sem skyn i giegnum þaug þunnu og klaru

Sky, lijka sem eitt Vax-lios kann ad skyna i giegnum eitt Glas fullt af Vatne, þegar Madur setur þad a bak vid sama Glas. og i sama Solarglansa, ellegar Morgunroda gefst Nattdoggenn, og fellur a Jordena. hvar af ein Epterlyking er tekenn i sama Psalme, og seigist um Messiam: Þier munu Þijn Born fædast so sem Doggfall utaf Morgunrodanum; hvad ed utleggst um Fædingu vors Drottins JEsu Christi, þvi eins og þa Solarglansenn upplysir hin klaru og liosbiortu Sky, þa kiemur Morgunrodenn fram og lætur sig sia, so hefur og Solarglanse Dyrdarennar, Guds Sonur JEsus Christur lated sig sia, þa hann sameinade sig i þvi Jomfrulega Lyfe, vid þad klara og hreina Sky Mandomlegrar Natturu, og er ordinn einn Madur: og þannig verda, Guds Andleg Born og so enn nu fædd, fyrer Truna, og Heilagann Anda: þegar Guds Nadar Solarglanse sameinar sig þeirra Truar og Betrunar Skyum; Somuleidis þa þaug a oskiliannlegann hatt og mata verda fædd af Morgunrodanum, og Madur fær ecke merkt þad Augnablik, a hvoriu þad skiedur: lijka so sem Madur kann ecke helldur ad vita þad Augnablik a hveriu Nattdogginn fellur: Þetta skal nu so sagt vera um Orsok og Uppruna Nattdaggarennar

rennar. Umm hennar Verkan Nytseme og Utrietting seigir spamadurenn Ps. 104. v. 13. þu siller Landit af Averteuum, sem þu giefur: Nattdoggenn giorer Jordena miog avartarsama; endurnærer þau visnudu Blomstur, sem Solarennar Brune hefur svidit, veikt, lud, og uppþurkad: og þannig er Nattdoggenn Glede og Lijf Blomstranna: Þegar Nattdoggenn er komenn a Blomstrinn, þa giora Hunangs-Flugurnar Hunang þar af, hvert þær vita ad tempra, blanda, og setia i lag: Optliga fellur og so Hunangs-doggenn a Lauf Trianna og Urtanna, so sem Manna fordum, Exod. 16. hvad oss skal minna a þad andlega Hunang, sem er Evangelium, af þvi edla Blomstrenu, sem er Christus, og af himneskre Nattdogg þess Heilaga Anda: og þad Nattdoggenn endurnærer þa veiktu og ludu Averte Jardarinnar, skal minna oss a Guds nadardogg, sem er Endurnæring vorrar orþiadu Salar, Huggun og Lijf.

I Guds Orde verdur einnig þeim æskelega Frid og Roseme lijkt vid Nattdoggena: þvi eins og Nattdoggenn verdur getinn og framkemur af Morgunrodanum: so verdur og Fridurenn ad koma af Christo; og hvar Christur lifer, stiornar og fremur sijna Idiu, þar er eintomis

fridur, so ad Guds ryke er Riettlæte Fridur og Føgnudur i Heilogum Anda, sem St. Pall seiger til Rom. 14. v. 17. og Christur hia Matth. 5. Sæe eru þeir sem Fridenn giøra, þvi þeir skulu Guds Børn kalladir verda, þvi þeir eru fædder af Gude, eins og Nattdøggenn af Morgunrodanum: þarfyrer skulum vier inneliga akalla Fridarens-Fursta um þetta Edla Fridarens Klenodium: lijka sem Jørdenn verdur friosom af Nattdøggenne, grænkar og blomgast, so blomgast og allir hlutir i Fridar-tidenne.

Seinast høfum vier ad at huga þad sem Prophetenn leggur til i psalmenum; þu fyller Landit af Avertenum, sem þu gefur. Þad guddomlega Ord Skaparans, Gen. 1. v. 11. sem þannig hliodar; late Jørdin af sier uppvaxa græn Grøs og Jurtir, hafandi Sædi i sier og avaxtarsøm Trie. þad fullkomnast enn nu, þad er enn nu krøptugt; af þessu Guds Orde, sem af Rot Guds Blessunar, sem ecke gietur funad, vaxa enn nu allir hlutir, medann Verølldin stendur, og þesse Guds Uppsprettu-brunnur hefur nogligt Vatn Psal. 65. v. 10. Jørdin er þad stora Vista-hus Guds, i hveriu ad eru rijkugleg faung fyrer alla Menn og Skepnur.

Sa annar Avøxtur Jardarennar, sem um verdur getid i Psalmenum, er Grasid, hvarum Prophetenn seigir. Þu lætur Grasid upspretta fyrir Fena-

Fenadin. Margur kann ad þeinkia; hvad er þad sem sagt verdur um Grasid? eru þad so stor Undur, ad Grasid vex? Ja menn ecke slijkt i øllum Løndum og a hveriu Are? Enn slijkt eru hirduleysis og oþacklætis þanckar: lytum vier med rettre gaumgiæfne til Grassins, þa finnum vier ad þad er vissulega einn vegligur skapadur hlutur, og einn stor Velgierningur Guds. hvernig ættu, so mørg þusund Skepnanna ad næraſt og foſtraſt an Grassins: være Gras og Hey ecke, yrde Fenadurenn og Dyrinn sannarliga ad falla: hvada Hørmung munde ecke uppafalla, ef Gud vilde iafnvel ecke utann um einn Sumartima, eckert Gras lata vaxa upp ur Jordinne? Þar af ma og opt merkia Guds storu Daſemder i þurrum og hita Arum; ad þad Menn meina ad Landid kunne ecke ad bera og foſtra so mikinn Fenad: þa skal þo fenadurinn hafa sitt Lifs uphellde, so Madur ma rada, ad hvad sem sa mallauſe Fenadur etur uppa daginn, þad hlytur ad vaxa aptur upp a nottinne: þvi ad Morgne finnur þo Fenadurenn nockud aptur, og alltid nockud nitt ad fædaſt a, so ad einn Heidinn-Madur, hefur i þeirri meiningu og tillite vel agt.

Allt þad Gras sem eta Dyr
A vorlaungum Deige,

Gefur Nattdøg nærsta hyr,
Neitt so brestur eigi.

Þar fyrer skulum vier læra adhugleida Guds stora Orlæte og Giæsku þar i, og ecke giøra oss þann þancka sem ein favys Kvinna, ad þau feitu Naut og Kyr uppstyge einungis af Hafenu, so sem Pharao sa i Draume Gen. 42. v. 2. helldur vitum, ad Gras Jardarennar giører þær feitar. vier skulum og so vita ad iafnvel þo Grasid sie alltid, sem hinn audvirdelegaste hlutur af Gude skapadur, þa faum vier alldrei Gude fullþackad þar fyrer, og ad sa allra minste Guds Velgiørningur yfergeingur Þacklæte allra Manna: Sa minste Guds Giæsku Giørningur er stærre enn Þacklæte allra Manna: Annars gefur oss Grased a Jordunne ordsok til ad yfervega fyrstþaguddomlegu Forsion: þvi ef Gud pryder so grased a Akrenum, þa vill hann miklu framar klæda oss, Matth. 6. 30. Þar næst vorn Hiegomaskap, og ad vier erum sem Gras og eckert: Allt Holld er Hei, og allur þess Grode so sem Akursins Blomstur. Es. 40. v. 6.

J þridia mata huggar og so Grasid a Jordune oss, mote tratse og fanytu hrose þeirra ogudlegu: eigi skalltu gramur vera yfer þeim illu, vert ecke øfundsamur yfer þeim illgiørda mønnum: Þviad so sem

sem Gras munu þeir verda skiotlega upphøggner, og lyka sem hinar Grænu Jurter munu þeir uppvisna. Ps. 37. 1. 2. Item þeir ogudlegu munu uppþorna, og visna sem Gras a Þakenu, enn sa Riettlate mun grænka sem Palmatre.

Þad þridia sem Propheten aminner oss um, innebindst i þessum ordum: þu lætur uppspretta Sæded Monnum til nytsemda, og utleider Brauded af Jordenne, ad þad styrke Mannsins Hiarta: J þvi goda og kiærkomna Braude høfum vier og marga stora Guds Velgiørninga ad vidkannast, og læra: fyrst lærum vier af Braudenu ad þeckia Guds Fødurliga Hiarta; Eirn Fader verdur vissulega ad gefa sijnum Børnum Fædu, og þad giører hann giarnan, þvi Christur segir; hvor bidur ydar a medal einn Sonur Fødurinn umm Braud, ad hann biode hønum Stein þar fyrer. so ad vier alldrei gleimum þvi ad Gud er vor Fader, þa hefur hann skapad oss þannig, ad vier kunnum ad verda hungrader og þyrster, og erum ecke sem Einglarner hverier ed lifa fyrer utann alla jardneska Fædu og Dryck. Þessvegna a vort natturligt Hungur og Þorste, ad vera vor Predikare, og Lærefader, færa og leidseigia oss til Guds, og kienna oss ad huggleida, ad so opt sem vier etum einn lijtinn Braudbita, so opt etum og niotum vier Kiærleika og Miskunseme vors himneska Fødurs.

J annann matta skaltu o þu Manneskia lære hier af ad hugleida Guds undrunarlegu Forsion, og hversu Gud Drottenn utbyter hvorium Manne sijnu Braudsstycke, og sedur allt hvad lifer med Velþocknan Psalm. 145. v. 16. Herra Gud, hvad stor Dasemd er þetta? ad þær mymorgu Mannskepnur a Jordenne, fa allar so miked Braud, sem þær kunna ad mettast af! þar verdur aungre gleimt, Gud mælir ut sierhvorium sinn mælir, eins og hann sende hverium einum af Gydingunum af Himnenum sinn part af Manna, ellegar Himna braudenu: Sierhvor Manneskia hefur syna Blessun og sinn part a Jordunne: Gud hefur eingann yfergiefed nie forsomad Eb. 13. v. 5. sierhver ma hafa til nota þad hans partur a ad vera.

J þridia mata lærum vier og af Braudenu Guds stora Vysdom, þvi hier stendur i vorum Psalme: Gud giefur Grased Monnum til Nytsemdar, og utleidir Braudid af Jordenne. Vort Braud sem vier etum, er first sem grænt Gras, sijdann ver Kornid þar af, þar af kemur umm syder Braudid; hvert ed verdur ad voru Hollde og Blode, þa vier etum þad og neitum þess: i hveriu vier siaum Guds Dasemd, og ad hann enn nu þann dag i dag er, giorir og skapar mannsins Holld og Blod af Jordu, so ad

ad Jordinn er og so þar fyrer allra vor Moder. epter því Gud enn nu a þessum dege fyrer sinn Almatt, skapar þar af, gierer og vidhelldur vorum Lijkama Hollde og Blode, og meigum því seigia vier lifum hrærumst og erum i Gude. Giorn. B. 17. v. 28. Eptir því ad sa fædande Kraptur i Braudenu sem kiemur af Jordenne er Guds Blessunar Ord, og Madurinn lifir eigi af einusamann Braude, helldur af sierhverju Orde sem framm geingur af Guds Munne, so sem vor Frelsare Christur segir, Matth. 4. v. 4. því ef Gud tæke fra Braudenu þann fædandi Krapt og Verkan, þa kynnum vier ecke ad lifa þar af, og vort Holld og Blod hlite þa ad hiadna burt, eins og Gras og Hey visnar og þurkast upp.

I Fiorda lage stendur i Psalmenum ad Braudid styrkir Mannsins Hiarta: hier høfum vier þa riettu Dygd og eigennlegleika Braudsins. vor Nattura fær leida og vidbiod a ølium Mat umm syder, ef Madur brukar hann ofvfelldlega: enn a Braudenu faum vier eingann leida. Orsøkenn er þesse, ad Braudid er ein almenneleg Fæda, i hverre ad er Dygd og Kraptur allra handa Fædu, eins og Solenn er eitt almennelegt Lios, hvar af øll Verølldinn fær og medtekur Krapt. Gud hefur skapad Braudid og giefid i þad Krapt og eiginnlegleika allra handa

Fædu, so ad Nattura Mannsins kynne ad vera anægd med lyted Braud: og þar fyrir kallast þad og so i Es. Spad. 3: 1. Stafur Braudsins, so sem þad hliodar i Høfud-sprokenu, og lijka sem Madur lætur kraft af møgum Jurtum vera i einu litlu deige eda Koku; so er øll Natturann innelukt i einu litlu Brauds-stykke. Madurinn er su litla Verølld, og i hønum er øll Nattura þeirrar storu Veralldar, edle og eiginligleikar inneluckter: Fyrst einn Madur getur þa fædst af lytilshattar Braude: þa verdur þad ad vera, ad øll Natturann, af hverre Manneskiann annars verdur getinn og føstrud, sie innefalinn i Braudinu. þvi vier Fædustum, af þvi sama, sem vier erum giørdir af. J J stuttu male ad seigia, vier etum og dreckum ecke annad enn einskiærar Guds dasemder, hans einskiæran Kiærleika, hans einskiæra Vysdom og Giæsku.

Ad sydustu minner Brauded, sem styrkir Hiartad, oss a Lijfsins-Braud sem er Christus Jesus, hver ed sialfur segir hia Joh. 1. 6. 35. Eg em Lijfsins Braud, hver hann kemur til mijn, hann mun ei hungra, og sa hann truer a mig, hann mun alldrei þyrsta. J þessu Lyfsins Braude eru aller Kraptar Himinsins og Jardarennar, ja, aller Guds Kraptar innebundner, þvijad þad hefur so þack-

þacknæmt verid Fodurnum, ad i honum skyllde allur Fullkomlegleike byggia Col. 1. v. 19. af hans Fyllingu hofum vær allir tekid Nad fyrer Nad Joh. 1. v. 16. og fyrer hann Uppfyllunst vier med allshattadre, Guds Uppfyllingu: Eph. 3. 19. Sæll er sa Madur sem etur af þessu Braude; vier etum af þvi jardneska Braude, og verdum þo loksins ad deya, enn hver sem etur af Lijffsens Braude Jesu Christo hann mun alldreyi deya Joh. 6. 50. 51.

Þad fiorda i Psalmenum er Vynid, om hvørt Prophetenn segir; ad Vyned gledie Mannsins Hiarta: med þessare ipparlegu Guds Skopun, Vynenu, minner Gud oss einnig a sijna miklu Giæsku, ad vier skulum þeckia hans vingiarnlegleika, sem hann hefur list af ad auglysa oss.

Firſt hefur Gud skapad Vynid þeim sorgfullu og angradu hiørtum til goda sef segir Salomon Ordsk. 31. c. 6. 7. Vyn syrgendum Salum so þeir drecke og gleyme Eimd sinne: J hverium ordum vier heirum ad Guds Kiærleike og (vinfeinge) gledur natturliga, þa angradu Manneskiu med Vynenu; hvad ed oss minner a ad Gud gledur og huggar þær sorgbitnu Salir med Glevyne þess Heilaga Anda, og himneskrar Hugguner, sem kemur og utstreymir af þvi lifande Vyntrie Christo, hvar um Brudurinn talar

og

og syngur i Løfkvædenu Løfk. 2. v. 4. 5. hann leidde mig i Vynkiallaran, hann liifgade mig med Blomstrum, og nærde mig med Eplum. Þetta Gledennar vyn hefur Daniel og hans Medbrædur, einnig Maria Christi Moder, ja allir Heilager druckid, og gladt sig med i Anda: þad er þad sem Esaias segir, Esa. 61. v. 10. Eg gled mig i Drottne, og myn Sal er gladvær i Gude mijnum.

J annann mata hefur Gud skapad Vynid til ad styrkia þa siuku. Þviad i Vynenu er soddann eirn Kraptur og Styrkleike er giefur Lyfs-Ondunum sem eru i Hiartanu, einn natturlegann styrk og varma: J hvöriu vier siaum aptur Guds Giæsku og fødurliga Forsorgun, og skulum þar hia hugleida, ad Gud hefur og so ætlad Styrkingar-vyn sinnar nadar vorum siuku Salum, og þad edla vijnberia-blod sem er komid af þvi særda lifande Vyntre Christo: þviad Christur hefur þveigied sinn Klædnad i Vyne, og sinn Miøttul i Vynberia-Blode, so sem Forfaderenn ad orde kiemst Gen. 49. v. 11.

Ad siidustu hefur Gud skapad Vynedølldrudu Folke til goda, hvers Lios, sem a ad vidhallda Lijfenu, ætlar ad utslockna, til þess, ad þad gete enn þa nockra stund framveigis kveikt hid sama Lios aptur og þvi vidhallded: hvad oss skal

ſkal minna a þa andlegu Elle þeirrar Chriſtile-
gu Kyrkiu, og ad hun giøreſt gomul og veik;
enn ei ad ſydur, er henne af Gude halldid vid
i ſoddann hennar Elle og Veikleika: Allt eins
og Kraptarner ganga af ſier hia einum nattur-
ligum Manni i Alldurdomenum, Augun ver-
da myrk og ſiondøpur; Heirninn tapaſt, Krap-
tarner mynka, og allt verdur veikt og hrørligt;
ſo ber þad og til optliga i þeirri ſynelegu Guds
kyrkiu hier i heime. Truinn og Kiærleikurinn
kolnar, Vonin veikeſt, og þeſſ hattar andlegir
Kraptar hrørna, og þverra æ meir og meir;
hvar um vor Drottenn Chriſtus ſeigir hia Luc.
18.8. Nær Mannſins Sonur mun koma; meinar þu ad
hann munne Trn finna a Jørdu? Ei adſydur vidhell-
dur þo Gud ſinne Samkundu i þeſſ hattar and-
legum Veikleika, og lofar þeſſ vegna fyrer Spa-
maninn Eſaiam 40.31. ad gieſa þeim truudu
nyann Krapt, ſo ad þeir uppfl:uge med ſynum Vængi-
um ſem Ernir, hlaupe og vanmegneſt ecke, gange og mæ-
deſt ecke: og i Pſal. 9 . ſeiger David; Nær ed þeir
taka eirnenn alldradir ad verda, þa munu þeir ſo ſamt ſem
adur blomgaſt, og avartarſamir og ferſkir verda.

Sa fimte Avøxtur Jardarennar ſem i Pſal-
menum er ad adgiæta, er Vidſmiør, og Balſam,
um hvert þar ſtendur: ad Mannſins Aſiana
dægelig verde ut af Vidſmiørenu; þad a ad ſki-
liaſt

liast um þad kostuliga Gydinga Balsam, ellegar Nardus-Smirsl, med hverium, Gydingarner og Folked i Austur-halfunne smurdu sig, þa þad villde hallda Glede, þvi þa þad villde hafa miked vid syna Gesta og taka vel vid þeim, þa smurde þad þa med Balsame, og steipte þvi yfer þa, hvar af allir Kraptar lijkamans endurlifnudu, og allur Madurinn, gaf af sier Rosar-Jlm: til þessa lytur David i Psalm. 23. v. 5. þa hann seigir, Þu, Drottinn, smyr mitt Høfud med Vidsmiøre: Matt. 26. v. 6. 7. Herran Christur var og so smurdur med Balsami i Huse þess Spitelska Simeons, hvar hann var ad heimbode: og umm eina Kvinnu, sem hann i lykan mata smurdi i Huse Simons Phariseara seigir drottenn hia Luc. 7. til v. 44. 46. til þess sama Phariseara: Eg gieck inn i þitt Hus, mitt Høfud smurdir þu eige med Vidsmiøre, en þesse smurde mynar Fætur med Balsame: Þad er sagt ad þetta Balsam sie so kroptugt, ad þad kunne ad vardveita þa dautdu lijkame mørg hundrud Ar fra Forrotnan, og þar fyrer seigia Histioriurnar, ad i Tijd Keysarans Augusti hafi fundist lijk Alexanders hins mikla i Egyptalandi, hvert er hafdi verid Balsamerad, og leigid þriuhundrud Ar i Grøfene, var þo enn þa oskaddad, eins og þad hefde ecke leiged utann einn Dag.

Vier

Vier verdum og med þvi minter a þad rietta Andans og Gledennar Vidsmiør og Balsam, med hveriu Guds Sonur epter sinne Manndomlegu Natturu, er smurdur an mælirs, um̃ hvert David so til orda tekur i Psalm. 45. 8. Gud þinn Gud hefur smurt þig med Gledennar Vidsmiøre, meirenn þijna Samlags brædur: af hverium Gledennar Anda og Vidsmiøre vier høfum og ødlast þa Smurning um hveria St. Johannes i Pist. 2. seigir ad hun kienne oss alla Hlute, og fyrer hana verdur vor Sal davæn og dægeleg fyrir Gudi, og prydest med Gafum Heilags Anda, vorir Lijkamir verda og fyrer þad Mustere Heilags Anda, hvad allra hellst mun kunnigt verda i Upprisunne, nær þetta hid forgeingelega klytur ad Klædast oforgeingilegleikanum, og þetta sem sad verdur i Vansemd, mun upp aptur rysa i Vegsemd 1 Cor. 15. v. 53. 54.

Þad fiorda sem umtalad verdur i Psalmenum a ad vera Trie Jardarennar um hver Prophetenn seiger: Skogar-Trien Drottins standa Full med Vøkvaun, þau Cedrus-Trien i Libanon, sem hann hefur plantad. J trianum høfum vier mørg natturlig Undur ad hugleida, af hverium tvø eru innebundinn i þessare Grein: þad er eitt ad þau standa full af Vøkvan/ þad skiedur a synum riätta Tima, og hellst a Vorinn, þviad a Veturinn standa þau eins og þau være daud: af

Safanum og Vokvunenne sem þau hafa, utspretta Hnapparnir med grænu Blodunum, og þar a eptir Blomstrinn, og Avexterner, yfir hveriu Menn meiga sig storliga furda; þviad hver Hagleiksſmidur i Verolldenne munde nockurn tima kunna ad giora og bua eitt Eple til af vokva nockurs Tries; ellegar giora og til bua eitt Vynber af vokva Vynberia-triesins? Birketren giefa og a Vorinn so miken Vokva af sier, ad Madur ma tappa hann ut, so sem af einu Fate, ellegar einne Tunnu. J þvi Atlantiska-Hafe er ein Ey, a hvorre ad eingenn Brunnur finst nie Vatn, helldur eitt Trie, a hveriu eitt Sky liggur og drypur med iafnade, hveriet Dropar gefa so miked Vatn af sier, ad oll Eyenn hefur nog þar af. þad er enn þa meir sem stendur i Ordunum, ad Drottenn hefur plantad Trien: þad hefur Drottenn giort fyrer Ordid i firstu Skopun, þa hann sagde, late Jordenn uppvara af sier græn Gros og Jurter Gen. I. v. II. og þar fyrer vara enn nu a þessum Deige ny Trie, iafnvel þott Menn kippe þeim gomlu upp med Rotenne: þviad so leinge sem Jordenn varir, bihelldur hunn þessare Guds Blessan, sem hun hefur feingid fyrir Ordid i Skoppunenne, ad hun skal skiota upp af sier Grase og Triam.

Trien minna oss og eirnenn med þeirra Avexte,

verte, á Godverkenn og þeirra Averte i Kiær-leikanum til Guds og vors Naunga: þviad eins og þau godu Trien eru ecke ofrioſom, hell-dur bera þau Avørt, ja bera, giefa og framm-færa þann allra beſta Avørt, ſem þau hafa, og hefde þau hann betre til, þa giæfu þau hann betre, an þeſſ ad þau ſæe eptir honum i nockurn mata; þannig eigum vier og ad bera goda A-verte Riettlæteſens bædi til Guds og Mannan-na Pſal. 92. 14. og vera ſem avaxtarſøm Trie, ſem pløntud eru af Drottni honum til lofs og dyrdar Eſ. 61. 3. Seinaſt minna Trien oſſ a Liifſins-tried med ſiinum edla og liifsſætu Avørtum: þetta Lyfſins-trie er ſa kroſſ-feſte og uppriſne Chriſtus, hver ſem etur af averte þeſſa Trjes, hann ſkal lifa eilyflega opinb. b. 22. 2. Joh. 6. v. 51.

Þad ſiøunda og ſydſta i Pſalmenum um̃ Jordena, med hveriu Gud hana prydir, eru Dy-renn: nefnilega ad nockruleite Fulgarner i Skogenum / hverier ad ſønnu hafa ſinn Uppru-na af Vatnenu, enn ei ad ſiidur byggia þeir ſijn Hreidur i Trianum, og tingaſt Mønnunum til hins beſta og Forſorgunar; ad nockruleite eru þad og ſo hin ønnur Dyr Jardarennar, og ſierdeilis þau ſem hallda ſig a þeim hau Fiøll-um, þar hreidra ſig Fuglarner, og Storkarner byggia uppi

Grenevidar triamm. þau hafu Biørgenn eru Steingeita Athvarf, og Biargskorurnar Kunis diiranna, stendur i Ps. 104. v. 17. 18. vid Job seigir Drotten i 39. Cap. v. 1. Veitstu þann Tijmann, nær Steingeiturnar bera a Fiøllunum? Hver hefur lated þau Villudyrenn ganga so sialfrada? Hver hefur uppleist Banded Villudyranna? hverium ad eg hefe gefed Skogenn til Huss, og Eydemørkena til Ibyggingar.. Storkuren fer hatt upp, og han skimpir bæde Hesten og Manninn. Flygur Haukurenn epter þin umskilninge? Flijgur Ørnenn þanninn hatt af þinne Skipan, so hun giøre sitt Hreidur i Hædunum?

Vier skulum hier læra, ad Gud vill ecke lata Jardarkringluna vera auda og toma, helldur hefur hann skapad Skoga og Eidemerkur, fulla af Fuglum og Dijrum, til þess ad Menn skule þeckia og kannast vid Guds Godgyrne til Mannanna, af þeirra Gagne og Nytsemd; Guds Rykdom, af þeirra Fiøllda, Guds Almætte og Vysdom, af þeirra margslags og imislegum Eigenlegleikum, og a hvørsu margann hatt þau ma bruka.

Vier vilium ad Endingu heyra Drottens Ord um̃ Dyrinn i Ps. 50. 10. Dyrenn øll i Skogunum eru miin, seger Drottenn, og Kvikfied a fiøllunum, þar ed þad geingur. Þusundum til samans, alla Fuglana a Fiøllunum, þa þecke eg, og allra handa dijr a Mørkenne eru fyrer mier. Ef eg er hungradur, þa villda eg ier þar ecke af segia, þviad Jørdenn er miin, og allt hvad þar er inne

inne. hvert þeinker þu, ad ea vilie Uxa-Kiøt eta, edur Hafra-Blod drecka? O gode Gud, hvoriar eru þær Forner, sem hier þocknast? þar til svarast, i þvi næst efftersilgiande 14 verse. Offra þu Gude Þackargiørd, og gialld hinum Hærsta þijn Heit; og i þvi 15. Akalla þu mig i Neydinne, þa mun eg frelsa þig og þu skallt þa heidra mig.

# Cap. IV.

## Umm Solena, Tunglid, og adrar Himinsins Stiornur, sem voru skapadar a þeim Fiorda Deige.

Gen. B: 1. Cap. v. 14.

Og Gud sagde, verde Lios a Festingu Himensens, so þau skilie Dagenn fra Nottenne, og gefe Teikn, Tijma Daga og Ar.

Psalm: 104. 19.

Þu giorer Tungled, Arenu þar epter ad skipta, Solenn hun veit sijna Nidurgaungu.

Syr. 43. v. 2. 5.

Solenn er eitt Dasemdar verk hins Hædsta; þad hlytur ad vera eirn mikill herra, sem hana hefur giort og henne hefur skipad so hart ad hlaupa.

Stiornurnar eru Himnesker Lijkamar, og Lios af einne himneskre Veru og Natturu,

þær eru fyrer þad almattuga Guds Ord settar a Himensens Viijdattu, til ad upplysa Jordena, til ad giera Adgreining Dags og Nætur, til ad sundurskilia Tyderner, Daga og Ar; og til ad prijda giorvallann Himenenn, so og til ad gefa imisleg Teickn so sem Natturu-Teickn, Reidi-Teickn og Nadar Teickn. Nu seiger Gud so fyrer Esaiam 40. c. 26. og fyrer Psalma skalded Ps. 147. v. 4. Upphefied ydar Augu i Hædernar, og siaed, hver hefur soddann hlute skapad, og utleider þeirra Her med tolu? Hann sa sem þa alla kallar med Nafne. Þvi er þad rettvyst, ad vier, epter slikre Skipun og Bode hugleidum og skodum þann hafa Himin, og Stiørnurnar a honum, ad vier þar af kynnum ad þeckia Skaparans Almætte og Viijsdom, og þar fyrer seigir og so hinn Heilage David Ps. 19. v. 2. ad Himnarner framtelie Guds Dijrd, og Festingenn kungiore Verk hans Handa. Þad sem einkanlega er ad yfer vega a Stiørnunum, Solunne og Tunglenu, og storliga ma undrast yfer, kann ad heimfærast til fiogra Hofudstyckia; medal hverra þad firsta er þeirra Stærd og Fiollde: annad þeirra Hlaup, og þad þridia Verkun og Framkvæmd.

## Umm Stærd og Fiollda Himen-tunglanna.

Hvad ahrærer þad firsta, þa er ecke Mismu-

munur Himentunglanna, ellegar þeirra him-
neſku lykama, ſo mikell ad Stærdenne, ſem þau
ſynaſt fyrer vorum veiku Augum ad vera, ſyn
a mille, annad hvort ſtærre, eda minne; þviad
Tungled ſyneſt ſtærra, enn nockur af hinum
ødrum Stiornunum: og er þo miklu minna,
enn margar af þeim. Solenn er ecke helldur
af þeim ſtærſtu Stiornum a Himnenum jafn
vel þott hun ſyneſt ad vera, þviad margar af
þeim føſtu Stiornunum, eru langtum ſtærre.
Og hindrar þad ecke, þott Solen og Tungled nef-
neſt i Skriftenne þau tvø ſtoru Lios: þvi þad a
ecke ad ſkiliaſt um þeirra Utþenſlu og Vidattu-
ſtærd, helldur um Stærd Lioſens, ſem þau af
ſier gefa, og ad þau upplioma Jordena meir
enn allar adrar Stiornur: þarfyrer ſeiger Ba-
ſilius Magnus i ſinne ſiøttu Rædu um SexDa-
ga Verked: Mijn Meining er, ad Sol og Tun-
gl ſieu ecke þeſſvegna kollud ſtor Lios / ad þau
ſieu ſtærre, enn adrar Stiornur, helldur af
þvi, ad þau eru ſo ſtor, i þeirra Vidattu
og Umferd, ad þau geta med þeirra Lioſe upp-
fillt, ei alleinaſta giørvallann Himininn, hell-
dur og ſo Jordena og Hafed. þetta er þad Ba-
ſilius ſeiger.

Ei ad ſijdur eru þo þeſſer himenſens Lyka-
mer Sol og Tungl i ſialfum ſier yfredſtorer.

Umm Solena og Tunglid talar Basilius i adur aminstum stad: Solenn og Tungled seiger hann, siast allteijd eins stor, bædi i þeirra Uppgaungu, hvad ad er ein klar Bevysing til þess, ad þau hliota ad vera oseiganlega stor, efter þvi ad Jordenn, hvorsu breid sem hun er, fær þo ecke þad hindrad, ad þau siaest allstadar eins stor. annars kenna Stiornu-meistarar, ad Tungled, hvørt ed reiknast med þeinn minstu Stiornum og Himens Lykomum, er ad mestu leite so stort, sem sa megtuge, store, og vijde Jardar Hryngur, og Hnottur, og er ecke utann litlum mun minne. Enn Solenn er meir enn hundrad sinnum stærre, enn hin sama stora og vida Jardarkryngla, Flestallar hinar Planeturnar, eru og annad hvort langtum stærre, eda og eins storar, sem Jardarkrynglann, og faar af þeim nockud minne, aller hallda ad þærfostu Stiornur, sieu i kryng nockur hundrud þyskar Milur, og eingenn sie minne enn Jardarhnotturenn; margar sieu og so morgum hundrud sinnum stærre.

Hvad vidvykur Fiollda Stiarnanna, þa eru þar margar þusundsinnum þusunder af þeim, sem vier ecke faum sied med vorum Augum, og þær ed vier faum sied, eru og so fyrer oss oteliande, so ad heilog Ritning seiger og þessvegna, ad þær verde ecke taldar / og Drottenn seigir til Abra=

Abraham Gen. 15. v. 5. Lyttu upp til Himens, og tel Stiørnurnar, kantu ad telia þær?

Hugleid nu hvørſu megtugur Herra Gud ma vera, ſem hefur ſkapad alla þeſſa ſtoru himneſku Lykame i miklum Fiollda, og muntu finna, ad ſlyk Stærd og Fiolldi, er ein ſtor Guds Daſemd, ſo og einn klar Vitnesburdur um Guds outſeiganlega Magt og Visdom.

## Um̃ hlaup ſtiarnanna.

Um̃ þad hid ſama vitnar og þeirra Hlaup; Eingenn Stiarna ſyneſt ſo lytel, ad hun ei hafe ſitt Hlaup og Hræring, þær hlaupa allar og ſoddann þeirra Hlaup er an aflats, ſo ad þær, a natturligann hatt ſtanda ecke kirrar eitt Augnablik, eda kunna ad ſtanda kirrar, helldur halldа afram an aflats i þeirra hlaupe og hræringu, ſem reiknaſt ma ſo ſem þeirra Lijf; Ef þær hlipe ecke og hrærduſt, mættu þær ſeigiaſt daudar, og ſo ſem daudur madur, hver ed hefur einga hreiſing nie hræring i ſier, og ſtæde ein af þeim graf kirr, þa munde øll Himenſens Nidurradan og Buningur ſpillaſt, og ganga ur lage, þar fyrer verda þær ad hlaupa med jafnade og hræraſt.

Þeirra Hlaup hefur og ſijna Viſſu og Stø-

dugleika, sier hvør ein hefur siina Tijd ad hlaupa a, og nær su Tijd er til enda, þa hyriar hun afftur ad nyu, af hvøriu þad kemur, ad Stiørnu meistararner, geta sagt fyrer morgum hundrud arum, nær ein Stiarna skal finnast i þeim og þeim stad a Himnenum, nær Formirkvan skal vera, nær nijtt Tungl skal vera; eda fullt, og annad þesshattar. Sierhver Stiarna hefur og sitt eiged Himenplats, og Hlauphring, eda sinn sierdeiles tilsettann Veg a Himnenum, sem hun ecke geingur yfer, helldur blyfur hun, epter Guds Skipun, i siinu Takmarke, so ad hvør hindre ecke adra.

Ad siidustu er og slykt Hlaup almennelega, ærid hradt og bradfara, ja sa hradt og bradfara, ad þad er hartnær ogriipanlegt; Madur athuge alleina hrada Ras og fliotleika Solarennar; þvi jafnvel þott hun sie meir enn hunradsinnum stærre, enn Jodenn, so sia menn þo, ad hun hleipur ecke einasta einusinne um̃ Ared fra Nordre til Sudurs, og aptur fra Sudre til Nordurs: helldur hleypur hun og so hvørn Dag i gegnum Himenenn, fra Austre til Vesturs, og fra Vestre aptur til Austurs; hvar med hennar klara skin i soddann daglegu hlaupe geingur hvørn Tyma yfer, hier um tvøhundrud tuttugu og fim̃ mylur vegar a Jordunne, og hun

hun ſialf i oſkilianlegann og oſeiganligann mata, þo hradara a ſialfum Himnenum. So er og mællt, ad hlaup adſkilianlegra hinna Planetanna, ſem og foſtu Stiarnanna ſie enn þa hradara, epter þvi Sem ſtiornumeiſtararner kenna.

Hugleid nu mitt Barn, hverſu ſtor Guds Daſemd þetta er, ad jafnvel þott Stiornurnar ſieu ecke lifande dijr, helldur ein hrein og tom Materia, og þo þær ſieu yfred ſtorar og hártnær eingenn Minne, enn ſu ſtora og vijda Jardarkringla, þa hlaupa þær þo allar jafnann hradt um kring a Himnenum; ja hallda þeirra Hlaupe ſo viſſu og ſtødugu, hver aſinum veige, og hryng / ad Madur getur ecke, med norkrum Penna, noglega utmalad þvilyka hradferd, viſſu og ſtødugleika; þu munder verda ſem mallaus, ja lyda burt af forundran, ef þu ſær, jafnvel ecke nema einn Lioshnott, eda Elldhnott, ſem ei være ſtærre enn eitt af þeim ſtærſtu Fiollum hlaupa þannig um kryng: eda ef þu ſær, þott ei være nema einn Bugardur eda Bær, ad hann ſveimade yfer þynu Høfde i Loptenu, og glanſade ſem elldur eda loge, og være eitt klart ſkinandi Lios: hverſu framar mattu þa ecke undra þig yfer þvi, ad ſo margar þuſundſinnum þuſunder, liomandi Stiarna, af hvøriun þær fleſtu eru ſtærre, enn ſu ſtora og vijda Jardarkringla,

krijngla, medal hvorra einnig er Elldhnottur Solarennar, hver ed er meir enn hundrad sinnum stærre, enn su vijda Jord; fara um kring a Himnenum i soddann oskilianlegum haste, vissu og Stodugleika, ad þad er eins og allur Himenenn kvike þar fyrer, ecke nema af kringhlaupande Solum, og sijnest þar med, eins og være hann ad ollu leite lifande. vier meigum medkenna, ad slykt yfergeingur allann vorn Skilning og Vitsmune og hofum alleina þar i ad merkia Guds oransakanlegann Vysdom, og Almætte, med hvoriu hann utleider og framfærer allann þann stora her Stiarnanna, i þeirra Nidurskipan og hlaupe, og veit ad nefna þær allar med sijnu Nafne, so vier meigum vel seigia med Spamannenum. af Psal. 136. v. 5. Drottenn hefur giort Himenenn skinsamlega, eda med storum Vysdome.

Annars ma Madur og so rada, bæde af Hlaupe og Stærd Solarennar Tunglsens, og annara Stiarna, þad sem um hefur vered talad i þeim odrum Capitula, hvorsu eitt omæleligt Rum, ad so storer og megtuger himnesker Lykamer, verda ad hafa, til ad fullkomna þeirra Hlaupi; þad er, hvorsu oskilianlega vijdur og stor Himenenn meige vera, a hvorium þeir hlaupa: Madur hugleide alleinasta, hversu mi-

miked og oskilianlegt rum Solen ein tekur af, bæde med synu Hlaupe og Stærd, og ef hann leggur so þar vid, Plats og Hlauphryng Tunglsens i Loptenu, so og hinna annra Planetanna, af hvørium sier hvør hefur sitt eiged Plats, og Skeidvoll a Himnenum, sem sagt er. Grunde Madur og þær þusundsinnum mørgu þusunder fastra Stiarna, þeirra Skeidvoll, Takmørk og Voxt, ad flestallar af þeim eru, sem adur er sagt, stærre enn Jordenn, giøre Madur einunges þetta ad yfervega mun hann merkia og finna, ad Jordenn ma vera a mote Himnenum lijka sem eirn lijtell punctur, eda so sem ecke neitt, og Himenenn hlytur ad vera mørgumþusundsinnum þusundum stærre, ja so stor, ad soddann stærd er ogrypanleg øllum skilninge, outþeinkianleg, og oransakanleg, og ad vorer Vitsmuner og Þankar verda ad gefast upp i slykre Rannsokun, og geta þar a aungva skyrslu giørt: þessvegna samlyker og Skriften stærd Guds Miskunseme, sem er fyrer utann mata, mæler og enda ecke ved Jordena, sem henne er i øngvu lyk, helldur vid þa sømu Vijdattu Himensens Hæd og Stærd, a hvørium ed so margar þusundsinnum þusunder Stiørnur sveima, af hvørium hver ein er langtum stærre enn Jordenn, og full

full af Guds Dasemdum, þvi ad Stiornurnar eru Guds Fiehyrdslur, langtum stærre enn Jørdenn. So hátt sem Himenenn er upp yfer Jørdenne seiger Prophetinn, þa lætur Gud syna Nad volldugлega vera yfer þeim sem hann, ottast, so fiærre sem Austred er fra Vestrenu; lætur hann vorar Yfertrodslur fra oss vera Ps. 103. v. 11. 12.

Ad sidustu skal og Fiollde Stiarnanna minna oss a Fiollda og Hlaup þeirra osynelegu Stiarna, þad er þeirra Heilogu Eingla hvorier og so kallast i Ritningunne Stiornur, so sem i Jobs Bokar 38. v. 4-7. þar Drottenn seger: Hvar varst þu þa ed Morgunstiornurnar hver med annare lofudu mig, og oll Guds Børn þau gloddu sig. somu Guds Einglar hlaupa og so, þar þeir eru Guds Sendebodar, og framkvæma hans Skipaner, og eru þionustusamer Andar, utsender til þionustu, vegna þeirra, sem erfa skulu Saluhiulpena Ebr. 1. 14. þeirra Fiollde giefst oss einnig til Vitundar, ad nockru leite þar af, ad þeim er samlykt vid Stiornurnar, sem eru adfiollda oteliandi so sem sagt er. ad nockru leité af þvi, ad Skriftenn kallar þa eirn Her; ja Himensens Her 1 Bok Kong. 22. v. 19. so og Guds Herlid Gen. 32. v. 2. og margfiollda Himneskra Hersveita Luc. 2. v. 13. Ad sydustu gefst oss þeirra Fiolldi til vitundar þar af, ad þad seigest um þa utþryckelega hia Spamannenum Daniel 7. Cap. v. 10. þusundsinnum þusund þionudu hø-

honum og tiusinnum hundrad þusunder stodu framme fyrer honum. Hier ætte og ad talast nockud um þa storu Velgiorninga, sem sa Naduge og alvyse Gud tiaer og auglyser med Hlaupe Solarennar Tunglsens og Stiarnanna: enn þad gefst betre Hentugleike til ad framfæra þad, seinast i þessum Capitula; hvers vegna þvi verdur ad þessu sinne hier slept.

## Um Verkan og framkvæmd Stiarnanna.

Sa þridie og sijdste Punctur, sem vier hofum teked oss fyrer hendur ad yfervega, ut af Stiornunum; er þeirra Verkan og Framkvæmd: þar um skal Madur vita, ad Stiornurnar eru su stora Fiehyrdsla þess almattuga Guds, ut hverre hann undrunarlega utbyter Heimenum allrahellst Monnunum, og a medal þeirra sierdeiles þeim truudu, sem eru hans elskuleg Born, sijnum godu Hlutum og Gafum, og framleider þar af so miked Gott, og so marga Blessan, ad omegulegt er þad allt ad uppreikna, og ecke verdur sa þusundaste Partur þar af utmaladur, ad hveriu leite Stiornurnar, a otelianlegann hatt eru fremre og meire enn Jordenn, þvi þott Jordenn sie og so eitt Fiargeimslu-Hus Guds,

sem

sem fram ber Guds Fiesiodu, þa er þad þo miklu minna, ja so sem eckert a mote þvi, sem Himenenn og Stiørnurnar bera framm; og soddann Gafur og Avexter Himensens og Stiarnanna veitast sierdeiles Jordenne, epter þvi ad Stiørnurnar eru giørdar til þess, ad þær skijne a Jordena.

Um þetta vil eg fyrst innfæra, þesskostulega og vydfræga þijska Læremeistara Philippi Paracelsi Meining: Umm hvøria sierhvør ma dæma, sem hønum synest. Hans Meining er þesse: ad allur natturlegur Vysdomur, Kunst og Sidseme, sem eirn Madur a Jordunne getur uppafunded, og ydkad, sie innefalenn i Stiørnunum: þar af, seiger hann, koma þeir storu og Natturlegu Meistarar i allra handa Konstum, og Uppafinningum, þviad Natturann drijfur soddann Folks Þanka og Sinne, so þeir med storre Jdiu, og Adgiætne erfida og leggia sig epter Konstunum, til þess ad Guds Verk verde openber, og komi i Lios: Gudi til Heidurs, og Mønnunum til Gagns og Goda þvi so hefur Gud lagad þad, og skickad, og lagt soddann Fiesiod i Himenenn, eins og hans leineligar Penninga Hirdslur, so hann a sijnum Tijma liete slykt koma fyrer Dagenn, og i Lios fyrer Mennena. þessu utbyter hann, nær, hvar,

hvar, med hvoriu hellſt mote, og hvorium hann vill:

Og a þann hatt, nefnelega, med þeirre undarlegre Verkan, ellegar Ervideſſinunum og Innblæſtre, framtelia og ſo Himnarner Guds Dyrd, og Feſtingenu kunngiorer Verk hans Handa Pſal. 19. v. 1. Soddann ſeiger hann, ſkedur ecke einunges fyrer Stærd Himenſens, fyrir Nidurradan og viſſann gang Stiarnanna, helldur eirnameſt fyrer þeirra Verkan; hvadann aller þeir eru komner og kiniader, ſem hafa funded uppa nya hlute, ecke af ſialfum ſier, helldur med þvi mote, ad þeir hafa vered nockurs konar Verkfære, fyrer hvor Himenenn hefur fullendad þa Verkun, ſem honum var af Gude innplontud, og hefur Konſternar i Lios leidt ur Guds heimuglegum Fieſiodum og fyrerliggiande Fie, eins og Menn ſia ad Eykurnar gefa af ſier ſyna averte a viſſum tymum, þviad i lykann mata og ecke odru vyſe a þad ad ſkiliaſt um Stiornurnar i þeirra Verkun; þær hafa ſijna Tijd til ad bera ſinn Avoxt a; og ſa ſem er eirn godur Stiornumeiſtare, og ſkiffter ſier framar af natturu Himentunglanna, enn einſamlre Reikningsliſtenne, hann veitt og ſkilur, hvar, hvorſu, og nær, ſoddann Lykur eiga ad blomgaſt a Himnenum, og gefa ſinn Avoxt: ſia! þannig fortelia Himnar⸗

narnir Guds Dijrd, og su utþanda Festing, Verkinn hans Handa.

Þarfyrer er þad ein stor Villa, ad Madur meinar Manneskiurnar hafe funded uppa nockud gott, af sialfum sier; first þær eru ecke utann nockurs konar Verkfæri þar til, ja Himenenn sialfur giörer þad ecke af sier sialfum; helldur er hann einasta, lijka sem eirn Skapur, Kista, eda Camers, i hvort sa ypparste Herra og Skattmeistare, leggur sijna Fiesiodu, og þar efter tekur hann þa þar ut ur, og utbyter þeim til þeirra, sem hann hefur utvaled, og skipad þar til: siaed, Oll god Giof, og oll fullkomenn giof, kiemur ad ofann fra Fodurnum Liossens Jac. I. v. 17. Allur Vysdomur er fra Gude Drottne, og er med honum eilyfliga Syr. I. v. I. Og þessar Gafur veiter hann oss, annadhvort fyrer Medal, og a natturlegann hatt, ellegar an Medala, og med yfernatturlegum Hætte. So kemur þa ad ofann allur natturlegur Vijsdomur, þadann kemur allur skilningur a øllum natturlegum, a veralldlegum Rette og Lækneskonst, þadann hafa øll Skalld og Liodasmider, indesleger Saungmeistarar, Vitrer og Adgiætner Mælskumenn, hager Handverks Meistarar a allra handa Smijde Trie, Malm og Steina: aller veralldleger Stiornendur, aller kiæner Strydsmenn,

menn, sijna fyrstu Ætt og Uppruna. Isliotu male ad seigia, hvor eirn fær þar af / sijnar natturligar gafur, epter þvi sem þær verda honum utbyttar af Gude.

Enn þeir sem Gud Drottenn uppfyller a yfernatturlegann hatt, med Vysdoms Anda, hvilyker ed voru Smiderner i Gamla Testamentenu Bezaleel og ohaliab Exod. 36. v. 1. so og eirnenn þeir vysu Stiornendur og Strydskappar, um hveria talad verdur i Ritningunne; hia hverium og Salomon med sinne Vitsku a heima. þeir hafa a þann hatt eckert ad sysla, med þann natturlega Himen; af þeim natturlega Himnenum, hefur hver Madur nattur lega Lijst, til ad vita og ransaka eirn Hlut; og i þad er margur so solgenn, og hefur so akafa og brennande Gyrnd til þess, ad hann nytur einkis Fridar þessvegna, þvi ad eins og Mañsens Lykame hefur sijna Fædu og Upphellde af þeim nedsku Elementum, sem er af Vatne og Jördu og gietur ecke lifad an þeirra, so hefur og Siñe Mañsens, Þankar og Ande, sijna Fædu af Stiornunum, og aller Forsialer, og Skarpvitrer Menn hafa sijnar Hugrenningar, Innblastur og Innfoll af Stiornunum, og þad er so sem þeirra Fæda, hviad, ef Mannanna Lykame fædest af þeim

nedstu Elementunum, skyllde þa ecke eirnig þeirra Sinne og Þankar, hafa sijna Fædu af þeim hærre? komi þar og til slijks natturligs Lioss, su andlega Upplysing, af þeim Heilaga Anda og Endurfædingunne, þa fa og ødlast slijkar natturlegar Gafur enn hærre Troppu og Gang, til sinnar fullkomnunar og þvilijkar Manneskiur fa þa eirn nyann Himen, sem hrærir þær, og hreifir þeim langtum hærra og ypparligar. Þeir sem eru endurfædder af Gude, þeirra Himin og Tilhneiging er sialfur Gud, og þeir heilogu Einglar; Guds Safnadar Einglar, eru þeirra Stiornur, so sem seigir i Opinberingunne. Þeir stiornast ecke af þeim einsamla Natturlega Himne, eda lata hann einungis rada fyrir sier; þeir eru fyrir ofan þann natturlega Himin, og þeirra giorningar hafa einn hærre Uppruna, sem er sialfur Gud. Þess hattar voru þeir Heilogu (Patriarchar Forfedur og Spamenn, Joseph, Daniel, Salomon, og adrer, um hveria skrifad stendur ad þeirra Vijsdomur yfirgeck allann þeirra Vijsdom, er voru i Egyptalande, Persien og Austurlondunum. þviad Egyptisker, Persar og Austurlendsker hofdu ei nema þess natturliga Himins Visdom: enn Moses, Joseph, Daniel, David, Salomon og þvilijker fleyre Guds Hei-

Heilager hofdu auk þeſſ natturliga Visdomſins og ſo þann yfirnatturliga og þeir Heilogu Poſtular urdu upplyſtir og iſærdir med Lioſe og Krapte Heilags Anda af Hædum. þviad þeir attu ecke ad kunngiora natturligann Vijsdom og konſt, og vera natturlegir Meiſtarar i Veroldenne; helldur attu þeir ad kunngiora þann himneſka eylifa Vijsdom, hvern ed þeir verallðligu Viſendamenn hafa ecke þeckt 1 Cor. 2. v. 1. 4. 7. 8.

So langt nær Meining þeſſ firrtieda Læremeiſtara og Spekings, hver ed ma forſvare ſig ſialf; og ſtidur ſig vid þær Beviſingar, ſem hann leitaſt vid ad ſtadfeſta hana med. Enn ſo ad vier komum aptur til vors Aforms, þa er þad vijſt, þott Spadomur af Stiornunum umm Manſins Lucku og Olucku, allrahellſt þegar ſu og ſu Perſona er titekinn, a olldungis ecke ad medtakaſt nie ſamþyckiaſt, ſamt hafa Stiornurnar þeirra Viſſar og kroftugar Verkaner, og Framkvæmder i og a Jordenne; hveriar ed heimfæraſt kunna til þriggia Hofudſtyckia; þad firſta er, ad þær verka og ſijna Tijdena; þad annad ad þær eru Teikn, og þad þridia, ad þær hafa adrar natturligar og onatturlegar Utrettingar.



(a) les her um Vidbæter þeirrar Annarar Bokarinnar.

# Umm Tijmann.

Vier vilium tala umm hvert eitt af þessu ut af fyrir sig. Hvad þvi firsta vidvijkur, sem er Tijmenn: þa er þad vist og obrigdanligt, ad Tijmenn fær sijna Nidurradan af Himintunglunum; þviad i 1 B. Mos. 1. v. 14. stendur ad þau skule gefa Teikn Tijma Daga og Ar: ellegar stifta og giøra Tijdena. J Openberingar Bokarenar 10 C. v. 6. 7. greinir einnig, ad þaed fullkomnadur skal verda Leyndardomur Guds, og Himin og Jord med øllum Stiørnum þarfyrir forganga, þa skal þadan i fra einginn Tijd meir vera. Og er þad ecke litid Gagn og Nytseme ad Stiørnurnar verka og stifta Tijdena. þviad Guds Forsion og dasamlig Stiorn, hefur alla hlute afmarkad i Tijdenne. allir Hlutir hafa sinn Tima seigir Predikare Salomonis 3 C. 1. Verølldenn hefur sinn Tijma, og sinn Aldur øll Rijke og Stiørnar-Vellde sijna Tijd. Su Babiloniska Herleiding hlaut ad hafa sijna 70 ara tijd. Tilkoma Messiæ epter þa Babilonisku Herleiding hafde og sinn Tijma, sem voru þær 70 Spamannlegu Vikur, ellegar 490 Ar. Dan. 9. v. 24. Æde og Agangur Antachristsins, i gegn Guds søfnude, hefur og so sijna vissa Tijd, sem Spadomur Danielis og Openbering Johannis kennir oss. og er þad einn stor Vijsdo-

domur ad kunna rett ad utleggia og uppgøtva þvilijka Tijd: so ad Johannes þar hann i Opinberingar bokarinnar 13 C. 18. v. talar umm tijma þess Anti Christiska Dijrs eda Rikis, seigir þar fyrir; Hier er Specke; hvør Skilning hefur, sa samanreikne Tølu Dirsins. og ad idka sig i þessu, er ecke bannad med þvi sem Christus segir til sinna Læresveina Giørnb. Post. 1. Cap. v. 7. Ydur ber ei ad vita Tijma edur Stundir; þvi þau Ord tala ecke utann umm þad, sem ecke er opinberad i Guds Orde, og heyrir ecke til Upbyggingar Christi Safnadar. þad var og einkanliga sagt Christi Postulum, hverier ed enn þa ecke skildu Christi Rijke, og meintu þad være eitt veralldligt Rijke. þad synir og undir eins, ad Gud hefur þo tilsett Tijd og Tijma.

So hafa og allar veralldligar Syslaner sijna rettu Tijd, hverre Tijd Gud gefur oss ad na og ødlast, nær vier einasta bidium hann idugliga þar um, og befølum Drottne vora veige. þviad þa vill hann gefa oss ad finna og na þeim retta Tijma, so sem hann giorde vid Eliaser þienara Abrahams, þa hann bad þar umm Gen. 24. 11. 12.

## Umm Teikninn.

Hvad vidvijkur þvi ødru, sem er Teikninn, þa

skal Madur vita, ad Himininn og øll Natturann, hefur sijn natturlig Teikn, og giora eckert an Teikna. þar fyrir tekur og Herran Christus, Matth. 16. og Luc. 12. Bevising af Himinsins Natturlegum Teiknum, og leitast vid ad leida Gidingana til þess sem er hærra og vigtugra, sem var ad giæta ad Teikne Messiæ. þviad so seigir hann, Matth. 16. 2. 3. A Kvølldinn segid þier þad verde godur Dagur, þviad Himinrode er og a Morgna segid þier, i Dag verdur Hreggvidre, þviad Himininn er raudur og dimmur. Þier Hræsnarar, Himinsins Asian kunne þier ad dæma, kunned þier þa ecke ad dæma Teikn þessara Tijma. þetta eru Drottins Ord, og e meiningin þesse. Ef þier gefid giætur ad Skickun og Teiknum Himinsins, og dæmid þar af umm gott Vedur og Ovedur; þvi gefid þier þa ecke miklu helldur giætur ad Teikne nalægra Tijma, og margvisligum Dasemdar verkum, og dæmid þar eptir ad Tijme Messiæ er nalægur og hia Luc. 54. segir hann; Hvonær þier siaid Sky uppganga, þa segid þeer jafnskiott ad Regn kome, og þad skier so og nær þier siaed Sunnan-Vind blasa, þa segid þier Hita verda, og þad Skier. þier Hræsnarar Asynd Himins og Jardar kunned þier ad prosa, en þvi prosid þier ei þennan Tiima. Þarfyrir, alyktar Herran so leidis: Lijka sem þier radid af Teiknum Himinsins og dæmid rett um Vedurattunna; so eigid þier miklu helldur, ad dæma af þeim Teknum og

og Undrunar-verkum, er þier siaid firir Augunum, ad Messias er nalægur. so lætur þa Christus þau natturligu Teikninn standa i sijnu gillde. Himininn gefur og so sijn onatturligu Teikn til Advørunar; þviad Gud er so nadugur og godur, ad hann straffar ecke hraparliga, helldur minnir Mannskepnuna a og varar hana vid fyrirfram med Teiknum, sem Madur sia kan i øllum storum Landplagum, hveriar ed sialdan koma utan þad gange a undan þeim furdanleg Teikn. þarfyrir ættu þau Teikn ecke ad vera foraktud, med Andvaraleyse og Athugaleyse, helldur merkt og alitinn sosem Fyrirbodan tilkomande Straffs; þo þarf einn Truande Christinn-Madur ecke ad skelfast fyrir þeim, so sem Drottinn kennir þar hann hia Jer. 10. 2. lætur segia þeim Truudu; þier skulud ecke hræddir vera fyrir Himinteiknunum. helldur skal hann vita ad honum er ohætt, og hann er øruggur undir Skiole hins Hærsta og under Skugga hins Almattuga. Psal. 91. 1. og ad hann i Christo og so stiornar ysir Naturunne. (e)

## Umm Framkvæmd Himinsins og Stiarnanna.

Hvad vidvijkur þvi þridia og sijdarsta, sem er



(e) les her um 58 Cap: 1. 2. B.

þad hvad Himininn og Stiornurnar framkvæma: þa er þar i ad hugleida nockurn part þær onatturligu; nockurn part þær rett natturligu framkvæmder.

Hvad ahrærer þær onatturligu, þa eru sumar settar Mannenum til straffs, um hveriar vier skulum vita, ad himininn og Stiornurnar eru ecke so vondar sem, Astrologi eda Stiornu-Spamennerner utmala þær, og ad þær af sialfum sier vallda þvi ecke, ad Mennernir fa skada: helldur er einsömul Syndin og Vondska Mannsins Orsökinn þar til, og velldur ad Gud verdur ad bua Skepnurnar ut til hefndar, og bruka þær til straffs a mote þeim ogudlegu og idrunarlausu. Þannig olle Illska Folksins fyrer Synda-Floded ad Himininn og Stiornurnar urdu ad stifta Fiorutyge daga Regn, og giora þvi eitt Synda-Flod til ad dreckia þeim Idranarlausu Gen. 7. v. 12. þannig orsakade ogso skammarligt Lijferne Sodomitanna og Gomoritanna, ad þad fiell yfir þa Brennesteins og Ellds Regn, og eidde þeim Gen. 19. 24. og i sama mata orsakast enn nu dagliga margar þesshattar Plagur, so sem onatturligur Hite og Kulde, onatturlig Bæta og Þerrir; onatturligar Skruggur, Hagl og Elldingar, siuknæmt Loft og forgiptugt, og

og annad þessþattar; Hvad allt first og fremst kemur af Syndinne og verdur sendt nidur af Himnenum Mønnum til Straffs. En allt þetta a eingann Skada ad giøra Guds Bernum, og þeim ed lifa i Guds Otta og Trunne; rett eins og þær Egyptsku Plagur giørdu eingann Skada Israels Børnum Exod. 8. v. 22. til hvilijks er bendt med þessum Ordum i þeim 121. Ps. v. 5. 6. Drottinn er þinn Skugge yfir þinne hægre Hende, so ad Solinn brenne þig ecke a Dagin; eigi helldur Tunglid a Nattarþelinu. Hver Ord ecke meiga so einfaldliga skiliast, lijka sem Meiningin være, ad Gud vilie alleinasta bevare sijn Børn fyrer Hita og Kullda Solar og Tungls; helldur eiga þau adskiliast um þær Plagur og onatturligar Skada-Verkaner, sem Gud giørir fyrir Stiørnurnar, so sem med sijnu Hrijse, og vitiar þar med Vondsku Veralldarennar. og eru hans Reide-skalir, sem hliota ad utausast yfir Mannana Illsku; eins og Reideskalernar i Openber. B. 16. 2. hverium ed var uthellt, yfir þad Antichristiska Dyr, og þa er þvi filgdu. Annars skulum vier kostgiæfeliga bidia mote hvilijku Straffe og Plagum, so sem þesse same Psalmur ossaminnir, og hefium uppvor Augu til Fiallanna, af hverium oss kemur Hialpinn, so vier getum umfluid slijkt fyrir Krapt þess Almattu-

 ga

ga; þviad soddan Straffe og Plagum verdur ecke afvendt utann med Jdran og Bæn.

Auk þvilijkra onatturligra Verkana Himinsinns Mønum til Straffs, eru og adrar onatturligar, hveriar ed sendast Mønnunum til huggunar og hialpar. þviad lijkasem Gud brukar Himininn og Stiørnurnar til hefndar og straffs þeim Ogudlegu, so brukar hann þær og optliga til ad frelsa og vernda þa Fromu og Gudhræddu, fyrir þeim ogudlegu. þarfyrir stendur Dom. B. 5. C. v. 20. ad af Himnenum hafe strijdt vered a mote Sissera; vier lesum einnig i Christindoms Søgunum, ad Vindur og Vedur hafe ad velle lagt Ovine Keysarans Theodosii hins Goda; umm hvørt Skalldid seigir.

O nimium dilecte Deo, cui militat Æther,
Et conjurati veniunt ad Classica Venti.

Elsku Guds þu a þier ber,
Edla Kappenn Frijde,
vill þui Svarenn Vinda her:
veria þig i Strijde.

Skal þetta so sagt vera umm þa onatturligu Framkvæmd Himinsins.

Enn

Enn umm þa natturlegu Verkan Himinsins skulumm vier merkia ad sa stirnde Himinn gefur ecke alleinasta þeirre storu Verolldu, helldur og so Mannsins lijfe sinn Avöxt, Kraft og Verkan dagliga og an aflats; lat ecke þa Heidnu-skrifara med sijnum Lærësveinum leida þig afvega, helldur vit, ad öll Meteora edur Lofft veisur, so sem hier eptir filgir, er Avöxtur og Verkann Stiarnanna.

First koma Skyinn af Verkan Stiarnanna hvar umm Salomon talar i Ordskvid. 3. v. 20. Fyrer hanns Visdóm eru Skyenn med Dögg driupande giord, og Syrach segir i 43. C. v. 16. Af krapte sijnum giorde hann Skyenn þyck. so þar hriitur Hagl af. Hann stadfeste Skyinn med sinne storu Dyrd, og hylur Himininn med þeim, sem þar stendur i Psalmenum 147. 8. og Job seigir 26. v. 9. Hann upphelldur sijnum Stol, og utbreidir sijn Sky þar yfir. þar fyrir seigir og Prophetinn Nahum 1. 3. ad undir hans (Drottins) Fotum sie þyckt Dupt.

Stundum Orsaka Stiörnurnar Þoku, sem gioreft fyrir verkan eins Stiornuklasa, og dregst uppaf Jordenne. Nærd Drottinn slær Reidar-þrumurnar seigir Propheten Jeremias 10. 3. þa er Vatnsins nögleg Nægd under Himnenum, og dreg-gur upp Þokuna ifra enda Jardarennar. þar med lægex Gud hafadann hinna annarlegu og vesur Hafid i Þokunne so sem i ödrum Reisum, so sem hañ seigir i Es. Spad B

25. 5. og Jobs B. 38. 9. Aptur gefa þær og Snio af sier. Drottinn mælir til Snioarins, þa kemur hann jafnsnart a Jordena og Psal. 148. 8. Elldur Hagl, Smior og Ude, Stormvindar framkvæma hans Ord. Stundum gefa þær af sier Kulda og Frost, hvarum Elihu talar i Jobs B. 37. v. 9. 10. Af Sudrenu kemur Vedur, og af Nordrenu Kuldinu, og ut af Guds Andardrætte kemur Frostid. Stundum koma þær framm med Jis og Hrimfrost þar spir drottenn Job þannig i Job. 38, v. 29. Af hvers Kvide er Jsinn utgeinginn? og hver fædde Hrimfrostid undir Himnenum? þar til verdur svarad i Psalm. 147. v. 16. 17. Drottinn gefur Snioinn sem Ull, hann dreyfir Hrimfrostenu sem øsku: Hann fleigir siinum Js sem Munnbitum. yfir þessu furdar sig og eirnenn Syrach i 43. C. v. 22. og segir Drottin dreifir Hielunne a Jordena so sem Sallte, og þegar frys, so verda Jsdinglar, so sem hvasser Stafsoddar, og þegar kalldur Nordan-vindur blæs, so verdur Vatnid ad Jse; hvar Vatn er, þar blæs hann yfir, og færir Vatnid so sem i eing Harneskiu.

Þessamillum framm þreingia Stiørnurnar og so Hagle og Snio þar fyrer stendur so i Jobs Bokar 28. v. 22. 23. Hefur þu þar verid, hvadan ad Snioriun kemur, eda hefur þu sied hvadan Haglid kemur? hveriu ad eg innehelld til Hørmungar tijmans, og til þess Dags Stridsens og Bardagans. Med hverium Ordum vier verdum aminnter, ad Gud tilbyr og ut-

utbyr og ſo Hagled til hefndar yfir ſina Ovine, eins og hann giørde mote þeim Egyptſku i Mo- ſes tiid Exod. 9. v. 24. og mot Amoritunum a dogum Joſuæ Joſ. 10. v. 21. hvad hann eg hotar Gog og Magog hia Prophetanum Ezechiel 38. v. 22. Eg vil, ſeigir hann, lata rigna Hreggvidre med Hægle, þarfyrir ſkendur og i Spekinnar B. 16. 24. Skepnann ſu ſem þier þionar, ſem ſiinum Skapara, er reidubuinn ad plaga þa Ranglatu, og hun, þvert i mot, mykteſt til ad giøra þeim Gott ſem treyſta uppa þig og eñ aptur Cap. 5. v. 51. Heimurinn mun draga ut med honum (Drottne) til ſtrids a mote þeim faviſu. Reidarſlag munu hæfa undir eins, og falla af Skyunum til Mals, ſo ſem af ødrum Hardſpentum Boga og þungt Hagl mun falla ut af Reide Reidar-þrumunnar. Þær framm hleyppa og a ſiinum Tijma, Ellds Loga og Bruna; Skruggum, Leyptran og Reidarþrumum. i Jobs B. 38. v. 34. 35. ſeigir Drottinn. kanntu þinar Reidar-þrum- ur ad flytia hatt upp i Skyinn? kanntu ad lata þær Ell- dingarnar ut; ſo ad þær utfare og ſeige, hier erum vær? J þeim 97. Pſ. v. 34. ſtendur Elldurinn utgeingur fyrir honum, og brenner allt umkring hans Ovine. Hans Elldingar leiptra a Jardarkringlunne, ſo þad Jordinn ſier þad og ſkelfiſt vid. Biørginn bradna nidur ſem annad Vax fyrir Drottne, fyrir Drottnaranum alls Jardrikis. Sy- rach ſeigir ogſo 43. v. 4. 5. Solin giørir heitara enn margir Ofnar og brenner Fiøllinn, og blæs fra ſier einum ſaman Hitannum. J hverium Ordum Solinn

verdur utmalud sem Elldur, er full þroska giorir og sydur alla hlute. hvar ætte Madur annars ad fa þvilijkan Elld sem kynne ad verma Heiminn, og giora alla hlute fullvaxna og full þroska?

A einum ødrum Tijma framsenda þær Neignid, an hvers Jordinn kann ecke ad grænkast og þad skedur fyrir Guds sierdeilislega tilhlutan og skipun. þessvegna seigir Mo es Deut. 28. v. 12. Drottinn mun uppliuka sijnum goda Fesiod, Himnenum, ad gefa þinu Lande Regn a sijnum Tijma. J hverium Ordum vier heyrum ad Gud alleina hefur Likilinn til þessa Fiargeimsluhussins; hann er sa, hvered gefur Regn a Jordena Ps. 147. 8. nær hann vill, og nær vier med vorre Bæn utvegum Regn af honum. Hann alleina hefur talid Regndropana i sundur. Jeremias seigir og þar fyrir, 14. v. 22. þar eru þo þa þeir øngvir Afgudir a medal Heidingianna, sem Doggena kunna ad gefa, so kann og Himinenn ei helldur ad rigna. þu ert þo sa Drottinn vor Gud, a hvern vier vonum, þviad þu kannt allt þetta ad giora. Med hans Visdome eru Underdiun inn sundurgreind, og Skyinn med døgg driupande giord. stendur þar i Ordskv. 3. 20. og i Jobs B. 38. v. 28. verdur spurt: Hver er Daggarennar Fader? hver hefur fædt Dropa Daggarennar, utan Gud sa allrahæste? þvi ad af honum fær Himininn og Stiernurnar

allan

allan Krapt þar til. Ef bier gaugid a mijnum Setningum, seigir Drottinn 3 B. Mos. 26. 4. 4. þa vil eg gefa ydur Regn a sijnum tijma, Jordinn skal og gefa sinn Groda, og Trien a Jordunne skulu bera sinn Avoxt. Item Malachiæ 3. 10. Bered þa alla Tiund i mitt Kornhus, ad þar sie Matur i minu Huse, og reynid mig þar inne, seigir sa Drottinn Zebaoth, hvert eg mun ecke uppliuka Vindaugum Himinsins fyrir ydur, og uthella yfirgnæfanligre Blessan. þar fyrir seigir og Jeremias 5. C. 24. Latum oss ottast Drottinn Gud vorn sem oss gefur Morgundoggena, og Kvollbreguidi Rettaun tijma, og vardveitir vora Haustyrkiu truliga arlega ars. Auk þessa verkast og tilbyst Regnboginn fyrir Stiornurnar, eptir Guds sierdeilisligre Skikkun og verdur Regnboginn, nær Solinn a einn Vissann og sierdeilislegann mata, stendur þvert yfir fra þvi Skye, sem er fullt af Dropum. So prydir og Regnboginn Himininn yfrid vel / og skyn nærsta ununarsamlega i gegnum Skyenn, so ad Lijking Regnbogans brukast þarfyrir i Guds yfirnatturligum Opinnberunum, so sem i Opinb. B. 4. 3. hvar ed sast einn Regnboge kringum Guds Stol lijka Alits sem Smaragdus. þvilijkur Regnbogans indislegleike a ad minna oss a Guds Ununarseme, hver ed hann hefur giort. Jeg seigir, Drottinn, hefe sett minn Boga i Skyunum Gen. 9. v. 13. og Syrach seigir i þenn 43. Cap. v. 12. Skoda þu Regnbogann

og 'ofa bann sem hann hefur giort. Regnboginn er og eitt Nadarteikn, og Vitnisburdur Guds um hans Nad, ja eitt Innsigle og Vissa uppa Guds Sattmala, sem er stiptadur mille Mannanna og allra lifande Dyra. So verka og framsenda einnig Stiørnur Himinsins Nattdøggena, sem endurlifgar Grasid og Svalar Hitanum; eru og orsøk ad Roser og annar Avøxtur blomgast, eptir þvi sem Gud gefur Krapt þar til; þviad þegar Drottinn er stiggdur, hlytur døggena optliga ad vanta. hia Hagg. 1. 9. 10. seigir Drottinn af þui ad mitt Hus stendur so i eide, og hver flytir sier med sitt Hus; þar fyrir innehelldur Himininn Døggenne og Jørdenn sijnum Groda, þa verdur optliga i stadinn fyrir þa godu Nattdøgg, ad koma skadsom døgg og øskufall sem er eitt stort Straff Item þurkur og Hite. Eg plagade ydur med Þurk, Kornbruna og Hagle i øllu ydar Erfvide, segir Drottinn. Hagg. 2. v. 18. Og Moses mæler so Deut. 28. v. 23. 24. i Nafne Drottins til þeirra Oblidnu Gydinga. Þinn Himinn sem uppyfir þinu Høfde er, skal vera sem Kopar, og Jørdinn undir þier sem Jarn. Drottinn mun gefa, þijnu Lande Rik og øsku fyrir Regn af Himne uppa þig, þangad til ad þu verdur eydelagdur Framveigis þa vercka Stiørnur Himinsins Vind og Vedur, eptir þvi sem Gud gefur þeim krapt þar til. Þar hann giørde Vindenum sinn Viktarþunga, og sette Vatninu sinn vissann mæler so sem þar sten-

stendur i Jobs Bokar 28. v. 25. og i Ps. 135. ad Drottinn lætur Vindinn koma ur leyndum stødum, eda sem þad hliodar i Hofudsprokenu ur hans Dyrgripa-huse, ellegar Fesiod: þvilijkt Dyrgripahus, eda rettara Vedrahus, hefur Gud sett a øllum fiorum hornum Jardarennar. þar fyrir verdur talad i imisligum stødum Ritningarennar um fiora Vinda Veralldarinnar, so so sem hia Matth. 24. 31. Herran mun utsenda sijna Engla, og hans utvølldum munu þeir samansafna af fiorum Vindum. og þessum somu fiorum Vindum verdur samlijkt vid fiora Vagna Zachar. 6. i Opinber: Bokenne 7 C. 1. greinir, sem med einni Figuru og Fyrirmindan, ad Johannes sa fiora Engla standa a fiorum Hornum Jardarennar, og þeir hielldu inne fiorum Vindum Jardarennar, so ad eingins vindur blies a Jørdena, nie a Sioinn, nie a nockurt Tre: hvert ed tekid er ur þeim sama Stad, og brukad sem ein Figura i þeim Prophetalega Spadome.

Ut ur þessum fiorum Vedrahusum, koma þeir fernslags Hofud-Vindar, ellegar hinir hellstu Vindar, Austann-Vindurinn, Sunnann-Vindurinn, Vestann-Vindurinn, og Nordann-Vindurinn, fra Austrenu, og Uppgaungu stad Solarinnar kemur Austann-Vindurinn eda Austann-Vedrid; umm hvert þar sten-

stendur hia Oseam 13. 15. þar skal koma einn Austann-Vindur. Drottinn skal uppstiga af Eidemørkenne, og uppþurka þeirra Brunna, og uppþurka þeirra Uppsprettur. Þad var og Austan-Vedur, med hverin Gud giørde botninn a þvi Rauda-Hafe þurrann Exod. 14. v. 21. Sunnan-Vedrid, ellegar Sunnan-Vindurinn kemur fra Sudur-Halfu Veralldarinnar, og er varmt og vessa fullt. Þin klæde eru þa vørm, nær ed Landid er kirt af Sunnan-Vedrenu, stendur þar i Jobs B. 37. 18. Nær þier siaid Sunnan-Vind blasa, þa seiged þier Hita verda, og þad skier seiger vor Herra hia Luc. 12. 55. Vestann-Vedred eda Vestann-Vindurenn kemur fra Vestur-Halfu Heimsens, og Nidurgaungustad Solarennar, og er kalldur og votur. Um þetta Vedur eda Vind, verdur talad i annare Bok Mos. 10. v. 19. ad þad tok burt Einge spretturnar ur Egyptalande: þa snere Drotten Vindenum seigir Moses til eins Sterks Vestann-Vindar; hann upptok Eingespretturnar, og kastade þeim i þad Rauda-Haf. Nordann-Vindurenn, eda Nordan-Vedred kemur fra Nordur-Halfu Heimsens, og er kallt og þurt, so Syrach 43. Cap. seiger þarfyrer; Þegar kalldur Nordann-Vindur Blæs, so verdur Vatned ad Js. Þesse fiegur Vedur koma ut af sijnum Vedur-Hijbylum, eins og Gud skipar þad: hann he-

fur

fur sett Stiornurnar, til ad vera hans Fiar sioda-Meistara yfer Vedur-Husunum, ad þær sleppe Vindunum þadann ut, ecke af sinne Magt og Mindugleika, helldur epter Guds Befalning; og eins giora þæri ollum odrum Efnum, sem þeim eru tiltruud.

Þesser eru nu Aberter Himensins og Stiarnanna, hverium Gud utheller af sijnum Fiarsiodum a sijnum tijma, og þeirra kunna þeir jard nesku hluterner og Elementenn, olldunges ecke an ad vera, þar fyrer hefur sa trufaste Skapare þad so tilsett, og skipad, ad þeir jardnesku hluterner, skulu fa sijna krapta og Verkaner af þeim himnesku. Oll Natturann er samfost vid sialfa sig eins og i hleckium og kediu, sem er su gyllene Kedia og Feste Natturunnar og þeirrar guddomligu Forsionar, umm hveria Drottenn talar sia Os. 2. Eg vil bænheira Himenenn og Himeninn skal bænheira Jordena, og Jordenn skal bænheira Korned, Vyned og Vidsmiored, og þau skulu bænheira Israel. J hvorium Ordum, Gud talar umm alla þa vissu Nidurradan, og Asigkomulag Natturunnar, og byriar first ad ofanverdu a þeirre firstu verkande orsok: Jeg: seiger hann, vil bænheira Himenenn: þad er: þegar þar er ein þung þerri tijd, og Himininn brenner af hita og Stiornurnar hafa ecke syna Verkan, so

þær gete gefed avaxtarsamar tijder, þa vil eg bænheira Himmenenn og hylia hann med sky-um, og lata Stiornurnar fullkomna þeirra natturlega Verkan og framkvæmd. enn frammar seiger Drotten, og Himmenni skal bænheira Jordena: þad ersu onnur Trappa Natturunnar þviad þeir nedre kraptar Jardarennar eru aller samanteingslader vid krapta þess hafa Himens. Nær Himenenn fær hindrun i sinne verkan og er omilldur, þa kann ecke neitt advaxa a Jordenne; þa hropar Jordenn i þvilijkre þreingingu til Himensens, þegar hun i miklum Þurk og Bruna upplætur sinn Munn, brestur i sundur, og þyrstir epter Regne. Enn þa framar seiger Drotten; Jordenn skal bænheira Korned Vyned og Vidsmiored; þader; Grodi Jardarennar verdur ad siuga til syn af Jordunne sinn Kraft og Vokva, sem giorer hann grænann; Enn þegar Jordenn erfyrer utann allann Vokva, og raka; þa hlytur og so grodi Jardarennar hans ad þarfnast; hvar fyrrer grodenn med sinne Þorfnun, so sem hropar til Jardarennar, eins og til sinnar Modur, fra hvorre hann er komen, motlijka og þegar Barned er þyrst og kvartar um þad fyrer Modurenne.

Alt-

# Annar partur þeſſa Capitula

## Um Solena og Tungled ſier i lage, ſem og adſkilianlegir Lærdomar, bædi af Solenne, Tunglenu, og Stiornunum.

Auk þeſſ er i Upphafe þeſſa Capitula, hier og þar hefur vered talad, um Sol og Tungl, medal hinna annara Stiarnanna, viliumvier eirnig hier nockud tala um Solena og Tunglid, ut af fyrer ſig, ſo og ſijna nockra Lærdoma, og Aminningar, ſem Madur kann ad taka af Sol, Tungle, og Stiornum.

Fullkomlega ad gieta ranſakad Natturu Solarennar, Tunglſens, og annra Stiarna, yfergeingur, ſo ſem adur hefur vered ſagt, vor efne og krapt; ſo Drottenn ſeiger þeſſvegna vid Job. 38. Hvar er ſa Vegurenn, ſem Liosed bigger? og mikļu framar yfergeingur þad vorn Matt, ad hialpa nockud til þeſſ, ad þad hafe ſoddann krapt: Gud alleina verdur ad giora þad og ſkipa þvi, ſem hann eirnig giorer; þar fyrer ſtendur þar i Pſal. 104. Þu Drottenn giorer Tungled, Arenn þar epter adſkipta; Solenn hun veit ſijna Nidurgaungu, þu giorer myrkt, ſo ad Nottenn verdur. M[illegible]eſkiann getur ecke giort eitt grænt Stra, mællu ſydur Lios

Lios og Myrkur, og, annad hvilijkt. so eigum vier þessvegna, aller ad vegsama Gud, audmykia oss under hans Almætte, og prysa hann i hanns Giørningum, og þarfyrer seiger eiñig Moses um þad fiorda dags Skøpunarverk. Og Gud sagde, verde Lios a Festingu Himensens, so þau skilie Dagen fra Nottunne, og gefe Teikn Tijma Daga og Ar: og lyse a Festingar-Himmenum; so þau upplyse Jordena, og þad skede so, og Gud giørde tvø stor Lios; þad stærre Liosed, ad stiorna Deigenum, og þad minna Liosed ad stiorna Nottenne Gen. 14. v. 14. 15. 16.

Annars vilium vier hier first tala um Tungled; þar næst um Solena, og ad sydustu, framfæra nockra Lærdoma og Aminningar um Sol, Tungl, og Stiørnur.

Hvad Tunglenu vidvykur, þa meiga Menn storliga furda sig yfer þess Liose, ad þad vex, og minkar, og helldur þar vid, um vissann Tijma, i hvørt sinn, og nær þad er lyka sem utsloked, þa kveikest þad aptur, og vex æ meir og meir, og verdur so sem annar Avoxtur, jafnann stærre, hvad sa gode Gud hefur þannig tilskickad, og viliad vera lata, til þess, ad Menn kinne adskipta Arenu, epter Tunglsins Skine, og i vissann mata, giøra Adgreining Tymanna, so ad Høndlun Manna, og Utrettingar mættu ske, og framkvæmast, ordulega og skickanlega; þad er, þad sem um verdur talad,

Þs.

Pſ. 104. 19. Þu giorer Tungled Areım bar epter ad ſkipta; Þviad, være ecke Umſkipting Tunglſens til, og adgreinder Manuder og Dagar, þa giæ- te eingen god Skickun og Orda vered i Guds Kyr- kiu og Sefnude, ellegar i veralldlegre Stior- nan, Rettargange, og Buſkapar ſtande, og hverſu hrædelegt Myrkur, Oſkick, Oorda og Trubl, munde þa ecke i ollum Stiettum. Þad allra vyſaſta og forſialaſta (Verk) i ollum ſtiet- tum er næſt Guds Otta ad hallda gott ſkick og Framferde og adrata þa rettu Tijd: gete eirn Jfermadur og Stiornari, ſo og eirn Husfader giort þad, þa eru þeir þar i luckuleger, og eiga þad Hros med rettu, ad þeir eru i þvi Forſialer og Sniduger; þviad þad er alltſamann komed under Tijdenne. Hvad ſem ſkedur i Otijma, þad fordiarfaſt, og verdur til einckis gagns, þvi- ad Gud hefur nidurſett alla Hlute med Tijma, Mata, og Vigt, og ſierhvor rett Tijd hefur ſij- na Bleſſan, og luckulegann frammgang med ſier. Aller hluter hafa ſiina Tijma og allt A- form under Himnenum, þad hefur ſijna Stund, ſeiger predikare Salomonis 3. v. 1. Vel ſie þeim ſem haft getur Tijd og Tijma; og umm þad eiga Menn ad bidia Gud, og akalla hann. So ſiaum vier þa Guds Vijsdom hier i, ad hann, epter Umbreiting og viſſu Hlaupe Tungl-

 ſens,

sens, hefur hagkvæmelega sundurskipt Tijmanum, til þess, ad a Jordenne meige vera gott Framferde og skickun.

So verdur og Ummbreiting Tunglsens, ad þiena til þess, ad þar meige vera Ummbreiting og Ummskipte a Jordunne, og ad sier hvør Tijd kunne ad færa sinn sierdeileslegann Avoxt, Nytsemd og Gagn, manneskiune til Goda; þviad Madur hefur oftast nær nockud nytt i hverium Manudi allt Aredi i gegnum. Eirn Manudur færer þetta med sier, annar hitt. Jafndægra-Manudurenn, framfærer eina sierliga Guds Gafu; Fardaga Manudurenn adra; Nattleisu-Manudurenn adra; Madka Manudurenn adra, Heyanna-manudurenn adra, Addratta Manudurenn adra, Hver Manudur hefur sinn eigenn Groda og Avext, siinar Jurter sijn eigenn Alldinne, sijna eigenn Fiska, sijna eigenn Fugla, sijna eigenn Vedurattu, og sinn eigenn Vind, og so framveiges. Þetta og annad meira, sem Tungled verkar og afrekar / ber ossso forundrunarlegann Vitnesburd, um þa Vysdomsfullu Skickun og Skipun Guds, sem hann þar med helldur, ad Madur fær þad ecke nogsamlega utsied, nie grundad.

Hvad Solenne vidviikur umm hvøria þar og

og ſo ſtendur, i Pſal. 104. v. 19. Solenn hun veit ſijna Nidurgaungu: þa er ad hugleida, firſt Gang og Hlaup Solarennar: fyrer þau verdur Dagur og Nott, þar af kemur þad, ad Dagar og Nætur leingiaſt, eda ſtittaſt, ſo og orſakaſt þar af, Fiorar Arſens Tijder, Vor, Sumar, Hauſt, og Vetur; hvad alltſamann kemur Mannenum til Gagns og Goda. Eirnig ber ad merkia, viſſu Solar-Hlaupſens, yfer hvo-riu og Heidingiar hafa ſig forundrad, og raded þar af, og ſkiniad, ad þar mætti vera eirn Gud til, ſem være eitt eilyft Sinne, og Ande ful-lur af Vysdome, og hefde tilſett og ſkickad þet-ta Hlaup Solarennar; þviad Solennn hell-dur eitt olldunges vijſt Hlaup, og geingur ecke yfer þad Takmark, ſem Gud hefur henne fy-rerſett, geingur, hvorke hærra nie lægra, he-fur ſinn viſſann veg a Himnenum, ſem menn kalla Solar-Veg, og Formirkvunar Lijnu; A þeſſare Lijnu blyfur hun, og vykur ecke utann fyrer hana, hun geingur og ei leingra Sudur a, enn tilhins fyrſta Punctz Steingeitarennar, ſem er a Himnenum, hver ed giorer Ha-Ve-turenn, og þa leingſtu Nott; Snyr ſier ſo þar fra aftur, og a Nordurbogenn, og kemſt ecke leingra til Nordurs, enn ad fyrſta Punctc Krabbans; ſem giorer Ha-Sumared, og leing-

stann Dag; sydann snijr hun aftur til baka: og helldur soddann Stødugleika og vissu i þessum gange, ad þad fer ecke feil um eina Minutu þar i; og þa hun hefur geinged i gegnum þau Tolf Himenteikn, þa er Solar Ared fullkomnad; eins og Tunglared erfullkomed, nær Tungled hefur hlauped Tolfsinnum i gegnum Himenteiknenn.

Og þetta er nu su vissa, þessarlega Hlaups Solarennar, og þad med hvøriu hun oller keingd Daga og natta, og þeim fiorum arsens Tijdum. Somu vissu helldur hun i sijnu hversdaglegu Hlaupe, og hleipur hun hvern Dag a 24 stundum i gegnum allann Himenenn fra Austre til Vesturs og aftur fra Vestre til Austurs.

Eirnig er ad merkia Hvatleika og Hradfør Solarhlaupsens, sem er so stor hvatleike, ad hann er nærsta furdanlegur, og ekert þess slags er ad sia a Jordunne; þviad a hvøriun 24 Stundum hleypur hun allann Himenenn i gegnum; þad er þriu hundrud og sextiu Gradur eda Troppur, af hvøriumsierhvør ein innehelldur epter Reikninge Stiørnumeistaranna, i minsta koste, hierum seytian þusund, og tvøhundrud Þyskar Mijlur; þar fyrer hleipur Solenn a hverre Stundu i minsta lage hierum tvø-

tvohundrud ſimtie og atta (a) þuſund Þyſkar Mijlur; hvert ed er ſoddann hradfør, ſem Madur ei fær ſkiled umm ſo ſtorann Lijkama ſem Solenn er, og hlytur ad medkenna, ad þad yfergeingur Vit og ſkilning daudlegrar Manneſkiu.

So verdur og ad giæta ad Stærd Solarennar: þviad, Madur ſkal ei ætla, ad þeir himneſku Lykamer, ſo ſem Solenn, Tungled, og adrar Stiornur, ſieu ecke ſtærre en þeir ſynaſt oſſ, þviad þeir eru ſo ſem adur hefur ſagt vered i Tveimur Cap. langtum ſtærre, og Solenn meir, enn hundradſinnum ſtærre, hvad og adur er ſagt, og Stiornumeiſtarar, bevyſa ſatt ad vera, med obilande Rokum. Þviad þad er einaſta orſok til, ad Solenn ſyneſt oſſ ſo lytel, ad hun er ſo yfred langt fra oſſ, hvad vier og annars ſiaum, ad þeſſleingra ſem eirn hlutur er i burtu fra oſſ, þeſſ minne þiker oſſ hann vera.

Þetta og annad meira merkelegt, ſem finſt, vidvykiande Solenne, hefur og ſo nærſta miog unned a Heidingiana, med Forundran; og marger af þeim hafa, ſaker þeirra Hiartans-blindne ratad i þa þanka ſem þeim hafa ſteipt i Afguda dyrkan, og giert umſijder Solena ad Af-

(a) 238000 þyſkar Mylur giora ſimmtiu og eitt þuſund og ſex hundrud Þyngmannaleider.

Afgude, og tilbeded hana. Um eirn Judverskann Kong verdur lesed, ad þá hann heirde Evangelium predikad um vorn Herra Christum, og ad þess var geted, ad Christur hefde daed fyrer vorar Synder, og Madur skyllde þar fyrer trua a hann, og reida sig uppa hann; hafe hann; saker natturlegs Myrkurs siins Skilnings, Blindleika og Villu, þar til svarad: a eg ad trua a þann sem er daudur? Eg true helldur a Solena, sem alldrei hefur daed, hver Villa og Blindne syner oss, ad jafnvel Heidingiarner i þeirra Myrkre, hafa af Natturu-Vitenu getad virdt fyrer sier, ad Solenn være ur mata fur-danleg; þeirra Villu og Blindne vilium vier ecke fylgia; vier lytum ecke til Solarennar, sem eins Afguds, so sem bannad er Deut. 4. v. 19. hvar edstendur, So vardveited nu ydar Saler vel, ad þu ecke upplyfter þinum Augum i mot Himnenum, og alyter ecke Solena og Tungled, og Stiornurn r, þann allann Her Himensens, ad þu faller fra mier, og tilbidier þau, og þioner þeim, hver Gud þinn hefur gefed ollu Folke; under ollum Himnenum. Þad er, skapad þau, þvi til þienustu. helldur skulum vier lyta til Solarennar, sem eins verks, og Giornings Guds, hvori hann hefur skapad og giort, til þess ad hun, skule vera hin dægelegasta, af ollum synelegum Stiornum Himensens, og med siinu

Hlau-

Hlaupe, og Krapte stiorna ollum jardneskum hlutum; hviad allar Skepnur eru Speigell Guds i hvorium vier eigum ad læra, ad þeckia þeirra Skapara, og þessvegna seiger Syrach 43. v. 5. sier i lage um Solena. þad hlytur ad vera eirn mikell Herra, sem hana hefur giort, og henne hefur skipad so hart ad hlaupa.

Annars høfum vier seinast i þessum Capitula, ad merkia epterfilgiande Lærdoma og Aminningar um Solena, Tungl og Stiørnur.

Fyrst eigum vier hier ut af ad hugleida Guds Almætti og Vysdom. hvørsu vysslega og dægelega hefur Gud þad til sett, ad hann hefur giort Solena til ad pryda og uppliòma Dagenn, og Tungled til ad upplioma Nottena; sømuleides prydt Himenenn, med so mørgum Stiørnum: hviad liosed er hin hædsta Pryde og Fegurd a øllum hlutum. vier daunst ad þvi, nær eirn bigger norkurstadur eitt fallegt Hus, og pryder þad med Myndum, Malverke og dægelegum Farva, þa skilldum vier miklu framar dast ad þeirre volldugu Bigging Himensens, hvør ed er prydd med so storum dægelegum og mergum Liosum, og a hvørium so margar Stiernur, skina, og lioma, hvøriar ed Gud telur, og nefner þær allar med Nofnum. Vor Drottenn er mikell,

kell, og hann hefur miken Krapt, og er ogrynnanlegt hvornig hann stiornar Psal. 147. v. 4. 5.

Fyrst vier nu þetta vitum, þa skulum vier lofa Guds Almætte og Vysdom i ollum hlutum, jafnvel þott hann skipe oss ad giora og trua, þad sem vier ecke faum skiled; ia, þad sem oss syneft ad vera Heimska, so eigum vier þo ad trua þvi, og giora þad Eph. 3. v. 20. þviad Gud er almattugur og kann alla hlute yfergnæfanligar ad giora, helldur enn vier bidium, eda skilium, og Guds Favitska er Monnum Hignare, og Guds Veikleike er Monnum Styrkvare. 1. Cor. 1. v. 25.

Þar næst kienner Solenn og Tungled oss, samt hinar adrar Stiornurnar, med sijnu vissa Hlaupe, ad hugleida Guds Sannleika, og Trufesti i hans Lofunum, þviad eins og Gud hellдur þad vissulega og stoduglega, sem hann i fyrstu Skopun hefur sagt, um Sol, Tungl, og Stiornur; so mun hann a sama hatt stoduglega og trufastlega hallda allt annad, sem hann hefur sagt. so sem vier og siaum, ad hann hefur giort i odrum hlutum, og fullkomnad hid nakvæmlegasta, þad sagt hefur vered: so sem þad: ad hann hefur sendt Messiam i Heimenn, epter þvi sem sagt og lofad var; hann hefur umbreitt og eidelagt imisleg Ryke og Einvallds Herradæme, semuleides a margvysligann hatt frelsad

sad sijna Christne, fra voda og fare, þar fyrer seiger hann og so hia Spamannenum Jeremiam. Nær ed minn Sattmale tekur ad brotna vid Dag og Nott, so ad þar verde ei Dagur og Nott a sijnum Tijma, Einnslyka so, þa skal minn Sattmale þ. rota vid minn Þienu David; sem hann villde seigia: So sannarlega sem þar er til, Sol, Tungl, og Stiornur, so og eirnenn Dagur og Nott skulu og blyfa, allt til Enda Veralldarennar; so sannarlega skal eg hallda þad sem eg hefe lofad David, þad er Messiæ, og ollum þeim semtrua a hann.

Auk þessa a Solenn, Tungled / og Stiornurnar, þegar þau formirkvast, ad vera oss eirn Guds Reide-speigell, flyta oss til Ydranar og Yferbotar, og minna oss a Synder Manneskiurnar og þeirra Straff, sierdeiles Daudann, samt þann Effta-dom, og adrar þvilykar Umbreitingar i Verolldenne, sem hliota ad koma saker Syndarennar: ad sonnu hafa Formirkvanernar sijnar natturlegar orsaker, so ad marger Kyrkiunnar Lærefedur, meina og þar fyrer med Rettu. ad þær Formirkvaner umm hvoriar talad verdur i Heilagre Ritningu, ad ske skule fyrer þann Effta Dag og vera Teikn til hans, sieu ecke þess hattar natturligar Formirkvaner, sem ske arlega, helldur yfernatturlegar, eins og su formirkvan var, sem skede, þa Christur

stur deide a Krossenum; Luc. 23. v. 45. og so sem Egyptalands Myrkur var, hvørt ed varadi i þria Daga, Exod. 10. v. 22. og er þad ecke neitt olijklegt, þo ad soddann yfernatturlegar Formirkvaner, eige adskie skommu fyrer Veralldarenar Enda og Eidelegging, og vera so miklar, ad Sol og Tungl verde um nockurn varannlegann tijma, og ad ollu leite dimm, ja, ad Stiørnurnar falle af Himnenum, epter þvi sem ordenn eirnenn hlioda sumstadar i skriftenne.

Eige adsydur getur Madur og þarfyrer ecke þvi neijtad; ad jafnvel og so þær natturlegu og arlegu Formyrkvaner, kunne almenelega ad þyda Syndena, og Guds Reide, yfer henne i Daudanum, med þeim effta dome, og lyka þar fyrer utann, þviad þad eina hindrar ecke þad annad, og menn sia og so þar fyrer utann, ad eirn hlutur hefur natturlegar ordsaker, og merker þo ei ad sydur, onatturlega hlute; so sem Regnbogenn a Himnenum, þirnar og þislar a Jordunne, Sott Kvinnunnar i hennar Barnsfædingu og annad þvilijkt, sem eru natturleger hluter, og merkia þo under eins, annad hvert Guds Nadarfyrerheit, eda og Mannsens Synd, med þvi Straffe sem henne a epterfilger.

So eru og allar Formirkvaner a mote Natturu, og edle þeirra Himnesku Liosanna, þvi ad

ad þau eru giord til þeſſ, ad upplyſa Jordena, ſo ſem utvijſad verdur i Skop. B. 1. v. 15. þar fyrer ef ſoddann hindraſt, og þau geta ecke lyſt, þad er þvert a mote þvilykre þeirra Natturu, ſo ad Heidingiarner hafa þarfyrer kallad þad Mein, Breſt og Vanmatt Solarennar, enn Strijd og Erfidesmuner Tunglſens, og nær Solenn kann ecke ad ſkyna, þa finna og margar af hinnm ødrum Stiørnunum til þeſſ, ſo lijda og allar þær Skepnur, ſem hafa ſinn krapt af Solenne ſkada af þvi.

Adſyduſtu er og hier ad auke Myrkred i Skriftenne, J mind Syndarennar, Guds Hefndar og Reide, og er þad optlega brukad til þeſſ, ad þad ſkule þijda, og utmala þvilykt; þar fyrer er þad ecke ſavyſlegt, þott þad Myrkur, ſem ſinſt ad vera, i þeim natturlegu Formyrkvunum Solarennar, og annara Stiarna, ſie og þar fyrer, med øllum rette, alited med ſlykre Yfervegan, helſt vegna þeſſ, ad ſlykt Myrkur er næſta hentugt til ad þyda ſoddann. Þarfyrer blyſur ſu Meining føſt, ad Madur rettelega verdur amintur um ſlykt, fyrer Formirkvaner Solarennar, Tunglſens, og annara Stiarna, hvert ſem þær eru natturlegar eda onatturlegar, og ſoddann Formyrkvaner meiga alytaſt, ſem eirn Speigell og Eptermind

uppa þetta. Þarfyrer, nær Madur sier eina Formyrkvan, þa skal hann þeinckia med sier, ad þad er ein Hindrun, sem velldur þvi, ad Himenliosenn gieta ecke haft i framme sijna natturlegu Krapta og Verkaner, hvert ed er i moti þeirra Natturu, og kunngiører og utvijsar oss Vondsku Mannanna a Jørdenne, þannig hlytur Himenenn ad openbera Misgiørninga hins ogudlega og Jørdenn uppsetia Job. 20. v. 27. sig i mote hønum, so sem zophar ad orde kemst. og nær Vondskann og Ogudleikenn er ur mata stor, hliota þar optlega ad ske, þessvegna yfernatturlegar Formyrkvaner, so sem þa Guds Folk var hardlega plagad i Egyptalande, item, þa Christur var krossfestur i Jerusalem, hvar efter ad kom su stora onatturlega Formyrkvun, umm hvoria talad verdur i Evangelio: og kunngiørde allre Verolldenne Christi Guds Sonar Dauda, og þa storu Vondsku sem i gegn hønum var framenn. Himenliosenn, og þo allra hellst Sol og Tungl, eru so sem Speigell Verolldarennar, i hvørium Madur kann optsinnes, ad sia Mannsens Synd og Vondsku, sem stijgur upp til Himensens, eins og Hroped i Sodoma, hvert ed kom uppfyrer Drottenn. Gen. 18. v. 20. Øll su Formyrkvan, sem a þeim skedur, er eitt Teikn til þess innvortis Vantruar Myrkurs

kurs i Mannanna Hiortum, ſem Himenenn gefur oſſ til vitundar, lyka, ſem hann villde ſeigia vid oſſ. Þier Manneſkiur, þannig erud þier ſo myrkver i ydrum Hiortum.

Þar næſt a og þvilijk Formyrkvun ad minna oſſ a þad Straff, ſem filger a epter Syndenne; Formyrkvanernar, ſierdeiles þær ſtoru, kunngiøra og færa med ſier allra handa Eymd a Jordenne, Hungur, Stiriolld, Drepſott, og adrar þvilijkar Olucker og Landplagur, hvad alltſamann kemur af Synd og Vondſku Mañſins, fyrer hvørs ſaker ad Skepnann er Hiegomanum undergefenn Rom. 8. J hvøria Lijdun og þreinging ad ſialfur Madurenn ſijdann kiemſt, hvered er, lijka ſem ſa minne Heimur, og hefur ollad ſlijku i þeim ſtærra Heimenum. hvad hellſt ſem a ad koma framm vid Mannenn, hlytur fyrſt Natturann ad lijda, og ſa ſtore Heimur; og þar epter hlytur ſu þreinging ad ganga yfer ſialfa Manneſkiuna. uppa hvøria giørvoll Natturann midar og ſigtar, bæde med ſijnum godum og vondum hlutum, ſo ſem ſiñ einka Midpunct a hvørium allar Hringlinurnar koma ſaman i ett. hvad Madurinn forſkulldar, hlytur fyrſt ad bitna a Natturunne, eda þeim mallauſu Skiepnunum; og þeſſ ſtærre ſem Mannſins Synder eru, þeſſ meira hliota Skiepnur=

nurnar ad lyda, og bera þar fyrir so sem kvyda i sier, Efter þvi sem þar stendur, Rom. 8. 22. og fyrst ad Vondska Mannsins verdur æ stærre og stærre, þa getur Verolldinn umsyder, ecke bored so stora Syndabyrde, og verdur þarfy-rir ad forganga; Illskann stigur upp til Hi-mensens, og fellur sydann sem Forgift nidur a Manninn, og verdur hans Straff: þarfyrir verda og Einglarnir, ad uthella þeim Skalum Guds Reide, af Himninum, a Jordena, Sioenn, Fienadenn, Solina og Avexte Jar-darinnar so sem þar Stendur i Openberingar bokarinnar 16. Cap.

Ad sydustu meiga og Formyrkvanirnar, sier-deles minna oss, ad nockru leite / Formyrkvan vorra Augna under Daudann, og i Daudanum, vegna vorra Synda, hvar um Salomon talar i Prædikar. B. 12. Cap. seigiande; Minst þu a þinn Skapara i þinum Ungdomi, adur enn þeir vondu Dagar-nir koma, adur enn Solinn og Lioſed, Tungled og Stiorn-urnar verda myrkvar. Þær skulu og ad nockru lei-te minne oss a, og vera Þiding uppa Dom þess Efstadags, og þad myrkur sem þa mun koma, nær Tungled mun fyrir lyta sig, og Solin mun Standa med mijckun Es. 24. v. 23. þad er olldunges formyrkvast, og Stiornurnar verda dimmar, þviad þa munu Krafftar Himinsens hræ-

hræraſt, medal hvørra Himinſens Kraffta, ad Lios Stiarnanna / Solarinnar og Tunglſens eru, ſem þa munu hræraſt þa þau munu veikiaſt og formyrkvaſt: þa munu ſkie Teikn a Stiørnum, a Solu og Tungle; Ja, þau munu hrapa af Himnenum, hvad ed ſkie ſkal medal annars, og þeſſvegna, ad þeirra Krafftar veikiaſt, lyka ſem þa eirn Madur, getur ei leingur geinged, helldur dettur, þa veikiaſt hanns Krafftar; og ſkule þeirra krafftar eiga ad veikiaſt, þa mun og þeirra Lios veikiaſt, ſo ad þau verda ad øllu leite myrk og Dim̃. Lioſed er ſo ſem þeirra Lyf; Lioſed bæreſt offtaſt hatt upp, ſo er þad og edle og Nattura Stiarnanna, ad ganga frialslega og i fullum kraffte framm a Himninum, eins og oſiuks manns Fætur, eru ecke faſt bundnar vid Jordina: Enn falle Lioſed, þa veikeſt þad og verdur dymmt; falle Stiørnurnar, Solinn og Tunglid, þa hlytur og allur Heimurinn ad hrapa og forganga, eins og einn Madur hver ed miſt hefur ſijna Krapta, dettur utaf, ørmagnaſt og deyr.

Ritninginn ſeigir utþryckeliga hia Matth. 24. v. 29. ad Sol og Tungl mune miſſa ſitt Skinn, og Stiørnur mune af Himnenum hrapa, og þeir munu ſia Mannſins Son komande i Skyum Himins med Krapte miklum og dyrd. og Joel 2. v. 10. 11. Solinn og Tunglid

 ver-

verdur myrkt, og Stiørnurnar innehallallda siinu Skine Adur en sa store og ognarlege Dagur Drottins kemur.

Þegar Solin eda Tunglid formyrkvast so af Skyunum, ad þau eru eins lit sem Blod, ellegar blodraud; þa skal þad minna oss a og merkia, ad Stiernur Himinsins med Solu og Tungle, eiga asamt ollum Heimenum ad forganga af Ellde a þeim siidarsta Deige: Himnarnir munu forganga med Storbrestum, seigir St. Petur 2. Pet. 3. 10. enn Høfudskepnurnar bradna. og eigum vier ad þeinkia so med oss þar umm, eins og Solinn og Tunglid segde so vid oss: verid ecke þier Manneskiur so ohultir i Syndenne, og holldlegu Andvaraleise, helldur hugsid til Domsdagsins, nær allir hlutir skulu forganga. siaid vora blodraudu Asynd, og itrekid fyrir ydur, hversu vjer umm siidir, ecke einasta skulum formyrkvast æfinliga, helldur og so upbrennast. og a sliikann hatt tala allar Høfud skepnurnar, til vor, kunngiora og utþyda fyrir oss vora Vondsku, og þad Straff, sem henne a eptirfilgir Hvad er Reidarþruman annad en ein kroptug og ognarlig Guds Raust, fyrir hverre ad Jørdinn bifast, og med hverre Gud varar oss vid? hvad er Jardskialftinn, annad enn ein skelfilig Ræda Jardarennar, hver ed uplykur siinum Munne, og fyrirseiger miklar Umbreitingar, sligt hid sama giora hinir megtugu, og

hvatskeitlegu Stormvindar, og su hrædelega ølga Siafarins.

Hier ad auk ad sijdustu skulum vier einnig læra af Solenne, Tunglenu og Stiornunum ad þeckia Guds Giæsku, og ad þar er eitt eylift Lios til, sem oss upplysir, huggar og gledur, þviad eptir þvi Gud er ein osyneleg og oyfergripanlig Vera; þa skulum vier af þvi synelega sem hann giørt og skapad hefur, og þo allrahellst af þeim dasamlegu og ununarfullu Himinliosumm læra ad þeckia hann, og ad hann yfirgnæfir allan mata og mælir, og er eitt dasamligt og yndisfullt Lios an alls Enda.

So eiga og þvilijk dasamlig Himinlios ad uppvekia oss og upphørfa til ad elska hann; þviad til þess hefur hann oss þau eirnenn gefid. Eins og Madur elskar Liosid, sem þa dæleguſtu Skepnu, so eigum vier og ad elska Gud hiartanliga, hver ad er þad eylifa Lios, snua oss til hans, hverfa fra myrkre Syndanna, og ganga i liosenu; þviad hveria Hluttoku hefur Rettlæted med Ranglætenu? eda hvert Samlag hefur Liosid vid Myrkurinn! Eda hvernig kann þvi sanna Liosenu Christo ad koma saman vid Belial 2. Cor. 6. v. 14. þau skulu og minna oss a ad Christur er su andliga og eylifa Sol, ja Sol Rettlætesins Mal. 4. 2. og skijn med sijnu Nadar-liose fyrir øllum

 Mo-

Mennum, og meinar eingum siins Lioss. Eins og su natturliga Solinn lysir fyrir einum og sierhverium, so lysir og Christur fyrir einum og sierhverium, og upplysir alla Menn sem koma i þennan Heim Joh. 1. 19. hann kallar alla til sinnar nadar, og þarfyrir seigir hann einnig so: Eg em, Lios Heimsins, hver hann filgir mier eptir, sa mun ei ganga i Myrkrunum. helldur skal hann hafa Lios Lifsins Joh. 8. 12.

# Cap. V.

## Umm Vatnid og þess Averke.

### I firstu Bok Mos. 1 Cap. v. 20. 21. 22. seigir Moses umm þess Fimta Dags Skopunar-Verk.

Og Gud sagde Vötnin framleide af sier hræranleg og lifande Kvikende, og Fugla sem fliuga skulu a Jordenne, undir Himinsins Festingu. Og Gud sagde: aukest og margfalldest, og uppfyllid Vötnin Siafarins, og Fuglarnir margfalldist a Jordenne.

Psalm: 104. v. 15.

Siafarhafid er vidt og mikid, þar sveima inne otelianligar bæde smaar kindur og storar.

Vatnid er eitt vott vessafullt og rennande Element, og frastilid hinum ødrum Elementum,

tum, nefnelega Jørdenne, Loptenu, Himnenum og Elldenum; þad er stærra enn Jørdenn, og er giædt med sierdeilis Sæde, sem er fraskilid Sæde hinna annra Elementanna, og hefur feinged sitt Sæde, ad þad giæfe af þvi sierdeilis Avøxt: ad vier tøkum hvert eitt sem Vatnenu vidvikur utaf fyrir sig; þa er fyrst ad alyta þess stad, þarnæst þess Avexte, sem eru oteliande, og hvernig þad utbreidir sig i Jørdenne, bæde i Uppsprettturnar, Malmenn og Mineralia.

Hvad þvi fyrsta vidviikur, sem er Stadur Vatnsins, þa er Jardarkringlann þess Stadur, med hverre Vatnid giorir til samans eina Kringlu og Hnott, sem adur hefur verid beviisad i þeim 3 Capitula: og i þessare Heimskringlu, er Siafarhafid sa hellste stadur og Høfudplats Vatnsins; þad er ad nokruleite innann i Jørdenne, i hennar innvortis filsnum, og hefurt eckert ad stydia sig vid, nema sig sialft, og liggur þar lijka sem eitt Egg i Skurme. adnockruleite er þad og utan a Jørdenne, i þess utvortis og utanverdu Holum, og stendur eins hatt upp i Vedrid, sem Jørdinn; so þad er asamt þeinn ytstu pørtum Jardarenar ein fullkominn Hnøttur, og fellur ecke ur siinum Stad; hvar af þad kemur, ad sa Partur Vatnsens, sem er undir oss hinumei-

 giun

ginn Jardarinnar, giorir eins vel i sinum stad asamt Jordenne eina kringlu, sem ia parturinn af þvi, er ad oss snyr: og hindrar þad eckert, ad Hafid er sumstadar Hærra enn þeir nærstu partar Jardarinnar; vid hvad Menn hafa ordid varir, þegar til hefur verid reynt, ad giora eina leid og Siglingar-veg ur þvi Egyptalands Fliote og Aa, er kallast Nilus, og inn i þad Rauda-Haf; og hefur þa fundist, ad þad Rauda-Haf hefur vered þremur Alnumm hærra, enn Egyptaland, i gegnum hvert þetta Fliot og Aa Nilus rennur; þviad jafnvel þott Siafarhafid sie þannig sumstadar hærra enn imislegir Stader næstliggiande Landa / þa bijhelldur þad eingu aftur, sinu hringsmide og Kringlu-forme: til hvers vier kunnum aungva adra retta orsok ad færa, enn Guds Almætte og Vijsdom, sem þad hefur nidursett og skipad: hvar til oss einnig verdur vijsad i þessum Drottins ordum vid Job: 38. Cap. v. 8. Hver hefur tillukt Siafarhafid med sinum Dirumm, þa ed þad braust ut, so sem af Modurkvide? þa ad eg klædde þad med Skyunum, og vafde þad i kokunne so sem i ödrum Reifum, þa ad eg braut þess Hlaup med minu Bode, og sette Steingur og Hurd þar fyrir, og sagde; Allt hingad skallt þu koma, en ecke leingra (a) her skulu kijn-

(a) um þetta seigir Drottinn so hia Jerem. 5. C. 22. v. Villdied þier ecke ottast mig seigir Drottinn, og skelfast ecke fy-

biinar stalltu Bylgiur leggia sig. Med hverium ordum sa almattuge Gud vijsar oss til sijns Visdoms og Almættes, hvert vier i þessu eigum ad þeckia og undra oss yfir. Þviad þad er vissuliga forundrunarvert, ad Gud med sijnu orde, so sem med Hurdsla og Staung hefur tillukt Hafid, ad þad ecke ma sveima yfir Jørdena; sem þo annarsvegar munde vissuliga ske, ef þad være ei þannig rekid fra Løndunum, med Guds Orde og Skickun; Vatnid verdur ad hallda sier aptur fra Jørdenne, ja rett lijka sem flya a hæl þar fra, ecke af sialfu sier; helldur flyr þad fyrir Guds Krapt og matt, med hverium, Gud hefur slijkt befalad.

Þar med snyr þad sier þannig fra og flyr, ja klyfur sig og skilst vid Jørdena, lijka sem Ainn Jordan, klausst i sundur og skilldist ad, þa Israels Børn geingu þar yfir Jos. 15. v. 16. og eins sem Hafid-Rauda skilldist ad og flude, þegar Moses eptir Guds Skipan slo a þad, um hvørt talast i Ps. 114. v. 3. Siafarhafed sa þad og flyde, Jordan, hun snere sier a bak aptur. Þar fyrir stendur þar og i 33. Ps. v. 7. ad Gud helldur Vatnen saman sem i einum Sekk, og geymer Diupin leynilega. Ps. 104. v. 9. Þu hefur sett eitt Takmark, hvar yfir þau mega ecke ganga, og ecke aptur koma ad hylia Jørdena, og i Jobs Bok 38. v. 10. og 11. Þa eg lagde mijna Lagasetning a þad, og setti þvi Grind-

fyrir mier. Eg sem sette Sandinn til Siafarbackans, innann hverra Takmarka hann hlytur alla tijma ad vera, og ma þar ecke yfir ganga og hversu sem hann belgist, þa orkar hann einckis, og þo ad hans Bilgiur æde þar afram, þa meiga þær þo ecke þar yfirganga.

nenu til samans i siønum so sem i ødrum Belg; og Sy-
rach Cap. 43. v. 25. seigir þar fyrer og so: Med
sinu Orde ver hann Siønum ad sig ei utbriote. Þad er og
merkelegt ad Gud seigir Job. 38. 9. ad hann hafe
vafid Siafarhafid i Þokunne so sem i ødrum Reifum.
Þviad Siafarhafid er opt hulid med Skyum so
ad þar af verdur dymmt yfir, og skyen og Hafid
eru sem þau være eitt, so ad Madur sier ecke
annad enn Sky og Vatn: og þa hliota og so
Skyeñ ad hallda Vatninu fra Jørdenne. J
hveriu Madur sier Drottins Giørninga, so sem
þar verdur sagt i Ps. 107. 21. og þau storu Un-
dur Guds, so ad Madur ma skialfa og titra vid.

Enn framar hefur Madur ad merkia i þessum
Hofudstad og safne Vatnsins, sem er Siafar-
hafid, þessvissa Tijd og Hræring.

Hin ønnur Elementenn hafa sijna Rod, Tijd
og Hræring, so sem Stiørnurnar a Himnenum,
og a Jørdene margvisleger Avexter, sem fram-
koma a sinum Tijma: hvad ed er su retta Hræ-
ring Jardarinnar, fyrir hveria hun alldrei er
kyrr, og eckert a henne gefur sig til Frids, fyr
enn þad hefur borid sinn Avøxt. Og med sama
hætte hefur og Siafarhafid sijna Tijd, Ordu og
Hræring, bæde i þann mata, ad þad med sinne
heimuglegre innvortis og lifande Hræring fram-
færir alla sijna Avexte i sinne Tijd, og i sinne
Or-

Ordu so ad þessvegna ma eckert i Siafarhafenu vera hulid eda dulid, helldur verdur þad ad koma i Mannanna hendur: ad nockruleite og so i þann mata, ad þad sifelldlega hleypur til og fra, hingad og þangad, nu til þessa kants, nu til eins annars, þo alltid med einum Vissum og stødugumm hætte og mata, eins og skedur i Flødel og Fioru, Adfalle og Utfalle, og þegar þad hleypur til og fra i sama stad.

Um þetta eru margvisligar Meiningar: sumir meina ad Adfall og Utfall kome til af Solenne; enn þeir geta ecke noglega giørt grein a þui hvering þad gange til: Adrer seigia ad Tunglid vallde þvi, og þad er vist ad Tunglid hefur eina mikla og undrunarlega Samstemmu vid Adfall og Utfall; so ad þa er almennelega Flod, þegar Tunglid er rett i Nordre eda Sudre; og ver þad vid tvisvar sinnumm a hverium 24 stundum; so sem og annars Vatns-Stiørnurnar koma margvislega saman vid Hafid og Vøtninn. og kraptar þeirra efre hlutanna verka hid sama, sem þeirra hinna nedre; være þad ecke, þa giæte varla sked nockur hræring. enn þad er annad ad hafa Samstemmu vid eirn hlut; og aptur er þad annad ad orsakast af þeim sama. jafnvel þott Tunglid samstemme i nockrum Postum vid Adfall og Utfall, þa filgir þad þo ecke

þar

þar a eptir ad Tunglid sie einungis orsøk til Adfalls og Utfalls: enn þad filgir einasta þar a eptir, ad Siafarhafid hefur slijkann einn natturlegann, heimuglegann og i sier plantadann hrærande kraft, edur hræranda orsøk, sem er lijk Hræringu þeirra himnesku hlutanna. Rosellus skrifar eirnenn ad Hafid hafe tvennslags krapt, einn Jardneskann og Elementiskann, fyrer hvern þad þyngest nidur; og annan Himneskann, fyrer hvern þad er Tunglenu lijkt, og fellur a sex Stundum ad. So hefur og Albumasar fyrir vist fornumet, ad Adfall og Utfall filgia ecke alltid Hlaupe Tunglsens: þad er og vist, ad Flioted Euripis med sijnu Adfalle og Utfalle, eda Flode og Fioru, fer ecke eptir Tunglenu, þvi þad skiptir sijnu Adfalle og Utfalle siosinnumm a dege, og filgir þarfyrir hverke Siafarins Flode og Fioru, nie helldur Tunglenu; sem og margar adrar Ar a annann hatt haga sier, hverke eptir Flode nie Fioru Siafarhafsins ellegar Hlaupe Tunglsins: þar fyrer er ecke Tunglsens hlaup orsøk til Flods og Fioru.

Vilhelmus Aneponymus seigir, ad Siorinn hafe tvo almenneleg Hlaup; eitt til Vesturs annad til Austurs: og þa hann kome til Vestursins, þagiøre hann þar tvo aptur Hlaup, af hverium eitt gange til Sudurs, og annad til Nor-

Nordurs, eins lijka þegar hann kome til Austursins. og þegar Vestur og Austur hlaupid mætast og hvert reka sig a annad, þa rekest þaug þannig til baka, ad þar af kome Flod og Fiara. þar eru og þeir sem meina, ad þad kome til af Botne og Grunne Hafsins, Annad hvert ad þar sieu Fioll a sama Grunne sem olla þessu, ellegar ad þar sie soddann Hite, sem hleypi Vatnenu upp so ad þar af orsakast Flod; og þegar þesse Hite drage sig samann aptur, þa falle Siorinn aptur, og verde þa Fiara.

Franciscus Valesius er þeirrar Meiningar, ad þar sie su Gufa og þeir Vindar inann i filsnum Jardarinnar, er giore þad, ad Siorinn bolgne upp og orsake Flod og Fioru, og ad slijkar Gufur og Vindar kome af Stiernunum og Tunglenu; og þegar þesse Reikur, og Vindur, sie ur Siafar hafinu, þa hiadne þad aptur. i þann mata skyllde ecke Tungled, einasta dryfa Hafed til og fra, helldur ætte þad og ad vera Orsok, til þvilijkrar Gufu og Vinda. Hvad ed synest ad vera ofmiked Erside fyrir Tungled: þvi hvarfyrir skyllde þad þa ecke hafa somu Verkun i Anne Euripo, ad eg ecke tale neitt um hinar adrar: Hvorninn skyllde þvi þa vera vared umm hin ønnur Vøtninn, sem ecke hafa Flod og Fioru a sama tijma sem Siorinn,

rinn, helldur a øllum ødrum tijmum? Hvad ætte þa ad hræra þau og færa i sinn stad? og hvad dryfur Uppspretturnar og Brunnana upp ur Jørdinna. mun Tungled og þessreikur giøra þad? Eingann vegenn.

Su rietta Meining umm Orsok Adfalls og Uttfalls er sem mier synest vera þesse, ad Siafarhafed, hefur i sialfu sier þa hlaups natturu, þann sid og dryfande Orsok sem þad filler, og þessvegna fellur þad ad og ut, giørir Flod og Fiøru. Hafed og Vatned er eitt Element, og eitt Element hefur i sier eirn lifande og hrærande Kraft, bæde almennelegann og sierdeileslegann, med hvørium þad hrærir sig sialft, og framdryfur allt hvad þad Innehelldur i sier. Fyrst Gud hefur skapad, og giefed i øll Elementin, lyf og hræring, þvi skyllde hann þa ecke og so miklu meir hafa giørt slijkt vid Siafarhafed, sem er so stort og vijdt? skyllde hann ecke hafa og so giefed þvi þvilijkt, og giædt þad med einum lifande Anda, og Hrænngu, enn skapad þad helldur an allrar Hræringar?

Þar sem hann hefur tillagt og giefed Himnenum sijnar Stiørnur, sem hafa sinn vissann tijma, meddeilt og so Lofftenu sijna Hræring, giefed Jørdinne sinn Vissann Tijma, til ad grænka og blomgast, og frammbera sijna Avexte;

verte; þa hefur hann eige siijdur giefed þvi stora Siafarhafe, i hvoriu ad Guds Dasemder, allra hellst verda þecktar, siinar Innplantadar og medfæddar Reglur og mata, hvad þess Tiid og ordu vidviijkur: sem ad eru þær osynelegu Siafarins-Stiornur, sem driifa þad, og styra þvi, fyrir hvert oll Votn hræra sig, og þar med fliota og renna siifeldlega. Af þessu hleipur Hafed hvorn Dag, fra og til, og giorir Flod og Fioru, og þar af hrærir sig einnig Midiardarsiorinn, a einnsierdeiles hatt, vex og minkar; þo so, ad þar siest ecke neirn sierlegur munur a; af þessara orsok, hleipur og Aen Euripus, og Votnunn i Eubœa, ellegar Negropont Siosinnum a hvorium Deige fra og til; þetta giorir su Innri hrærande ordsok, og ecke eintomis su Ytre.

Hvad snijr Segulsteininum i Nordur, edur ad þeim nyrdra Hiolgadds enda? Hvad sveigir og hrærir Solar Blomsturinn, og onnur þesshattar epter Solenne? giorir þad ecke su Innvortes hrærande orsok? þegar hun spilleft og forgeingur, þau snua þa sier og hræra sig ei leingur, effter Solinne, og eru þa eins og þau være daud.

Þessvegna ma sierhvors nattyrlegs hlutar, einkannlega eins Elementis edur Hofudskiepnu,

sem og hvørs annars hræranlegs hlutar, upprunaleg og lifande Orsøk, sem hann hrærir, vera innvortes i hønum sialfum.

Og hlij'ur þar fyrer Siafarens Hrærande Orsøk ad vera i sialfu Siafarhafenu, til ad stiffta Flod og Fioru; nefnelega eitthvad þad, sem hrærer þad og driijfur innvortis, hvørt ed keyrer þad og belger upp i Lopted, so þad stiijgur hatt upp af Diupenu, og giører Havada, Ja! eins og þad siode upp, lijka sem Vatn, þegar Eilduren er under þvi, þa siijdur þad upp, og hiadnar siijdan nidur aptur.

Þarnæst er adgiætande umm Siafar falled, ad Gud hefur ecke einasta giefed þvi þad edle og Natturu, ad þad a vissum Tijdum og Tijmum, stiijgur upp, bolgnar, þrutnar, og verdur hatt; helldur, og eirnenn ad þad hefur i þessu sama Flode og Hæckan sinn vissann mata og Takmark a Lande, hvar þad ber ad, og geingur ecke yfer þann sama mata og takmørk: þad hefur sinn vissann Stad og Mercke, hversu hatt þad skal reisa sig; og nær þad er komed so hatt, þa vijkur þad epter sinne Natturu sialfkrafa burt aptur. Af hvøriu menn meiga alikta, ad Gud hefur fyrer sett Sionum eitt viist Løgmal, Ordu og Reglu, hversu hatt hann skal stiiga:

En framar skal og athugast samstemma Siafar

far hafsens vid Himenenn, sem ad nockruleite sieſt a adfalle og Utfalle, er almennelega filger Hlaupe Tunglsens, so sem sagt hefur vered; og ad nockruleite a ismislegum Dyrum og skiep- num Siafarens, hver ad og so haga sier epter Himnenum: til dæmis, Skielfiskurenn er fei- tur, þegar Tungled er fullt, enn sijdan magur. Item ad imislegar Skiepnur i Sionum seigia fyrir Storm sem verda mun og Vedrabrigde, hvad og nockrir Fuglar giora, sem eirninn eru komnir af Vatninu; hvar um̃ Madur kann ad lesa 7du Bok Basilii umm Skøpunar verked a þeim 6. døgum: og kiemur allt þetta af Sam- stemmu Siafarins vid Stiørnurnar a Himne- um.

En framar skulu Menn athuga Seltu Siaf- arins, og Vatnsins Yferfliotannlegleika: Sia- farhafed er Samkomustadur Vatnanna, og Uppruna-sæte, og Heimele allra Strauma: þvi seigir Salomon, i Prædikarans Bokar 1. Cap. v. 7. øll Vøtn falla i Sioenn og koma fra Sionum: þar fyrir er yfervættes, og oyfergrypannleg Vatnsgnægd i Siafarhafenu? (a) Enn þad,

 ad

(a) þetta umm slijka Vatnsgnægd, kann Madur og so ad rada af þvi, ad fyrr enn Vatned og Jørdenn voru ad- greind, þa stod Vatned, langt fyrer ofann Jørdena, og Jørdenn la

Ad Hafed verdur ecke fyllra; og flytur ecke yfir (Londin) þa seigia nockrir það kome til af þvi, ad þau Vøtn sem renna i Sioinn, rotne i hønum, eins og mannanna Likamar rotna þegar þeir koma i Jørdena, þvi ad i Sionum er ein sterk forrotnun, og Siorinn er daude allra Vatna, og þessvegna verdur hann ecke fyllre af þeim Vøtnum, sem renna i hann, so sem einn Þiiskur Philosophus ellegar Heinsspekingur seigir: En það er liklegra, ad Hafid verde þessvegne ecke fyllra, ad þau Vøtn sem renna i Hafid þau koma og so ur Hafinu, so ad það sem yfirgnæfir i einum stad, það brestur i ødrum, og fer þangad aptur þviad Hafid er allra Vatna Element, utaf hveriu þau øll vaxa, og i hvert þau verda aptur ad fara, so ad Salomon þar fyrir segir i Predik. 1. 7. Øll Vøtn falla i Sioinn, og þo

---

la þar nidur i; hvad ed bevysast med þessum ordum; Psal. 104. Þu Drotten grundvallader Jardryked a sinne stadfestu, so það blyfur umm alldur og æfe: medur Diupenu hulder þu það (það er ad skilia i Skøpuninne, og firr enn það var adgreint fra Vatninu.) so sem med ødru Klæde og Vøtninn standa uppi yfer Fiøllunum: Enn fyrir þinne Strøffun þa flya þau, fyrir þinum Reidarþrumum fara þau burt þadan: Fiøllenn þau gnæfa hatt upp, og Fleterner setia sig nidurunder, i þeim stad sem þu grundvallader, þa þu hefur sett Vøtnunum Takmørk, þar komast þau ej ut yfer, og þau meige ecke aptur Jørdena hilia.

þo verdur Siorinn ecke, fullur. Til þess stadar sem þau innfliota, fliota þau aptur i burt.

Hvad Selltunne vidvikur, þa er Siafarhafid ærid Sallt, og odara sem osallt Vatn kemur i Sioinn, verdur þad og af honum sallt, og so sem deyr; er þad þa sem daudt Vatn adreikna mote þvi osallta; þarfyrir er Siorinn allstadar Salltur, og þar af meina margir þad koma, ad Siorinn lijdur ecke nockurn daudann Lijkama ellegar Hræ i sier, helldur kastar øllum daudum bukum og Hræum fra sier. Þviad þesse sellta ollir þvi, eptir þeirra Meining, ad hann þolir eckert hræ i sier. enn hvaraf kemur siafar-Selltann? þar af; ad Gud hefur latid þann hellsta stad salltsins vera i Sionum: Saltid er og su sidasta materia eda Efne i øllum hlutum, ellegar þad, sem finst seinast i hvorium hlut, og slijk materia er miklu ysirfliotanligre i Sionum en i nockrum ødrum stad, þviad Siorinn er samkomu plats Vatnanna, þar er og eckert Vatn so hreint og klart, ad þad ecke hafe nockud heimugligt sallt i sier; og allt þad safnast til samans i Sioinn, og opennberast i Forrotnuninne; þviad þegar einn hlutur rotnar og spillist, þa kemur þad Sallt i Lios sem i honum er. Þad getur og verid, ad Elldur og Varme, sem er a Hafs-Botnenum brenne og eide Jordenne þar

nidre: og ad ſu brenda Jord blandiſt vid Hafid, og hialpe til ad giora þetta Sallt, hvad ed og ſo er meining Læremeiſtarans Aneponymi: ſem og ſkrifar ad ſellta þeſſ ſtore ſiafar-hafs kome þar af, ad þad meſtann part liggur under þvi heita Himenſens Takmarke, þar Solenn geingur þvert yfer, og ad Hite Solarennar giører hafed þickt og ſallt. Hvad ed ma vera vid ſitt verd, og meiga þeir dæma um ſlijkt, ſem hafa ſkinbragd a Natturunne.

Þad annad, ſem vier høfum teked oſſ fyrer, adathuga, eru þeſſ Averter; Vatned er eitt Element, og vegna þeſſ þad er Element, þa er þad og eirn Brunnur, og Uppſpretta Jmeſlegra Sæda og Krapta, ſem bera ſierdeiles Averte, hver epter ſijnu edle, og epter þvi ſem Gud hefur gefed þvi ſijna ſierdeiliſlega, heimuglega, og lifande ſads krapta; þvi ſoddann er Natturu og aſigkomulag, eins Elementis. Þeſſvegna fyrſt Vatned er eitt Element, þa hefur þad og ſlykann Krapt til ad bera Avørt, ſem þad eirnig ber; og er ei ſydur frioſſamt, enn Jordenn; Jordenn ber Gras, Urter, og annad þeſſhattar, ſo ſem Gud baud i Skøpunenne, þa hann ſagde; late Jordenn af ſier uppvaxa græn Gros og Jurter, hafande Sæde i ſier og avaxtarſøm Trie. Gen. 1. v. 11. Þetta er Avøxtur Jardarenar, og kalla mer

men allt þesshattar, Vegetabilia, það er friofgunarsamer hluter, sem hafa Vøxt i sier. J stadenn fyrer þetta ber Vatned annad, sem þienar Mannenum, og er honum nitsamlegt; medal hvers reikna ma, fyrst, það sem er Steinkins, so sem eru Malma Tegunder-nar, bæde Gull og Sylfur, Kopar, Jarn, Tin, Blij og annad þesshattar: Sømuleides Saltted og Mineralia, eda Namusafsternar, so sem Alun, Victril, og annad þviumlijkt, item Steinar, bæde þeir almennelegu, og o almennelegu, nefnelega, Edalsteinar, so sem Perlur, Agatsteinar Rafsteinar, Smaragd, Saffir, Granat, Korall og adrer fleire, hverier aller til samans hafa sinn Uppruna af Vatnenu, og Vatned er þeirra firsta tingunar Efne, og Materia, ur hvøriu þeir eru Jiørder, so sem þeir bestu Natturu Spekingar þar um undervissa, hvorra Lærdom menn ættu þarfyrer ad virda, efla og utbreida; til þess ad vier mættum læra ad þeckia Guds Verk, med skilldugre Elsku og þacklæte, og vita hvad Gud hefur skapad til vors gagns og goda, og ecke sem þeir Sier-vitru Malagarpar og hiegomlegra konsta Meistarar, spilla vorre Tijd, med þvi ad grubla epter vanskillegum hlutum, hverier ad

eru onaudsynleger, og gleima þar med Guds Velgiorningum.

Þarfyrer eru og blyfa þesshattar Malmar, Namusafter Sallt og Steinar; Vatnsins Avexter; sem hleypir þeim af sier inn i Jordena, eins og til þeirra Modur; ellegar i þann stad i hverium þetta allt a ad verda fullkomnad og fullþroska, so þad kunne i jordenne ad verda, fullvarid og ad ollu leite algiort, alþroska, og og fa sitt retta skick. Enn Rotenn til þess er þo og bliifur i Vatnenu; eins og Jurternar hafa þeirra rot nidre i Jordenne, en vaxa þo og verda fullþroska i Loptenu.

Þarfyrir skalltu ecke hirda umm þa sem seigia og meina ad þvilijker Malmar, Mineralia eda Namusafter og steinar sieu einasta Jardarinnar Avextir; þviad þad er villa. enn þeirra rettur Upprune er sem adur er sagt, af Vatnenu; og hindrar þad eckert þott þeir vaxe og verde teknir up ur Jordenne, sem og sagt verdur um Jarnid i Jobs B. 28. 2. þviad jafnvel þott þeir vaxe i Jordu og sieu teknir ur Jordu, þa hafa þeir þo eke þarfyrer sitt fyrsta Sæde og Uppruna af Jordunne, Lijka sem Tre og Jurtir vaxa ad sonnu i Loptenu, enn hafa þo ecke sinn fyrsta Uppruna af Loptenu helldur af Jordenne, i hverre og þeirra Rot er; þannig vaxa og ad sonnu

sonnu slijkir Steinar, Malmar, og Mineralia, enn þeir eru þo komner af Vatnenu: og hafa einasta þadann sinn fyrsta Natturlegann Uppruna. So sem Jordinn hefur sinn Groda og Tre, af hverium øll hafa sinn Avøxt, so hefur og Vatnid sijn Tre og Malms Avexte, sem þad keyrir framm i Jardarennar Gaung, Fylsne og Sprungur, og þa þeir koma i Gaung Jardarennar, verda þeir harder og fa so sem Steins natturu, og getast so sem eitt Malms og Mineralijskt tre, sem breidir sinar Greinir langt ut i Jordenne, so ad ein Grein breidir sig optlega yfir tuttugu, fiørutyge, ellegar iafn vel sextyge Mijlur eda fleyre; og þegar þesse Avøxtur, er uppe og til þurdar, þa þornar þette Tre, og so sem deyr þa sialft. af þessu nijdast Bergverkinn ølldungis og fæst þa ecke meyra af þeim; þar a mot kemur i ødrum stad, nockud nytt uppeptir þvi sem sa alvise Skapare hefur sett øllum hlutum sinn Tijma Enda og Upphaf.

Annars hliotum vier ad athuga i þessu, Vinattu Samkvæme og Forlikun Elementanna, hversu eitt fædir sinn Avøxt i annars Skaute, og kemur þvi a stad til Mannsins nytseme. hversu margann kostulegann avøxt fæder ecke Festningenn eda Himenenn i Loptenu? hun gefur oss ur Loptenu Regn og Nattdøgg, Var-

m̃a og Kulda, imiſlegt Vedur og Vind, og annad þeſſhattar. Jerdenn a ſama hatt fæder ſo margt koſtulegt Foſtur og Avoxt i loptſens ſkaute, i hveriu þad grænkaſt blomgaſt og fullvex, og fær margvijſlegann krapt og Bleſſan af Loptenu. hvert ed lijka ſem med ſinum Armleggiumm og Vængium ummfadmar þad: ſo þad er ſem lopted foſtre þad upp, og eins ſem einn Barns-foſtra nærir og elur upp þau Børn, ſem hun þo a eckert ſkillt vid. þar a mot tekur Jørdenn og Vatned Loptſins Avexte til ſijn, neſnelega þann hulda og heimuglega liifs krapt, hvern Lopted med ſier færir, þvijad loptid geingur i gegnum øll Elementinn og gefur þeim ſo ſem lijf: an loftſins, verdur eingenn elldur kveiktur helldur hlytur hann ad utſlokna, an Loptſins kemur rotnan i Vatnid, verdur ſo ſem daudt og fordiarfaſt, og allir Avextir Jardarinnar verda an Loptſins nidurkiæfdir: þannig ber og ſo Vatnid og fædir ſijna Avexte i Kvide og ſkaute Jardarinnar, og þar med meddeiler þad mønnunum þeim, a margan forundrunarlegañ mata, og allt eins og tren bera ſina Avexte med mørgum hætte og mata, og utbytq þeim til Mannanna.

Þad er og forundranar verdt ad ſumir Avexter Vatnſins, ſem hafa Steins Tegund, getaſt i ſialfu

sialfu Vatnenu, og eru almennelega blautir, enn þa þeir koma u: p af Vatnenu, og i vedrid, verda þeir hardir: so sem Koralsteinar; þeir hafa opt fundist næsta blautir, þa þeir hafa nylega verid komnir ur Vatnenu, og hafa sijdan med Tijdenne hardnad i Loptenu, so ad eitt Skalld seigir þar um.

Kuriel alltijd hardnar hradt
hvar sem Vinde mætir
ef i Vatne er þad stadt
øngre Hørku sætir.

Ad sijdurstu skulum vier i þvijlikum Vatns steinum og Malms averte þeckia, lofa og prisa Guds Giæsku, ad hann bæde hefur so vislega dælega og ununarsamlega skapad þa i marg- vislegu kine, so og Mannenum til Gagns og Nytsemda; einkanliga til Heilsubotar, og ad styrkia þar med og vidhallda Lijkamans Hrey- ste; þvi þeir eru ecke skapadar til ad hafa i fram- me med þeim Prial og Hofmod, helldur til ad kenna oss ad þeckia Guds margshattada Giæsku vid Mannkyned, og til ad ransaka og gefa giæ- tur ad hans Dasemdar verkum vid Mennenna, einig ad prijsa Gud, fyrir þa, og hønum ad þac- ka. Madur ma og so hugleida hvad þeir Tolf Gimsteinar høfdu ad þijda, sem voru i Briost

skyllde

skyllde þess Ipparsta-Kennemanns, hvad Gud hefur viliad gefa med þeim til vitundar, og annad þvilijkt; og bruka allt slikt til uppbyggingar þeim Innra Mannenum.

Sa annar Avoxtur Vatnsens eru Uppspretttur Jardarennar, item Fliot og Ar, so sem Rin, Donav, Elfinn, Nilus, og ønnur þvilijk Vatnsfoll og Ar. og eru Uppspretturnar og vatnsfollinn ecke vatnsins Element, edur upphafs efne, helldur einungis þessgreinir: og skiptast einig sundur i adrar sma kvisler, sem koma af þeim storu Vatnsfollumm. lijka sem a Greinum einnarar storrar Eikar hanga marger Avexter; so hanga eirnenn a Vatnsins storum greinum og Arstraumum, so sem vid ana Rin, Donav, og adrar þvilijkar, marger Avextir sem eru minne; nu einn Lækur, nu einn Brunnur og annad þvilijkt, og hefur þad allt saman eina Rot og Stofn, sem er þad stora Siafar haf: þviad allir Brunnar Lækir og Vatnsføll koma þadan. Øll Vøtn, sem Salomon seigir, hvad og so adur hefur sagt verid, falla i Siovin, og þo verdur Siorinn ecke fullur, ur þeim Stad, sem þau uttfliota, fliota þau aptur i burt Pred. 1. 7. Umm Orsokena til þessa hefur adur verid talad.

Einnig er ad merkia margvislega Tegund og Edle Uppsprettanna, ad sumar eru kalldar/

su-

ſumar heitar, ſumar ſalltar, nockrar oſalltar, nockrar Uppſprettur eru til ad ſvala og endurnæra, nockrar til lækninga og Heilbrygde; allt eins og Jördinn gefur af ſier imiſliga Avexte, ſura, beiſka, ſæta, og enn ödruviſe. Hvad allt oß ſkal uporva til ad priſa og lofa Viſku og giæſku ſkaparans vid oß auma Syndara.

Sa þridie Vatnſins Avoxtur, eru margvíſleg Dyr, Fuglar og Fiſkar ſem koma af Vatnenu, og eru otelianlega margir; þviad Gud hefur gefid eina ſierdeilis frioſſeme i Vatnid og Sioinn, ad þar verdur fullt med lifande Skepnur, ad einn Madur getur og þadan haft ſinna Fædu. af þvi ſtora Matbure Siafarhafſins kemur ſu mikla Mergd fiſkanna a ſijnum tiima, og gefur ſig ut er ſinum leynelegum Filſnum og holum: ſo ad hver Manudur færir med ſier ſina viſſa Fiſkeveide; og hafa Fiſkarnir i Sionum þad edle og Natturu, ad þeir naſt ecke, utan þegar þad er þeirra Tijme.

Ad ſiduſtu eru og margshattar koſtuleg Kridderi og velluktande hlutir, ſo ſem Ambra / og adrir þvilijkir Avextir Siafarhafſins: og verda þeir og ſo ad þiena oß til gagns og goda: latum oß þarfyrir kannaſt vid, og þeckia þvilijka Guds Godgyrne med Spamannenum i Pſ. 8. 5.

Drot-

Drottinn, hvad er Madurinn þess ad þu skulir minnast hans? og Mannsins Barn ad þu vitier þess.

# Yfervegun nockra Orda af þeim 104 Psalme.

Um Siafarhafid talar og Prophetinn agiætliga i þeim Ps. 104. v. 25. 26. Siufarhafid seiger hann er so vidt og mikid, þar sveima inne otelianlegar bæde smaar Kindur og storar, þar ganga Skipen, þar eru þeir Hvalir, hveria ed þu hefur giørt, so ad þeir leika sier þar inne. J hverium ordum oss gefst ad athuga Fernt: sem er Siafarhafsins Stærd og vijdatta; Sigling og Skipafarir, otelianleg Mergd fiska og undarligra Skepna, sem eru i þvi: og ad sidustu Hvalfiskar Siafarins. Hvad vidvijkur þvi fyrsta, þa meigum vier med øllum rette undra oss yfer þeirre ognarlegu Vijdd og stærd Siafarhafsins; þviad nær vier athugum ecke nema hversu stor fiøllde Vatna rennur hvern dag i þad ur øllum attum Heimsins, og þad verdur þo ecke fyllra, eda hefur þo ei ordid fyllra i so mørg hundrud, ja þusund ar; helldur og so, ad þad er i mørgum stødum hærra enn Jordinn, og jafnvel þott þad opt upplypte sijnum Bilgium, so sem til Himensins, og þad hatt up yfir øll Fiøll þa hlytur þad þo ad lækka sig, og blifa i sijnum skordum: so kunnum vier þar i ad

ad finna og þreifa a Guds Almætte, sem þvi-
lijkt lætur so vera.

Þetta sama Guds Almætte i Siafarins
Vijdattu lætur sig og so i liose med þeim marg-
vijslegu Eyum, sem eru i honum utdreifdar.
er þad stor Dasemd Guds Almættis og giæsku,
ad midt i Siafarhafenn liggia, so mektug, so
stor, so morg og Folkrijk Lond og Kongarijke,
eins og þau være plontud og sad þar i: So ma
Madur og undra sig bæde yfir Eyanna Botne
og Grunne, a hverium þær standa og stydia
sig vid; ad Siorinn ei skule rota þeim i burtu,
og eru þad optast nær stor Biorg sem standa
þeim til hlijfdar, ellegar þad er nockud annad
þess hattar: lijka meiga Menn undra sig yfir
hversu Eyarnar eru frioffsamar; og hversu mi-
kid gott ad vex a þeim; so og a Folkenu sem þær
bygger, ecke einasta hversu þad yrkir þær, og
hefur sina Afurvinnu a þeim, helldur og hver-
nig þad er fyrst þangad komid og hefur fest þar
sinn Bustad. so fædist þar og forsorgast so mi-
kil Mergd, ad þad eru Sannmæle þar um, ad
þad bue so margir Menn i Siafarhafenu sem
a meigennlande; ellegar a Eyunum, sem a því
fasta Lande og Jordu. þviad first Siorinn er
stærre en Jordin, þa hefur Gude ecke þocknast
ad so stor Partur af Heimenum skyllde vera fy-
rir

rir utan Manneſkiur þarfyrir hefur hann nidur ſockt Eyunum, og grundvallad þær midt i Hafenu, ſo ad Guds Velgiørningar ſkylldu og ſo verda þeckter og priiſader i Siafarhafenu, af þeim ſem þar bua. Hann hefur og þeſſvegna lated ſitt Ord og Evangelium verda predikad fyrer þeim, ſem bua i Eyunum, og epter þad, ad huggun allra þioda var komen, þa hefur hann hrært bæde Sioenn, og Þurrlended Hagg. 2. v. 7. 8.

Þar næſt gefſt oſſ Ordſok, ad virda fyrer oſſ Skipafarernar og Siglinguna, um hvert ad talad verdur i firrgreindum ordum Pſalmſens. Ad Gud hafe i firſtunne kent Mønunum ad fara med Skipenn; þad kenner Hiſtorian af Noa oſſ, i hvørre þad greiner, ad Gud ſkipade Noa ad byggia þad undrunarlega Skip Orkena, og ad bræda hana med Bike utann og Innan; og er þad epterteektar verdt, ad odara, ſem Noe og hans Folk var geinged inn i Orkena, liet Drottenn aftur epter hønum. J Spekinnar Bok 14 Cap. gefſt oſſ epter Filgande agiæt Jhugan, um þetta, Skipenn eru uppfundenn, ſtendur þar, til þeſſ ad ſækia ſijna Næring þar med, og Meiſtarenn hefur ſmijdad þau med hagleik, enn þijn Forſion, o Fader, ſtyrer þeim, þvi þu gefur Vegenn i Hafenu og orug-

gvann Gang a medal Bilgnanna. hvar med þu bijviisar hvørneun þu kant ad hialpa allstadar, og eirnenn lijka, þo nockur gefa sig i Hafed an Skips; þo epter þvi, ad þu ecke villt, ad þad skal liggia til einskis, sem þu hefur skapad fyrer þinn Vysdom, þvi skedur þad, ad Menn trua so litlu Trie til sins Lijfs og eru holpner innann Skipsborda, hvar med þeir fara igegnum Hafsins Bilgiur. Þviad og so fordum daga, þa þeir Drambsømu Risar voru nidursleġner/ þa flydu þeir, a hvørium Vonenn var til ad fiolga Mannkined, i eitt Skip, hveriu þijn Hønd styrde, og lietu so Verolldenne Sæde epter sig, þviad slykt Trie er Blessunar verdt sem Menn høndla rett med.

Ein stor Hialp til ad hitta þa rettu Stefnu i Siglingunne, er Segulsteirnenn, þviad hann af eirnre sierdeiles Natturu, sem Gud hefur gefed hønum, snijr sier alltijd i Nordur, og þar af vita Siglinga-Menn þa riettu Leid og Mid, sem þeir eiga ad sigla epter, og hefdu þeir ecke Magnetsteinenn, af hvørium þeir yrdu uppfrædder um þetta, þa mundu þeir hverke vita, hvar þeir være, eda hvert þeir ættu ad hallda. Segulsteirnen kennir þeim allt þetta, og fyrir hans Hialp hafa Menn fyrir sam arum byriad ad sigla til þeirra

Stada, sem eru allra leingst burtu i Vestrenu og Austrenu. Þad eru og margar Bækur skrifadar um slijkar undrunarlegar Siglingar, i hverium ad eru greindar hvada Eyiar, Lønd, Folck og Kongarike Menn hafa a þann hatt fundid, og seigir þar ifra mørgu, sem Madur ecke les utan med hinne allrastærstu Forundran.

J þridialage talar Prophetinn og so i Psalmenumm um Dyr Siafar hafsins: þar sveima inne otelianlegar bæde smar kindur og storar. Þad er skrifad ad i Sionum sie vel so mørg Dyr, og margskins, sem a Landenu, hvad ad er ein stor Dasemd Guds. Einnig er þad storum furdande ad su miklu Mergd Fiskanna kemur a sijnum tijma framm af Diupenu, lætur sig sia i storum Flockum, sem ein Sauda-Hiord, og gefur sig i Manna hendur, og frambydur sig til ad vera þeirra Fæda: hvarmed Siafarhafed er þad dasamlega Matbur Guds, med hveriu Gud elur þann stærsta Hluta Mannkinsins.

Ad sijdustu talar og Prophetinn sier i lage um Hvalfiskana, og seigir, þar eru þeir Hvalir, hveria ed þu hefur giørt, so ad þeir leika sier þar inne. Þesser Fiskar setia oss eirnenn Guds storu og hrædlegu magt fyrir Sionir, hvar til sialfur Gud vijsar, þar hann þannig talar til Jobs Job. 40. v. 13. um Leviathan; Beininn i honum eru lijka sem

sem Koparpipur, hans Bein eru lijka sem Jarnstafur. Hann er þad Upphafid Guds vegar, Sia, u hann svelgir Straumiun i sig, og acktar litils, og lætur sier þikia ad hann vilie uppausa Jordann med sijnum Munne Cap. 41. v. 18. hans Blastur leiptrar sem Lios, hans Augu eru sem Morgunstiornunnar Augabryn af hanns Nøsum gys Reikur, so sem ur heitum Pottum og Kotlum. Nær hann hefur sig upp, þa skelfast hinir øflugu vid þad, og nær ed hann brytst framm þa er einginn Lykn til. Hann giorir þad ad diupid Hafsins sydur up sem annar Pottur, og hann hrærir þad til samans lijka sem Madur samblandur smirsla Vatn.

## Lærdomar sem hier ut fliota.

Af ollu þessu skulum vier nu læra ad þeckia Guds Almætte, ad hann hefur giort Siafar hafid so stort. Hvør metur Votnin med Huefanum? Es. 40. v. 12. Er þad ecke Drottinn, allt hvad hann vill kad giorir hann, a Himnum og Jordu og Siounum og i ollum Diupunum Ps. 135. v. 6. So skulum vier og læra ad þeckia Guds Visdom a þeim miog undrunar verdu Hlutum, sem eru i Siafarhafenu, Guds Giæsku, af þeim margfkins Skepnum og Giøfum sem þar eru; Guds Rikdom, af þeim Fiellda Diranna sem eru þar inne, og vier eigum ad lofa vegsama og prisa hann i ollum sinum Giorningum.

Annars verdum vier og so asamt þessu aminntir þar um, at vier høfum hier, so sem

i Fyrermyndan tveñslags Siafarhaf, uñ hvert talad verdur i Guds Orde. Eitt er Hrigdar eda Angistar Hafid; Annad er Nadar og Miskunar hafid. Verolldinn og vort vesæla Lif i Heimenum er ecke ødruvise asigkomid enn sem eitt olgufullt Haf. Þviad eins og Hafid er alldrei kyrrt, helldur hrærist sijfelldlega med Vinde og Bilgium, so er og voru life þannig hattad medan vier lifum i Heimenum / og eins er sialfum Heimenum hattad, þegar Madur vonar ad hann mune sem best niota meiga nockrar Rosemdar þa kemur einn hrædelegur Stormur Þreingingánna fyrr enn mader veit af, sem keirer uppa eins Lijkama og Sal, ecke nema Oroseme og Armædu, sem varir so leinge Lijfid tilvinnst.

Og lijka sem Siafarhafid fellur ut og ad, og er alldrei kyrrt, rennur stundum framm, stundum aptur i burt, so er einnig varid þvi tijmanlega: þad kemur snarlega, og snarlega fer þad burt aptur, nu rennur þad til vor, nu fra oss. Og eins og þar er ein hulinn og heimugleg Orsøk til þess, ad Siorinn fellur ut og ad, so er og oll ummbreiting a Mannsins Høgum og efnum af leynelegu og heimuglegu Guds Rade, hver ed seigir; Eg em, Drottinn þinn Gud, sem hrærir Hafid, so ad þess Bilgiur upp-kiota Es. 51. 15. hvarum David og so talar Ps. 107. v. 15. seiganda: Nær ed hann

Drott-

(Drottin) talade, hreifde sier Stormvindurinn sa ed Olldurnar upphof. þad er þad sem Syrach seiger i II. C. 14. Allt kemur af Gude, Hamingia og Ohamingia, Lif og Daude, Fatækt og Audæfe.

Eins og oll Votn verda beisk og Sollt, þegar þau koma i Sioinn. eins verdur allur Sætleike þessa Heims, Unun, Agiæte, Vellyst, Æra, og Rikdomur; (hverfu ferskt, sædt og ununarlegt þad vatn syniſt ad vera) Mannskepnunum umm siider beiskur og salltur, og þeir sem stola ofmikid þar uppa, missa siina sætustu og Himnesku Huggun, og drukna i Beiskiu þessarar veralldar Hrædslu og Hrigdar.

So sem i Sionum eru stor Sandfioll, Skier og Riflar eda Bodar, a hverium Skipinn optlega steita, verda fost, brotna og sockva: eins steita og margir i Sio þessa Heims, a Sandhædum Agyrndarinnar og Rikdomsins, verda fastir a þeim, og komast ecke þadan firrenn þeir forganga, kafna og drukna, sockva og tortinast ad ollu leite.

Liika sem Siafarhafid kastar fra sier ollum Daudumm bukum, og helldur eingum af þeim i sier; eins spytir og keyrir Jordenn oss framm af sier, ad siiduſtu hun hverke getur halldid oss leinige nie vill; þessvegna skulum vier i tijma

keyppast epter einne Godre og ohulltre Hofn a Lande lifande Manna.

Eins og Madur villist a Sionum̃ firer utan. Segulsteinsins Hialp, og getur ecke ratad pa riettu leid; Seigulsteinnin snyr sier ætid eptir Himnenum, so kunnum vier og i þvi osityreiata og skelfelega Hafe þessa Heims, fyrir utan þann himneska Magnet og Segulstein, sem er vor Frelsare Christus, hver ed snyr vorum Hiortum til sijn, og dregur þaug burt til Himinsins; ecke ad hallda vora retta Leid, og na þeirre Sælu hofn a voru himneska Fødurlande, helldur meigum vier vilast i Hafe þessarar Verralldar, og tortinast.

So sem þad er og so i Siafarhafenu eitt otruanlegt Diup, hvert ed einginn Madur fær ransakad, so ad þar fyrir verdur sagt vid Job. Job. 38. 16. hefur þu ofannkomid til Haffsins Grunna, og geingid i Diupsins Fotsporum. Lijka so er Diup vorra Synda, Eimda og Armædu otruanlegt. þvi seigir David i Ps. 130. 1. Burtur Diupenu hropa Eg Drottinu til þijn. Item i Ps. 42. v. 8. þijn Vatnsfoll dynia þadan, so ad eitt Diupid hier fram, og annad diupid fossar þar fram, allar þinar Vatnsølldur og Bylgiur ganga yfir mig: hvar med hann gefur ad merkia ad þad eina Diup vorrar Vesælldar medan vier lifum riettar hond sijna ødru, og vort Lijf er

sifelld-

sifelldlega upfyllt med Armædu, og bliifur oss jafnan, eitt Angistar og Sorga Haf, yfir hvørt vier eigum ad fara.

Enn a mote þessu voru Synda, Eymda og Besælldar-Hafe, hofum vier, hvarfyrir Gud vere lofadur, eitt Nadar-Haf ad hallda oss til; sem er rikuglig Huggun Guds i þessare vorre Eymd og Armædu: og þessa Huggun sem er tekinn af Liiking Siafarhaffins, finnum vier, medal Annars, ad vera fernslags. Su fyrsta Huggun er, ad Gud hefur, þar amot, opnad og uplokid fyrir oss þvi stora Diupe sinnar Nadar og Miskunar, sem Prophetenn ad ordekemst: Hann mun miskunna oss aptur ad nyu, nidur troda vora Misgiorninga, og kasta ollum vorum Syndum i Haffins-Diup. Mich. 7. 19. og liika sem allir Egyptskir sem veittu Israels Bornum Eptirfør, drucknudu og tortinduft i Hafenu Rauda Exod. 14. v. 28. so eiga allar vorar Syndir ad dreckiast i Blodshafe Christi, og einginn af þeim epter verda þviad þott Syndarinnar Haf sie diupt og botnlaust, þa er Guds Nad og Christi Forþienista en þa dypere og grunlausare, hafande olldungis eingan Mælir nie Enda.

Onnur Hugguninn er su, ad Gud hefur optsinnis giort i Vatnenu stor Undur og Frelse, og ad Herran Christus hefur ætid komid siinum

Læresveinum til hialpar, þa þeir voru i naud staddir a Hafenu; so sem þa hann var a Skipe med þeim, og þad kom a einn hrædelegur Stormur Matth. 8. v. 27. so og þa hann geck a Sionumm um Nottena, og rette Petre Houdena sem ætlade ad sockva, Matth. 14. 30. Þviad eins vill Christur vera hia oss; þegar vier erum staddir a Eimdanna og Motlætesins Sio, og frelsa og hialpa: hann opinberar sig ætid fyrir oss i vorum Krosse og Motgange, lætur sia sina Nalægd, Hialp og Huggun, og auglysir sig sem einn Naudhialpara; þvi seigir hann hia Es. 43. 2. Nær ed þu geingur i gegnum Votninn mun Eg hia þier vera, so ad Vatnsfollinn skulu ecke dreckia þier.

Su þridia Huggun verdur utmalud af Prophetanum Sacharia C. 14. 8. med þessum Ordum: a þeim Tijma skulu rennande Votn fliota af Jerusalem, helftinn i Sionum mot Austre, og aunnur Helftinn til þess ytsta Hafs, og þad skal vera bæde Sumar og Vetur. Til þess hins sama lytur og Prophetin Ezechiel Cap: 47. v. 8. 9. þar hann seigir: ad hann sa Vatnid renna utaf Musterinu mot Austrenu uti Siafarhafid, og þegar þad kom uti Hafid þa vard Vatnid i Hafenu Heilsusamlegt. Ja! allt þad sem hrærer sig, hvar þessir Vatnsstraumarner koma, þad skal lifa, og þad skal hafa miøg marga Fiska, og allir skulu þeir lifa, og heilsusamlegir verda, hvar ed þesse Vatnsstraumur hann kemur. Þetta hefur þa Þiding ad Guds Nadar

og Huggunar uppſpretta/ſkal fyrir þañ Heilaga Anda vera yfirgnæfanlig i Predikun Evangelii/ og a ad gioraKroſſins ogMotlæteſins Haf ſætt/ heilnæmt og Gott ollum angrudum Hiortum/ ſo ad þad Edla Motgangs-vatn ſkal ecke verda þeim ad þvi beiſka Daudans hafe/ helldur ad þvi heilnæma ogSaluhialplega Lijfſins Vatne/ og þad er þad ſem Spamadurinn talar umm eptir Reynſlunne Pſ. 94. 19. Marga hugar hrelling hafde eg i minu Hiarta, en þijnar Hugganer gloddu mijna Salu. Su Fiorda Huggun a mote þvi geyſande og olgufulla Hafa Heims þeſſa/ er þad ſem vier verdum amintir umm med þeſſum ordum Davids i Pſalm. 65. 8. Drottin/ þu ſtillir Grenian Siafarins, grenian Bilgnanna, og þann ædegang Þiodanna. Þegar Þiodernar verda uppvægdar/ Blodgyrugar/ æda og olga eins og ſa olgufulle Sior/ þa er hvervetna otte og ſkelfing fyrir Strijde og Foreidſlu; enn Gud getur ſtillt þad alltſaman med einu Orde/ eins og Herrann Chriſtur haſtade a Vindinn og Sioenn, og ſtillte hann med einu orde. Matth. 8. 27. ſo ad vier meigum priſa Gud/ ſeigiande med David Pſal. 93. 4. Bilgiurnar i Hafenu, eru miklar og þiota upp ofurlega, enn Drottinn i upphædunum er enn þo mejre.

# Cap. VI.

## Umm þau lifande Diir a Jørdunne og Mannsins Vegsemd.

Gen. 1. v. 24.

Og Gud sagde Jordin framleide Kvikende, sierhvert eptir sine Tegund, Fienad, Skridkvikende, og Skogdiir jardar, hvort epter sinne Tegund, og þad skede so.

Psalm: 104. v. 21.

Þau enu ungu Leonen greinia eptir Bradenne, og leita sinnar Fædu af Gude.

Hinn Viise i Spekinnar bokar 7. 20. 21. hrosar þvi, ad hann vite natturu þeirra tomdu og otomdu Dyranna; og seigir, ad Spekinnar Ande hafe kennt honum þviliikt, af hveriu er ad rada, ad þviliik nakvæm Þecking a øllum Dyrum, er einn sierlegur Partur af þeim Natturlega Viisdome. Þarfyrir lesum vier og so, ad þegar Almattugur Gud var buinn ad skapa allrahanda Dyr a Jørdenne, og allskins Fugla undir Himnenum, sende hann þau til þess Firsta Manns Adams, ad hann sæe fyrir, hvørsu hann kallade þau, þviad eins og hann kallade þau þa skylldi þau heita: so gaf Madurinn allrahanda Fe-

Fenade og Fuglum Loptsins, og so allra handa Dyrum a Jordunne, sierhveriu sitt Nafn. Gen. 2. v. 20.

Þannig vard Adam siinum Skapara til heidurs, ad lata þann Viisdom siast sem hønum var i Skøpunenne ingefinn. þarfyrir vardhann fyrst ad skoda Guds Visdom og almætte a þeim margskonar lifande Dyrum, og hversu dasamlega Gud hafde skapad sierhvert þeirra med sierdeilis Skøpun, Mind, Vexte, Asynd, Lit, Raust og ødruþviliku. af sliikum Kenneteicknum og Audkienningar Merkium, dæmde hann strax epter þeim Viisdome, sem Gud hafde hønum gefid, um Ed e, Natturu og Eiginlegleika hvers Dyrs; gaf so hveriu einu Nafn eptir þess Art og Eigenlegleika; hvert Nafn og so i sier innehielt sierhvers Dyrs, Edle Natturu og Eiginlegleika og til þviliikra Eigennlegleika sa Adam og so, þa hann kallade Evu karlinnu, af þvi hun er sagde hann, af Karlmanne tekinn Gen. 2. v. 23. og ad hun var tekinn af Mannenum, eda af hønum sialfum, visse hann klarlega, af þeirre Speke sem Gud hafde gefid hønum; jafnvel þott Gud lete fastann Svefn falla yfir Manninn, þegar þad skede / og Eva var bygd af hans Rifbeine. þviiliiks Eiginlegleika þiding hafde hann fyrir sier i Nafnenu, er hann sidan kallade hana Evu. þviad þad skede til ad

merkia ad hun være Moder allra lifendra sem Moses seigir.

Enn so vier komum aptur til Dyranna, þa synde Gud ecke Adam einasta Eiginlegleika Dyranna, helldur synir hann þa einnig oss i sinu orde, so ad vier og so lærum ad þeckia Guds Almætte og vitsku; þarfyrir stendur J Jobs Bokar 17. C. 7. 8. Frettu Kvikfed ad, og mun þad keuna þier þad, og Fuglarnir Himinsins munnu seigia þier þad. Edur talar þu vid Jordena, og mun hun kenna þier þad, og Fiskarner i Sionum munu framtelia þier þad. Og verda oss fyrer sioner sett imisleg Dyr sier i lage, her og þar i Ritningunne. Storkurin og Svalann sem formerkia þeirra tijma Jer. 8. 4. Uxinn og Asninn sem þeckia sinn Husbonda og Herra Es. 1. v. 3. Rafna Ungarnir sem kalla til Drottins Psal. 147. Job. 39. v. 16. Storkurinn eda Strutzfuglinn, sem lætur siin Egg a Jordena, og verdur hardbyll vid sina Unga. Dufur, Turteldufur, Hinder og Radyren, J einnig Referneri Salom. Løfkvæde. Hiorturinn sem kallar eptir ferskn Vatne Ps. 42. v. 1. Hindin sem arla var veidd Psal. 22. v. 1. Mavrinn Ordsk. 6. v. 6. Orninn med endurnium og Vidhressing sinna krapta Ps. 103. v. 5. Es. 40. v. 31. Høggormurinn og einn daufur Eitur-Ormur sem tilbyrgir sitt Eyra; so ad hann heyre ecke Hliod Tofrarans. Ps. 58. v. 5. Basiliskus og Konguloar vefur Es. 59. v. 5. Drekarner sem retta Briostinn ad, sinum Ungum og gefa þeim ad

suga

ſinga: Harmgr. Jer. 4. v. 3. leoned, ulfurinn, Pardus og onnur (Dyr) ſem eru ſend til ad vera Mannenum til Straffs Jer. 5. v. 6. Eſ. 11. v. 6. allur ſa 39 Cap: i Jobsbok, og nockur partur af þeim 104 Pſalme, er nærre þvi ſem Guds Dyra gardur, og giorir hart nærre ecke annad enn ad ſyna oſſ ſier i lage margskonar Eiginlegleika Dyranna, og hverſu daſamlega Gud hefur ſkapad og myndad þau.

J þvi Nya Teſtamentenu verdur oſſ ogſo i ſama mata viſad til margra ſierlegra Dyra. Chriſtur viſar oſſ til Titlinganna, af hverium einginn fellur a Jordu an Guds Vilia Matth. 10. v. 29. Hann talar og ſo Matth. 23. v. 37. um Forſialegleika Hoggormſins, og einfelldne Dufunnar It. umm Hænnna ſem ſafnar Ungum ſijnum undir Vænge ſier. ibid. Cap. 24. v. 28. um Ernena er ſafnaſt þangad, hvar hellſt ſem hræder. Item Cap. 15. v. 22. Um Hunda er eta af Molum þeim ſem detta af Bordum Drottna þeirra. Hann framfærir og Saudena med þeirra Natturu Joh. 10. 11. 27. 28. Einnig talar hann umm Hoggorm, ſem Faderen bydur ecke Synenum i ſtadinn fyrir Fiſk. Luc. 11. 11. 12.

Þad er og ad athuga ad ſialfumm vorumm Drottne og Frelſara Chriſto verdur ſakir hans Hogværdar og Þolinmæde lijkt vid Lamb Eſ. 53. v. 7. It. ad Heilagur Ande Opinberadiſt

yfir

yfir honum i Dufulijking, Matth. 3. 16. þvi ad Dufan er einfolld og hefur eckert Gall. Ezechias seigir og 38. v. 14. Eg stunde Lijka sem Dufa, þviad Heilagur Ande talar fyrir Guds Born i þeirra hiortum med ommræd anlegre Andvarpan Rom. 8. v. 26. Þau fiogur Andlegu Dyrinn i Ezechiels Spadoms bokar 1 C. 10. v. og Opinb. 4. 6. 7. voru ad Asynd lijka sem einn Madur og eitt Leon sem einn Uxe og ein Orn. og verdur oss med þeim eptir nockra Meining fyrirmindadar og afmaladar fiorar vigtugar Framkvæmder og Athafner sem heira til Embætte: nefnelega hans Manndomstekning, hans Daude og Pijna, hans Upprisa og hans Himnafør.

Um Leonsinnuna segia menn, ad hun fæde sijna unga dauda, og ad hun uppvekur þa og lifgar med þvi mote, ad hun rekur up eitt sterkt Hliod: þannig verdum vier allir a andlegan hatt daudir fæddir, þar vier fædunst i Synden- ne, og erum eptir vorre firstu Fæding og Naturu Reidennar Born Eph. 2. v. 3. Enn þad sterka Leoned af Juda Ættkvist sem hefur yfirunnid, giorir oss fyrir vollduglegt hrop sijns Heilaga Ords Andlega lifande, og ad Guds Bornum, þad mun og lata sina Raust heyra, a efsta dege, fyrir hveria ad allir daudir menn skulu aptur Verda lifande Joh. 5. 25.

Yfir-

# Yfirvegun nockra Orda af Ps. 65. Um Guds Fyrirhyggiu.

Latum oss yfirvega Guds dasamlega Fyrirhyggiu med hverre hann vidhelldur ollum Skepnum, nærir þær og forsorgar. Þar um talar hinn Heilage David so i Psalmenum 65. v. 3. etc. Þu heyrir Bænernar, þar fyrir kemur allt Holld til þijn, Heyr þu oss eptir þinne furdanlegre Rettvise, Gud vor heilsugiafare, þu sem ert Traust allra þeirra a Jordu eru, og þeirra þar langt i burt vid Siofarhafid. Þu giorir glad vært allt hvad sig hrærer, bæde a Morgna og so a Kvolld. Guds Uppsprettu Brunnur hefur noglegt Vatn. Med hverium huggunarfullum Ordum sa Heilage Prophete, vegsamar Guds Fodurlega Giæsku, ad hann miskunar sig yfir allt Holld, hvar um hann og seigir i Ps. 36. 7. Drottinn þu hialpar hverutveggium bæde Monnum og Fenade. Hvad ed skal upporfa oss, og hvetia til, ad vier med hugbreyste komum til hans med vorum Bænum og akollum hann. Med þessu Orde Hollde minnir Spamadurinn oss a vora Eymd og Naudþurft, a vort Hungur og Þorsta, og allan Mannlegan veikleika, og aknyr, ad Gud vilie lata sier slijkt til hiarta ganga. so og Aminnir hann oss einnig ad vier sieum ecke neitt, Þviad allt Hollder Hey og allur þess Gode er so sem Akursins Blomstur. Es. 40. 6.

Þar-

Þar næst huggar og David oss i þeim sömu ordum þar med; ad þar sie einginn Madur so forącktadur eda yfirgefinn, ad Gud ecke lyte til hans med nadurfullu Auglite: þviad hann seigir; ad Gud sie Traust allra þeirra a Jørdu eru, og þeirra þar langt i burt vid Siafar hafid; ja allrar Endemerkur Jardarennar, so sem uphafed hliodar eptir Høfudsprokenu. Gud ber eina Fødurlega Ummhyggiu fyrir øllum Mønnum, hvar hellst sem þeir eru, og hvert helldur þeir eru a Lande eder sio. Hann seigir og so, ad Gud giøre gladvært allt hvad sig hrærir, bæde a Morgna og so a Kvølld: þad er Gud fædir og sedur allt þad sem lifir, og giørir þad med þvi mote gladvært sem og Ste Pall seigir ad Gud upfyllir vor Hiørtu med Fædslu og fagnade Giør. B. 14. v. 17. AE! hvørsu er su gafa stor, ad Gud gefur oss ad niota þeirrar Fædu, sem hann giefur med Fagnade; so ad Madur getur a Morgnana byriad daginn og sitt Erfide med Glede, og med Guds Lofgiørd og Prijs, og geingid til hvijlu a Kvølldinn med Þacklæte.

Ad sidurstu færer og David orsøkena til þessa og seigir; Guds Uppsprettu brunnur hefur noglegt Vatn: þviad Guds Giæsku, Kiærleika og Ørlætis Uppspretta uthellir sier til allra Skepna, so ad hver Ma-

Madur, ja allar Skepnur meiga sækia þangad og ausa þar af þeirra Lijfs og Glede Dropa.

## Ummþeincking utaf nockrum ordum i þeim 104. Ps. um Guds Fyrirhyggiu.

Um þetta sama vitnast og so i Ps. 104. v. 27. þar ed so stendur: þau, þad er adskilia Dyrinn, vona øll uppa þig, so ad þu gefur þeim fædslu á sijnum tima. hvernig þa? skilia þa þau skinlausu Dyrinn ad Gud ellur þau og forsorgar med Fædu? ja vissulega. þarfyrir stendur i þessum Psalme v. 21. þau enu Ungu Leonenn sem grenia epter Bradenne, leita sinnar Fædslu af Gude. þad skedur þegar brestur og naudþurft Natturunnar utkrefur þad af Gude, ad þau skule fa Fædu. Neyd og Þreinging Natturunnar er Hrop þeirra Skinlausu skepnanna til Guds og þeirra Eptirbid eptir hans Hialp, þad er su Forleinging allra Skepnanna og Kvide, umm hveria talad verdur i Pistlenum til Rom. 8. 22. og med þessum Kvida og Forleinging, þeirra hinna mallausu skepnanna, hrærist og so Gud, so sem sa ed vidhelldur Natturunne, til ad gefa þeim Fædu. þviad þegar Natturann lijdur Naud, þa viknar sa vid og hrærist af hverium hun vidhelldst. Nu skyllde

Madur hugleida hversu otelianlega margar og margs hattadar skepnur, ad eru i Loptenu, a Jordenne og i Siafarhafenu, og ad Gud ecke alleinasta hefur þeim øllum fædu skapad til naudþurftar, helldur og so til glede og Fagnadar, ja ad hann hefur gefed sierhveriu af þeim rikuglega Fædu utaf fyrir sig eptir þeirra Edle, og þad allt hefur hann giørt fyrir sina fødurlega Forsion og Ummhiggiu, og hefur Gud þaɲnig ecke gleimt nockru einu? hversu skyllde hann þa hafa gleimt, ellegar kunnad ad forglejma Mønnunum, sem eru hans Mynd? Þad eru sannlega a Jordenne, i Loptenu, i Sionum og i Skogunumm langtum flejre Dyr, enn þad eru Manneskiur a Jordenne; og enn þa hefur Gud ecke glemt eda yfir-gefid þad audvirdelegasta af nockrum þeirra, hvernig skyllde hann þa geta glemt eda yfirgefid Mannen? hvernig skyllde Gud þa kunna ad glejma þeim, hverier ed sierdeilislega lifa, hrærast og eru i Hønum; hverier ed sierdeilisslega, og a einn frastilinn mata lifa af Guds Krapte og Anda; Eg meina Mennena, um hveria þar stendur i Post. G. 17. v. 25. etc. Hann er eigi langt fra einum og sierhverium af oss, þviad vier lifum erum og hrærunst i hønum. ja vier erum af hans Ætt. Þarfyrir er þad omøgulgt, ad Gud skule gleima Mannenum. hvernig skyllde Gud

Gud geta þeim gleimt sem fyrir hans Krapt vid-helldst? Enn þad eru Mennernir, sem halldast vid fyrir hans Krapt; þviad hann ber alla hlute med sijnu kroptugu Orde, Ebr. 1. 3. og vidhelldur øllum hlutum, og þarfyrir eirnenn mønnum. hvernig skyllde hann geta gleimt þvi sem hans Hønd hefur giørt? Enn hann hefur ogso giørt Mannen, ja giørt hann a einn sierdeilislegan og frabæran hatt. þvi stendur i Psalmenum 33. 15. Hann hneigir allra þeirra Hiørtu; hann higgur ad allra þeirra Verkum. Item hia Spamannenum Es. c. 64. v. 21. Vier erum Leirenn; þu ert vor Leirkerasmidur, og vier allir erum Verkid þinna Handa. Og Job seigir 10. 9. Minnstu þo þess ad þu giørder mig af Jardarleyre, og þad ad þu munt giøra mig aptur ad Jordu. hvernig skyllde Gud kunna ad gleima þeim, sem hann med sijns Sonar Dauda hefur latid frelsa og endurleysa? þad hefur hann giørt mønnunum, fyrirhvøria Christur hefur lidid Dauda og Pinu. hvernig skyllde hann geta gleimt þeim, sem hann med sijnum Heilaga Anda hefur innsiglad? þad hefur hann og giørt Mønnunum, og so marga sem a hann trua, hefur hann innsiglad med Heiløgumm Anda Fyrirheitsins, uppa Dag Endurlausnarinnar Eph. 1. 13. Cap. 4. v. 30. Gud hlyte ad gleima sier Sialfum, og yfirgefa sig, ef hann skyllde gleima oss, og



yfir

ysirgefa: þessvegna, O Drottinn, vona allra Augu uppa þig, og þu gefur þeim þeirra Fædslu a sijnum tijma Ps. 145. 15.

En framar stendur i þessum Psalme um Dyrinn, Næred þu gefur þeim, þa samansafna þeir, næred þu upplykur þinne Hende, þa verda þeir med godu saddir. J þessum ordum verdum vier amintir, fyrst yfir høfud, umm Vidhalld Skepnanna og Dyranna, og ad þau safna saman þeirre Fædu sem Gud gefur þeim. Gud hefur inngefid og inplantad þad hverre Skepnu og Dijre, ad þau hafe vit a ad leita Fædunnar, ad safna henne og draga hana ad sier; hvad Gud hefur þessvegna giort, ad hann endurnære og med Fædu gladvært giøre, allt þad sem lifir, so ad Guds Giæska verde opinnber / og syne, hver Gud hann sie til ad giøra oss Mennena gladværa, sa ed elskar Lifid, og ecke alleinasta skapar, helldur og so gledur og kiæter sijnar Skepnur, ja allt þad sem sig hrærer og lifir. Ef Gud nu gledur og kiætir allt þad sem sig hrærir og lifir, eja, þa hefur hann ecke skapad oss Mennena til sifelldrar Sorgar, helldur vill hann unna oss stundum hossamlegrar Glede i Maltijdum og Samsæte i Otta Drottins; vill og ecke ad vier sifelldlega syrgium og sieum hriggver, helldur ad vier og so þessa millum sieum glader. Hann mun ei æfenlega

lega þratta, og ecke eyliflega Reidenne hallda. Þſ. 103. v. 9. helldur gefa oſſ Fegurdarprydе fyrir Oſkuna og fagnadar Vidſmior fyrir Hrigdena Eſ. 61. 2. Þarfyrir bidur og Moſes i Pſ. 90. 15. Drottinn, gled oſſ nu aptur, eptir þad þu hefur plagad oſſ ſo leinge. eptir þa longu oluku ſem vier hofum þolad, og Drottinn var Gud ſie oſſ vingiarlegur. Han hefur og ſialfur ſierdeilis lofad og fyrirheitid ad hans Þionar ſkulu eta, og af godu Gede kiætaſt Eſ. 65. v. 13.

Þvi nærſt verdum vier aminntir i þeſſum ordumm Guds rika Orlæte, ad hann ecke fæder ſijnar Skepnur med Naumleika, helldur ørlatlega og yfirgnæfanlega; þvi her ſeigir: Hana gefur þeim ad ſamanſafna, nær eð hann upplykur ſijne Hende, þa verda þeir med godu ſadder. Gud fæder ſo ørlatlega, ad þar umm verdur ſagt i Pſalmenium 65. 12. Hans Fotſpor driupa af Feite. Allar Skepnurnar hafa ſinn tijma, a hverium Gud mettar þær rikugliga, ſo ad þær verda þar af feitar. Nær Fuglarnir i Loptenu, Dyrin i Skogenum, Fenadurinn i Haglendenu, Sauderner a Grashaganum, Fiſkarner i Sionum hafa ſin Holld, og eru lijka ſem þeir være alder, þa driupa ad vijſu Guds Fotſpor af Feite, og þa er og þeirra Tijd, a hverre Gud gefur oſſ þetta i hendur. Þetta er Frammſyne þeſſ vijſa Husfodurs / og þeſſ ypparlega Radsmans Fyrir-

sion þannig sorgar Gud fyrir sijnum hungrude Børnum.

Ad sijdustu stendur i þessum Psalme; hylur þu þitt Aud'it þa skelfast þeir, þu i burt tekur þeirra Andar-dratt, þa fyrir farast þeir, og verda aptur ad Dupte. Þu ut'ætur þui Anda, þa skapast þeir, og þu endurnyar Mynd Jardarennar. J hverium ordum vier heyrum i hveriu advort Lif og allra skepna sie innefalid; sem er i Guds Anda. Þad er Ande Guds og Kraptur, sa ed giørir og vidhelldur ollu, hvered og er i ollum hlutum. umm hvørn þad stendur og so i Spekinnar Bokar II. C. v. 27. Cap. 12. v. 1. Þu sem elskar Lijfid, og þinn oforgeingelegur Ande er i ollu.

Fyrir þennann vidhalldande og lifande giørande Guds Krapt, eru ecke einungis allir hlutir i þeirre firstu Skøpun skapader, helldur vidhalldast allir hlutir fyrir hann enn nu i dag, og þesse lifgande Kraptur er þad Ordid Guds fyrir hvert ad Gud skapade alla hlute; þviad Himininn er fyrir Ord Drottins giørdur, og fyrir Anda hans Munns allur þeirra Her; stendur þar i Psalm. 33. v. 6. og i Gen. B. I. v. I. verdur oss synt ad Gud skapade alla hlute fyrir sitt Ord: og þad Ord sem Gud brukade þar til, er en þa ecke lidid undir lok, hefur og ecke helldur verid, einungis tomt Hliod, helldur er þad Ordid Lijf ollum skepnum: so ad þad hefur ecke burt vikid

frá

fra þeim hlutum, sem skapader eru, helldur hefur þad blifid hia þeim, og er einn vidhalldande Kraptur i øllum hlutum, so ad Paulus seigir þessvegna Drottinn ber alla hlute med sinu kroptuga Orde Ebr. 1. 3. Þarfyrir er Kraptur vors Lijfs af Gude og hans Orde. Eins og Skuggen hefur sina Veru af Trienu, so hefur vort Lijf sina Veru af Gude og hans Orde. Og nær Gud aptur burttekur þetta Ord Lijffins og Krapt fra Skepnunum, þa forganga þær, verda aptur ad Dupte þær verda þa aptur ad þvi, sem þær eiga ad sier, hvørt ad er ekert. Þa er Kiarninn burtu; og einungis Skurminn eptir: Eitt Ker eda Tunna dettur i sundur, ef ad bøndinn og Giarþernar sem eru utanumm þad, eru teknar af þvi: þannig glidna Skepnurnar miklu meir og detta i sundur, ja verda ad alls eingu, ef Gud svipter þær sijnu Orde, og Krapte sinnar Nærveru øll Verølldinn er full af Gude. Gud sa sem er yfir ydur øllum, og fyrir ydur øllum, og i ydur øllum Eph. 4. v. 6. hann er vort Lijf, og kraptu. vort Lijfs Ps. 27. 1. þvi seigir hann og i Devt. B. 3. v. 20. Elsked Drottinn Gud ydar og hlijded hanns Raust, og hallded ydur vid hann, þviad þar er Bitt Lijf undir komid og Binn langgiædur Alldur. Madur finnur oplega þegar honum gefst Huggun i sinne

Hormung, einn sannan Lijfsins krapt af Guds Orde: hvad synt er i mørgum stødum, utlagt og bevisad i minne Utleggingu yfir Psalltarann. Þvili/kur Lijfsins Kraptur er og so i øllum Skepnum, i þeim er Ord Skøpunarinnar. Þegar pad verdur aptur burttekid fra Skepnunne, pa hlytur hun ad deyia, Þetta Orded er Blessun og Aukning allra Skepna, med hveriu Gud giorir Asynd Jardarinnar nya, þar hann lætur hvert Ar getast og framkoma nya Averte og Dyr; so þad er nærre þvi sem Gud skape arlega eina nya Verølld med þvi ad hann endurnyar alla hlute. hvad ed og so er þad sem Drottinn hiet Noa eptir Syndafloded, þa hann ad nyu blessade hann og hans Børn, og medal annars sagde; so leinge sem Jordenn stendur, þa skal ecke linna Sad og Kornskurdur, Frost og Hite, Sumar og Vetur, Dag og Nott. Gen. 8. v. 22. og þesse Blessan, sem var gefinn Noa og hans Børnum, er og oss gefinn, og aller vier Lifum eñn nu i dag af henne etum og Vidhelldunst.

Her fyrir utan vilium vier taka oss orsøk af Guds dasamlegre Forsion og Fyrirhyggiu fyrir øllum Skepnum, ad athuga eptirfilgiande Puncta, i hverium hun ad nockruleite er innefalinn, og ad nockruleite hefur hun af þeim sinn Stud-

Studning. Sa fyrste er Guds Þecking og Vit-
ska. Gud þeckir oll sin Verk fra Eylifd seigir Paulus
Giør. B. 17. v. 21. Su oyfirgripanlega, oen-
danlega ogomælanlega Speke Guds Veit, sier,
og heyrir alla hlute, þessvegna kallast hann i
Ritningunne Sa lifande og sa siande Gen. 16.
v. 14. þviad þar er einginn skepna fyrir hø-
num osyneleg, enn allir hlutir eru nacktir og
ohulldir fyrir hans Augum. Heb. 4. 1. Lijka
sem hann og kallast sa lifande, ecke einasta ve-
gna þess, ad hann lifir fra Eylifd til Eylifdar,
helldur og so vegna þess, ad hann gefur ollum
hlutum Lijf.

Þad annad sem þar til heyrir, er Guds Fy-
rirhyggia, med henne elur Gud Onn fyrir ol-
lum hlutum, jafnvel og Fuglunum undir Himnenum
Matth. 6. v. 26. og 5. v. 45. og lætur sina Sol up-
renna yfir Vonda og yfir Goda. Hvørsu stora Ovir-
ding giorum vier þa ecke-vorum Allranadu-
gasta Fødur, þegar vier efum hans Forsion,
og truum ecke stoduglega nie vissulega ad
hann bere Ummhyggiu fyrir oss; fijrst
hann hefur þo ummsorgun fyrir ollumm
Skepnum, jafnvel og so þeim litilsiorlegustu,
og hvad mejra er, einnig þeim vondu. Þesse
Guds Fyrirhyggia er oss einnig ein stor Hug-
gun i Þreingiugumm og Motgange, þviad

fyrst vier vitumm ad Gud ber umhyggiu fyrir øllum hlutum, þa vitum vier og, ad þad ber eckert til i Verølldenne, an hans Tilhlutunar, Skipunar og Forsionar; og lærum þvi ad vera þolinnmoder, so vier ecke moglum a mote Gude, hellder truum stadfastlega, ad hann elur Onn fyrir oss, og sendir oss epter sinu orannsakanliga Rade og Dome til hins besta og hønum til dyrdar, allt þad motlæte sem oss ber ad høndum; hvert og þar fyrir kallast i Ritninginne Reide Drottins, so sem nær Micheas seigir Mich. 7.9. Eg vil bera Reide Drottins, þvi eg hefe syndgast a mote hønum. Hliotum vier og Luckn, Heidur og Nad, þa skulum vier og so vita, ad þad kemur fra Drottne, og ber oss ad þacka hønum fyrir hverutveggia, eins og sa heilage Job giorde, hann þackade Gude eins vel fyrir sijna Vanluckn, sem fyrer sijna Luckn; þvi sagde hann: Drottinn gaf, Drottinn burttok, lofad sie Nafnid Drottins, Job. 1.21. Og þess miklu helldur eigum vier þad ad giøra, fyrir þa søk ad Motlæted er oss hættu minna, en sem Medlæted. Madur hlytur sliotara Skada af þeim godu, enn þeim vondu Døgum og Motgangenum.

Þad þridia sem her ad hnygur, og i hveriu Guds Forsion yfir øllum skøpudum Skepnum stendur, er Almattur Guds og hans allstadar

Nær-

Nærvera: med hverre Gud er allstadar na-
lægur ollum Skepnumm helldur þeim vid og
stiornar; hefur Hiortu allra Manna i sinne
Hende, so ad hann kann ad hneigia, og beigia
þau hvert hann vill Ps. 33. 15. og þad rett
eins og vier med vorumm fingrumm beigum og
og tilbuum eitt litid Vax sticke. þessvegna sku-
lum vier allir vera ottaslegnir, hrædast i vorum
Þaunkum Ordum og Giorningum fyrir hans
guddomlegu Nalægd, Asionu, Augum og Magt,
og hugsa ad vier erum i Guds hende lijka sem
Leijrinn i hende Leijrkerasmidsins. Þott Gud
hafe jafnvel ressad oss, og brotid oss i sundur sem
eitt leir kierasmidsker, þa kann hann ad vidretta
oss aptur og endurnæra hia Jerimiam 18. v. 1.
etc. sundur ad hann hafe feinged þa Skipun fra
Drottne, ad hann skyllde fara nidur til eins
Leirkera Smids Huss, hvad hann og so giorde; og
skrifar hann þar um a þennann hatt: Eg geck
ofann i Husid Leirkerasmidsins, og sia þu, hann ervidade
þann sama Tijma a hiolenu, og sa Potturinn sem hann var
ad giora af leirnum, sundurbrotnade i hans Hondum: þa
giorde hann einn annann Pott aptur sem honum þocknadist,
og verdur su Utþijding gefinn yfir þetta; Ad Drott-
tinn tale skyndelega a mote einne Þiod og Kongsrike, þad
hann vilie uppræta sundurbriota og fordiarfa þad; Enn
ef þad snue sier i burt fra sinne Vondslu, þa skule hann ein-
nig lata sig angra þa ogiæfu sem hann hugde ad giora þvi,

og

og vilie uppbyggia og Grodur setia þad. Þott Gud nærreþvi sem sundurbrjte oss fyrir sakir vorrar Illsku; þa er hann samt Mattugur til ad lækna og hialpa oss aptur, þegar vier bætum Rad vort, og giorum Idran.

Framar hofum vier i þessu, þa Huggun, ad fyrst Gud er Nalægur, vidhelldur og stiornar ollum hlutumm, þa hefur hann eitt sierdeilis Auga, og sierdeilis Forsion a, og fyrir þeim, sem honum vidvikia. Hann er þeirra Vaktare, hann vakir yfir þeim Daga og Nætur; og þad giorir hañ so nakvæmliga, ad an hans Villia getur ecke eitt Har fallid af voru Hofde Matth. 10. 30. þeir sitia undir hans Skugga og Skiole, og hann helldur þeim vid og bevarar þa midt a medal þeirra Fiandmanna, So sem allvijda i Psalmunum sagt verdur.

Vier hofum og heraf þa Hugsvolun, ad nær vier optlega i vorre þianig og motgange vitum hverke hialp eda rad; þa veit þo Gud, sem hefur sendt oss þvilijkan motgang, rad vid honum, Hann er mikill af Rade og Mattugur af Giorninge Jer. 32. 19. þarfyrir skulum vier allir befala Drottne vora Veige, og lata Gud rada eins og Abraham giorde, þa hann atte ad offra sijnum Syne, og var fullviss um ad Gud munde ei ad sijdur fullkomna sijna Lofun og Fyrirheit um hann,

hann, ad hann skyllde verda ad einne mikelle Þiod.

Ad sijdustu þa uppvekur Guds Forsion i vorum Hiørtum, Truna, Vonena og Þolinnmædena. Dæme þar uppa hofum vier a sialfum Christo eptir hans Mandomlegu Natturu i hans Nidurlægingar Stande: þviad fyrst hann visse ad þad var so af Gude til sett ad hann skylde deya, þa var hann þolinnmodur i ollu þvi sem hann leid, og var sem eitt Lamb; hann lauk ei sijnum Munne upp; lika sem Lamb þad til draps er leidt Es. 53:10. so giørde David og leid viliuglega tiu ara Utlegd, og þar med margskins Spott og Svijvirding, einnig Fatækt og Orbyrgd; þviad hann visse ad Gud hafde alyktad, ad hann skyllde þad lijda, var og viss uppa, ad Gud munde giøra einn godan Enda a þvi, og sagde þar fyrir; Þu Drottinn ert Skiolldur fyrir mier, og sa sem mig til heidurs setur; og hann sa ed mitt Hofud upp hefur. Viervilium enda med ordum Onnu af 1. Sam. B. 2. 7. Drottinn giørir fatækann og rikann hann litelækar. og hann uphefur Drottinn deydir og lijfgar, færir nidur til Helvitis, og i burt kadan aptur.

Ann=

# Annar Partur þessa Capitula

## Um Mannsins Ypparlegleika eda.

(Hversu Madurinn sie ødrum Skepnum agiætare og, hafe meir til ad bera enn þær.)

Fyrer enn vier skilium vid þennan Capitula. vilium vier og so tala nockud umm Mannen, sem var skapadur af Gude sidastur allra hluta, og umm hans Yfirburde. Mennernir eru þær ipparlegustu af øllum synelegum Guds Skepnum; a hverium Gud hefur viliad hafa sijna sierdeilislega Velþocknan; so ad su ejlijfa Spekinn seigir þarfyrir: Min Lyst er hia Mannana Børnum. Ordskvidb. 8. 31. Fyrst allir hlutir eru og skapader fyrir Mannsins sakir, og Madurin er endir og þad ipparsta allra skapadra hluta, þa er hægt þar af ad rada, ad Mennernir hliota ad vera þær ipparlegustu og agiætustu Skepnur. Kirkiunnar Lærefedur seigia einnig ad Madurinn sie eitt Agrip ellegar ein stutt Summa og Innehald allra Skepna, og so sem einn litill Heimur. þarfyrir verdur þar af ad filgia, ad Madurinn hafe i sier allan þann Fullkomlegleika, sem er i hinum Skepnunum, og ad hann sie safnadur og samankominn i Mannenum. þad seigir sig og sialft, þvi hvad hellst sem er endir

og

og fullkomnun annara hluta, sem og eitt stutt Innehalld og þeirra Agrip, þad hlytur ad vera ypparligra og fullkomnara en þeir allir.

Blomstrenn a Jordenne, og þau grænu Haglønd og eingiar sem pryddar eru med margskins Blomstrum og Groda, eru ypparleg; Eikurnar i sijnum Bloma og Averte, og Skogarner, sem eru med þeim skrydder, eru og so ununarsamleger, listeleger og ipparlegir. Himininn sem er pryddur med Solu og Tungle, so og otal margar skinande Stiørnur, eru advisu einnig nærsta veglegar, ipparlegar og ununarfullar; Enn eptir þvi ad allur þesse Ypparlegleike, Agiæte og Ununarseme er skopud fyrir Mannsins sakir, þa verdur þad vissulega ad vera, ad Madurinn sie miklu ypparlegre, ununarsamlegre, og veglegre, so ad jafnvel Solarenar Ypparlegleike kemst ecke i jøfnud vid hann, lijkasem Fegurd og Pryde þess hins lijtilsiørligasta alldinis yfirgeingur Kongenn Salomon i allre sinne Dyrd, sem vor Herra Christur seigir hia Matth. 6. 29. so yfirgeingur Mannsins Ipparlegleike og Vegsemd ecke alleinasta þa utvortis Dyrd Salomonis helldur og so Ipparlegleika og Vegsemd, allra liliugrasa, Blomstra, Eika, Haga, og þad meira er Solarinnar.

Hvijlijkur Ippalegleike Mannsins fram yfir hinar adrar Skepnurnar, sieft og so, þegar Madur gaumgiæfelega fer ad skoda og hugleida Mannsins Sal: Verdur þa Pryde Fegurd og Ipparlegleike Salarinnar þeckt medal annars af þvi fagra Asigkomulage Mannsins Lijkama, hvad ed klarlega sieft, nær vier skodum og fyrir oss virdum einn frijdann og velvaxinn Mann, hvers deæleg og ypparleg Asynd snyr allra Augum til sin. Fyrst Lijkaminn, sem hefur sijna Asynd af Salunne er i honum byr, so sem Huse og Heimile Salarinnar, er nu so fridur vænn og ypparlegur, þa verdur og sialf Salinn, sem byr þar i og so ad vera ifrid agiæt, væn og ippar lig. þviad firir fagrann og ipparlegan Gieft hefur og Skaparinn byggt eitt fagurt og ipparlegt Hus.

So verdur einnig Vegsemd og ipparlegleike Mañsins Natturu, bevisud med þeim samastad, i hvern Gud i øndverdu sette Manninn, nefnelega Paradis, hvad ed var einn Lystegardur med allskins Unadsemd og Glede, hia hverium ad allur þesse Heimur med sijnum Fridleika er sem eckert adreikna. Þessvegna fyrst Stadurinn, i hverium ad Menernerner voru first latner vera af Gude, var so fagur, veglegur og ipparlegur, hversu miklu veglegre og ipparlegre

gre mætte sa þa ecke vera fyrir hvers sakir þesse Stadur var skapadur og plantadur.

Madur ma og merkia ypparlegleika Mannsins Natturu af þvi, ad, þeir Heilögu Einglar eru settir af Gude mönnunum til þionustu og varateektar; þvi ad spamadurenn seigir Eingill Drottins hann setur Herbudir i kringum þa sem hann ottast Psalm. 38. 8.

Sliikt hid sama siest ogso af Sköpun Mannsins þviad Gud hefur skapad Mannin eptir sinne Liikíng: og þa hann villde skapa Mannin radfærde hann sig vid sig sialfann þar umm. og su Heilaga Þrenning sagde vid sialfa sig: vier vilium giora Manninn eptir Mind og Liiking vorre Gen. 1. v. 26. þad er ecke einn litill hlutur, ad Gud þannig geck til rads, þegar hann villde skapa mennena, og ad Mennerner eru þarfyrir skapadir fyrir sierlegt og frabært Guds Rad. AE! hversu Heilög Radslögun ma þetta hafa verid. AE! hviliikur ypparlegleike og vegsemd verdur oss þar med synd i Natturu og Sköpun Mannsins: þviad vier lesum ecke, ad i firstu sköpun hafe Gud radslagad um̃ Sköpun nockurs anars hlutar, helldur alleinasta umm Manninn. Hann skapade Solena og Tunglid, hann skapade allan þann stora og mikla Heim, og talade einungis; verde so; og þad vard so. Enn þa hann villde ska-

pa Mennena, þa var þad ecke nog ad hann segde verde so, helldur radgadist hann þar ad auke um þad og sagde, vier vilium giora Manniun. Hann skapade allar hinar Skepnurnar med sinum Vijsdome og Almætte: enn Mennena skapade hann ecke alleina fyrir Visdom og Almatt, helldur og lijka fyrir Radslogun. Radsloguninn vard ad vera þar med, þviad þad atte nockud stærra ad giorast og þad sem var ypparligra eñ Sol, Tungl, Stiornur, Sior, Himin, Jord og allt annad. Þar fyrir er þad eiñ ifrid stor hlutur, ad Gud skapade ecke Mannenn an þess ad hann radslagade ei adur þar umm.

Enn þad er enn nu stærre hlutur ad Gud skapade Mennena og so eptir sinne Lijking: allar adrar Skepnur eru ecke nema Guds Fotspor, enn Madurinn er Guds eiginn Mynd. Su Heelaga Þrenning seigir ecke, vier vilium giora einn Mann, sem sie lijkur Solenne, eda lijkur Tunglenu, eda lijkur Einglunum; helldur; vier vilium giora Manninn eptir Mynd og Lijking vorre. Hvør munde ei vilia hallda ad su Skepna være hin ypparlegasta fegursta og fridasta, hver ed giord er ecke einungis fyrir eitt sierlegt Guds Rud, helldur og so rett epter hans eiginn Jmind, so sem þess ipparsta visasta og fegursta Hag-

Hagleiks Smids og Meistara, ja so sem þess vendanlega og Eylifa Goda.

Guds Mynd vard ad inngefast Monnunum utþrickeliga og innplantast i þa, til þess ad Guds Giæska, Majestet, Dyrd og Speke skeist a Mannenum, so sem i þeim allra skiærasta Speigle alls þessa, hver ed a þann allra klarasta mata sette oss Skaparann fyrir sionir; og sie Gud sialfur su allra ypparlegasta, fegursta og dægelegasta Vera? þa er audradid ad so leinge sem Madurinn bijhelldur Guds Mynd i sier, þa hlytur hann og eirnenn ad so micklu leite ad vera yfrid ypparlegur, ununarsamlegur og dægelegur/ja ipparlegre ununarsamlegre og dægelegre en nockur af øllum hinum Skepnunum sem ecke eru skapadar eptir Guds Mynd.

Og fyrst ad Guds Mynd hefur einkanlega sinn Stad og Heimile i Mannsins Sal; þa siest og so af þvi, ad so leinge sem hun ber Guds Mynd i sier, þa er hun og sierilage su allra fegursta yndislegasta og ypparlegasta Guds Skepna.

Af þessu siaum vier einnig, med hversu store Kostgiæfne Mannenum birar þad ad varast, ad hafi ecke med nockrum ohreinlecka fleckeMynd Guds sins Skapara; þviad slijk fleckun kann ecke adske an þess ad skaparinn sie storlega forack-

tadur, og su stora Hatign Guds sie storum til reide reitt. Og fyrst Gud fyrir sijna Mynd he-fur sett Mennina til hinnar stærstu Æru og Virdingar, uphafed þa og framed, til þess hædsta Gofugleika þa er það Mannenum ein stor skomm og Vanæra, ad hann med sijnum holldlegum Saurendumm giørir sig fraskila vid slijkann sinn Heidur, Gofugleika og Virding. Ef ad ein Mynd, an Lijfs og Anda, sem giørd være af þeim hinum ypparlegasta og hagasta Smid og Meistara, til ad þijda og ut-vijsa Meistarans eiginlegleika, hafde Skil-ning, þa munde hun ølldungis ecke giøra sinum Meistara og Smid neitt a mote, so hun ecke miste sina Fegurd, helldur mætte hallda henne, til Lofs Priss og Heidurs sijnum Meistara og Smid. Skylldum vier þa sem høfum þeigid Vit og Skilning, og erum skapader af þeim all-ravijsasta Gude til ad vera hans eiginn Mynd, og til ad merkia hans edla stand og guddomlega Eigenlegleika, ecke kosta kapps umm, ad vier eckert giørdum sem være vorum Verkmeistara Gude a mote, og kynne ad giøra oss vidskila vid hans allra ypparlegustu, allradæelegustu og allra unnarsamlegustu Mynd? Ættum vier ecke af fremsta megne ad taka oss vara fyrir ohreinleika Syndarinnar, hver ed rænir oss

slijkre

slijkre Mynd; og kappkasta ad fa æ og jafnan be-
halldid henne til lofs og heidurs vorum Ska-
para.

Minstu þess, o þu Manneskia, ad Gud he-
fur giort þig ad sinne dærelegu Mynd, Og fyrst
hann hefur þad giort skyllir þu þa vera so vit-
laus, ad þu med Synd og illsku villder sialf svip-
ta þig þessare so heilagre Mynd? vier getum
med eingu so smanad þessa Mynd, sem med
Syndenne og Illskunne: og med eingu getum
vier henne betur vidhallded enn med Mañdygd
og Radvendne; hvad og Heidnir-menn, enn
þo einnamest Plato, hafa latid sier seigia so sem
i Draume, og þessvegna sagt, ad Dygd Rad-
vendne og Guds Otte være su retta Fegurd
Salarinnar.

Enn so ad vier getum komist aptur til þess hell-
sta efnes skulum vier vita, ad þott þesse veglega
og fagra Guds Mynd, sie af Naturunne, vegna
Syndafallsins, tijnd og topud, og sie nu ecke ep-
tir af henne nema nockrar litilsiorlegar leifar og
spor, so ad vier erum þar fyrir af vorre Natturu
og Fædingu Reidinnar Born og framande fra Testamen-
te Fyrirheitesins Eph. 2. v.3.12. þa verdur hun
þo aptur endurnyud, fyrir Endurfædingena
og Endurnyungena i Christo JEsu: med hver-
re vier aptur a ny verdum hluttakarar i Guds

 Mynd

Mynd, og þeirre Guddomlegu Natturu, ođlunſtum aptur ađ nyu þann retta Salarinnar Ypparlegleika, Dæelegleika, og Friidleika af Gude; þviad Gud, eptir þviſem Kirkiunnar Læreſader Irenæus rett ſkinſamlega ad orde kemſt, er Mannſins Vegſemd, liika ſem Madurinn er Guds Giørninga, ſo vel ſem hanns viisdoms og krafftar ſa rette Verkſtadur; og þetta ſkedur ſierdeilis fyrir Guds Son, vorn Frelſara Chriſtum JEſum, fyrir hvern þviiliik Guds Mynd verdur vidrett i oſſ aptur i Endurfædingunne og Endurnyungunne, ſierdeilis; þviad Chriſtur er oſſ af Gude giordur, ecke einungis til Endurlauſnar, helldur og ſo til Visdoms, Rettlætis og Helgunar 1. Cor. 1. v. 29. Af þeſſu kemur Guds Mynd, og vorrar endurnyudu Salar Dæelegleike og Fegurd, þetta eru þau Klæde Hialpræðeſins og Mottull Rettlæteſins, hvorium Gud oſſ iklæder, um hver talad verdur Eſ. 61. 10. þar fyrir ſeigir og Ezechiel til Jeruſalems Safnadar þar um i C. 16. v. 14. Þiin Frægd blomrade medal Heidingianna, fyrir þinnar Fegurdar ſakir, ſem algiørlegana var fullkomnud, vegna þeirrar Pryde ſem eg ſeſte a þig. það er ſem hann villde ſeigia: fyrir miina Fegurd varſt þu ſo dæeleg; af minne Fegurd hefur þu þad alltſaman. Ef vier nu rett hugleidum ſliika vora Endurfæding og Endurny-

nyung, fyrir hveria ad Guds Mynd vidrettist aptur i oss, þa saum vier rett skilid þvilikan ypparlegleika, innvortis Fegurd og Vænleika vorrar Salar, sem hun fær þar af; þviad fyrir Endurfædingena og Endurnyungena, verdur hun eitt med Gude, med hans Syne Christo, og þeim Heilaga Anda; hun verdur ad Guds Barne, ad Guds Brude og Guds Hybylum, og effter þui hun verdur eitt med Gude, þa ødlast hun og so sina Fegurd af Gude, so ad Drottinn seigir þar fyrir hia Ezechielem, so sem vier høfum adur heyrt; Safnadarinns Fegurd var algiørlega, fullkomnud vegna þeirrar Pryde sem hann feste a hann. Mun su persona ecke verda ad vera all dæeleg, sem bæde hefur ødlast sina Fegurd, af þeim sem sialfur er su oendanlega Fegurd, er og þar ad auke ordinn eitt med þeim hinum sama, hver ad er su oendanlega outseigianlega og oyfirgripanlega Fegurd, og er einn Ande med hønum? Ef ad og so Børninn ødlast friidleika sinna Forelldra fyrir natturlega Fædingu, þvi skyllde þa ecke vor Sal fyrir þa andlegu Endurfæding, ødlast þa andlegu Fegurd af Christo, og erfa hana eptir hann?

Hvør villde og ecke medkenna, ad þad hlyte ad vera su fegursta og friidasta Skepna, hveria Guds Sonur hefur utvalid sialfum sier til Bru-

dar, og hana prydt og skrydt med sijnu Gud-domlegu Liose og skarte: þessvegna kallast og ein truud Sal rettelega Kongsins Dottir, sem er næsta dæleg hid innra, hun er klædd med Gullvefnar-Bordum. Ef ein oedalborinn Kvennpersona sem trulofast einum Edalbornum Manne, getur med þvi mote ordid Edla, og verdur klædd hinum allra skrautlegasta buninge; þvi skyllde þa ei vor Sal, sem trulofud er, þeim allra edalbornasta og fegursta Brudguma Christo, verda edla og vegleg?

Og eptir þvi ad Gud sa hinn allrahædste med hinne stærstu Lyst byr i Mannsins Salu, og hefur helgad hana sier til Bustadar/ ad hun skule vera Heimkynne Guds Fodurs, Brudarstofa Sonarins, sem er sa hinn allraveglegaste Brudgume, og Mustere Heilags Anda: þa getur þvi einginn a mote mællt, ad hun hlytur ad vera yfrid dæleg, og su dælegasta af øllum Skepnum; og first Gud seigir hia Spamannenum Ezechiel 16. C. 14. Ad hann sete Pryde a vora Salu, so ad hun sie fyrer hana algiørlegana fullkomenn. Hialpa oss Gud! o! hvad ein yfirmatanleg Pryde og Fegurd ma þetta vera! o hversu agiæter Gimsteinar, hvilijkir Dijrgripir, hvijlikar gullkoronur meiga þad verra, sem soddann einn mecktugur, Rijkur og dælegur Brudgume

me gefur sinne Brude? o hversu dasemleg er su Nad og Vinatta Guds vid vora Sal! o hvad stor Fegurd, kynne hun ad siast med lijkamlegum Augum, hversu villde hun þa draga-oss til sijn.

Annars eykst og so þesse fegurd jafnan fyrir Bænena og daglegt Samtal vid Gud, so ad vier verdum umbreittir fra einne Byrtu til Annarar, so sem af Drottins Anda 2. Cor. 3. 18. þviad hafe Asiona Mosis ordit fogur, Dyrdleg og skijnande, af þvi Samtale sem Gud hielt vid hann i faa daga Exod. 34. 33. þvi skyllde þa ecke vor Sal, sem an Aflats talar vid Gud fa miklu stærre Fegurd og lioma? hvarum fleyra skal sagt verda i þeim Odrum Parte þessarar Bokar sem nu eptirfilgir um Mannin sier i lage.

# Annar Partur Þeirrar Fiordu Bokar
## sem Talar sierdeilis umm Mannin

## Cap. I.

## Af Skøpun allra Hluta, og af Mannsins Sinne getur Madur radid og vitad ad Gud er ein eylif Vera og fyrir utann Upphaf, Mælir, og Enda.

Jerem: 32. v. 17.

O Drottinn Drottinn, sia, þu giørdir Himin og Jørd fyrir þinn hinn mikla Krapt, og fyrir þinn utriettann Armlegg, og þar er einginn hlutur omogulegur fyrir þier. Drottinn Zebaoth er þitt Nafn, mikill af Rad og Mattugur af Giørninge.

Spekinnarb. 1. 14.

Gud skapade alla hlute ad þeir skylldu verra i þeirra veru.

Gud er Upsprettann til Veru og Lijfs allra Skepna, og hann hefur gefid þeim øllum, og i þeim skapad þeirra Veru og Lijf. Þarfyrir var hann ein eylif vera og Lijf fyrrenn nockur Skepna var til, þviad annars hefde hann ecke kunnad ad gefa øllum Skepnum Veru og Lijf.

og

og þar af kemur og so þad, ad Gud er þad eylifa Lijf. Eñ so ad vier annars kunnumm ad koma til þess ad yfirvega Manninn, þa getur Madur og so, af Sinne Mannsins og Þaunkum alyktad, ad Gud ma vera oendanlegur. Mannsins Hugskot getur a einu Augnablike gripid og skilid Himin og Iord. Solinn hefur ad sonnu so hradt hlaup, ad hun hleypur i kringum þann stora Himin a Tuttugu og fiorumm stundum; en Mannsins hugskot giorir þad enn þa fliotara, og yfirgripur med Hugrenningu allar Skepnur a einu Augnablike, af hveriu þad filgir, ad Gud ma miklu helldur innelykia og yfirgripa alla hlute i einu Augnablike, og er þar fyrir oendanligur.

Hvad Gud nu er, þad er hann verulega. Hann er oendanligur, þarfyrir er hann ein oendanleg Vera; hann er og so eitt oendanligt Lijf, þvi ad hans Vera og hans Lijf eru ecke adgreind. Sökum þess þa, ad Gud hefur prydt Salu Mannsins med slijkum Skilninge og Visdome, þa hlytur hann miklu framar ad hafa einn yfirvættis storann Visdom og Skilning, og first allt þad sem er i Gude, er verulegt og eylijft, þa hlytur og hans Skilningur og Visdomur ad vera eylijfur og oendanlegur; þviad hans Visdomur er ecke adgreindur fra hans Oendanlegri Veru;

eptir

eptir hvi ad allt þad sem er i Gude, er hin stær-
sta innbirdis Eining, og getur ongvanveiginn
adskilist; hlytur þvi sannlega hans Speke ad
vera eins oendanlig og eylijf, sem hans Vera og
hans Lijf.

Fyrst nu Guds Speke og Visdomur er eylif,
og oendanleg, þa hefur Gud og vitad alla hlute
fra eylifd og lijka sem hans Vera er oumbreitan-
leg, og ohræranleg, og þarf ecke ad hræraſt nie
færast ur einum stad til annars: so er og hans
Speke, og þarf ecke ad hlaupa fra einne Ske-
pnu til annarar, ellegar ad þeinkia nu umm eina
nu umm adra, eins og vier aumir Menn, med
vorum Skilninge hliotumm ad giora: enn hann
skilur og veit alla hlutu undir eins, og i hans
skilninge er hverke nockud ummlidid ellegar til-
komande, helldur alltsaman nalægt.

Hvijad lijka sem Gud þarf einkis med tilsin-
nar Veru; so þarf hann og einkis med til sinnar
Vitsku: eins sem hann er af sier sialfum, so
skilur hann og alla hlute af sier sialfum. Og lijka
sem hann i einne oendanlegre Veru innelykur
allt; so yfirgripur hann og med sinne oendanle-
gre Vitsku alla hlute undireins, og hvern med
ødrum, þarfyrir er honum augliost og alkun-
nugt hversu margt Sandkorn i Sionum er, hversu mar-
gir Dropar i Regnenu eru, Syr. 1. v. 2. þarfyrir
fellur

fellur ecke einu Titlingur a Jord, ja ecke eitt Har af voru Hofde an hans vilia Matth. 10 29. Hann veit Daga Veralldarinar, allar Stundir og øll Augnablik Tijdarenar og þeirra Umbreiting, og eckert er hulid fyrir honum af øllu þvi sem er innelukt og innehelldst i Tijdenne, under Himnenum. þad er alltsaman skapad fyrir hans Almætte, og innelukt i hans oendanlegre Þeckingu a samt øllu þvi sem þad giorir, verkar, hugsar eda asetur Psalm. 139. 2. etc.

Eins er þui og so varid um Guds Magt, Krapt og Vellde; so sem og hans Vera, hans Lijf og Visdomur er oendanlegur og eilijfur, so er og hans Makt, Kraptur og Vellde eilijft. og eins og Madur getur eingu bætt vid hans Veru, so getur Madur og eckert lagt til hans Almættes. og eins og Madur getur ecke skipt hans oendanlegre Veru i sundur; so getur Madur og eckert teked af hans Almætte. og first einginn Skepna kann ad hindra hans Magt, þa er hann þessvegna almattugur. og þad alltsaman kemur þar af, ad hans Vera Lijf, Visdomur, Makt og Kraptur kann ecke adskiliast hvert fra ødru.

Cap.

# Cap. II.

## Af Skøpun allra Hluta kann Madur ad rada og vita ad Gud er sa ædste Gode.

Rom. 11. 36.
Af hønum og fyrir hann og i hønum eru allir hlutir.

Þegar allt þad goda sem til er a Himne, a Jørdu, og i øllum Skepnumm, er ad finna i einum alleina, þa er sa hinn same i hverium þad finnst, sa hædste Gode, og allt Gott. i Gude, hver ed skapad hefur alla hlute, er allt þad Gott, sem til er i øllum Skøpudumm hlutum og Skepnumm a Himne og a Jørdu; þviad allir hlutir hafa sina Uppsprettu og Uppruna fra hønum. Af hønum og fyrir hann og i hønum eru allir hlutir. Þarfyrir er Gud sa ædste Gode og allt Gott.

Hvad hellst sem er i øllum hlutum sier i lage, þad er i Gude olldungis fullkomid; þessvegna hver sa sem snyr sier til Skepnanna, og helldur sinu Hiarta fast vid þær, hann snyr sier til þess ofullkomna, og er sifelldt þurfande fatækur og oroligur. Enn hver sem snyr sier til Guds af øllu Hiarta, hann snyr sier til þess hædsta og fullkomna Goda, og hlytur einnig þad sama;

ia odlast i þvi sinn hædsta Fullkomlegleika, er ætijd rijkur i Gude / er Roligur og Sæll. Enn setie Madurinn sitt Hiarta til Skepnanna, þa finnur hann alldrei nie sær i þeim þann fullkomna og hædsta Goda. þessvegna eru allir þeir sem elska Heiminn oroliger og oluckugesinir bæde i þeirra Lijfe og Dauda þviad þeir hafa ecke þann fullkomna Goda, i hverium ad Salinn hefur sijna Roseme og hvilir.

# III. Cap.

## Madurinn er su ypparlegasta Skepna, og allar adrar Skepnur eru skapadar honum til Þionustu, enn hann sialfur er skapadur Gude til Þionustu.

Psalm. 100. 3.

Medkenned þad ad Drottinn er Gud, hann hefur giört oss og ecke sialfir vier, sier til Folks og til Sauda sins Hag-lendis.

Jafnvel þott þad sie stor Mismunur a skepnunum, þa eru þær þo allar giordar til ad þiona Mönnunum. þeir himnesku Lijkamer fra-

frammkvæma þeirra Verkanir i Elementunum, sem eru nidur undir þeim, og þesse Element gefa Avextenum a Jørdenne og i Sionuinn sijna Næring, Fædu og Uphellde. og sa Avoxtur giorir slijkt hid sama vid Dyrinn, og gefur þeim sømuleidis þeirra Fædu og upphellde. Dyrinn giøra hid sama aptur Mønnunum. þannig vidhelldur hvert ødru: eitt hialpar ødru. Þeir Kraptarner sem eru hid efra þiona þeim sem eru hid nedra: og þeir hallda allir saman i einne agiætre Samstemmu og Nidurradan, og þadsfedur allt af þeim tilgange, ad þeir hallde Eining og Vinattu vid Mennena.

Af þessu siest, ad Mennernir meiga vera hinar gofugustu og ypparlegustu Guds Skepnur, eptir þvi ad allar Skepnur eru settar af þeim sem alla hlute hefur skapad, til ad þiona Mannenum. Þar med verdur þier O Christinn Madur kendt, þar med verdur þu amintur uppvattur og afystur, til ad snua þier af øllu Hiarta til Guds, sem hefur skipad alla hlute þier til þionustu, so og til ad þiona hønum af øllum efnum Krapte og Mætte, eins og adrar Skepnurnar þiona þier af øllum sinum Efnum, Krapte og Mætte.

Nær Skepnurnar hafa lated i tie allt þad sem þær eru um megnugar, so ad Madurinn gete

hafst

haft not af þeim, ef hann annars hefur vitsmune til þess, þa hafa þær nad sijnu Mide og tilgange, ad so mikluleite sem Mannenum vidvijkur, og þa er eins og þær fyrst gefe sig til Rosemdar og Hvijldar, þegar þær hafa þad afrekad, og þionad Mannenumm a bestann hatt, so sem hinne hædstu og gøfugustu Skepnu Guds: af hveriu vier lærum ad Mennernir eiga og so þannig med øllum þeirra Verkum og Athøfnum ad leita sier hvijldar i Gude alleina, og snua øllu þvi sem þeir orka, til ad þiona Gude med; eins og hinar adrar Skepnurnar neyta allra sinna Krapta og Efna til ad þiona Mønnunum: Hvjad eptir þvi allar Skepnur kepast vid og flyta sier til ad þiona þeirre allra ypparlegustu Skepnu, medal þeirra; þa være þad gangstædt allre Natturunne, og øllum skepnum, ef ad mennernir, sem eru su ypparlegasta Skepun skylldu ecke þiona þeim einasta Gude, so sem þeim sem er mikluædre og tignarlegre enn allar Skepnur.

## Cap. IV.

## Ad Gud hefur skapad Mennena eptir sinne Mynd, vegna þess, ad hann vill hafa i þeim sina sierlega Lyst og Velþocknan.

Ordskvid. 8. 31. Min Lyst er hia Mannana Bornum
Psalm. 104. 31.
Drotten hefur þocknan a sinum Verkum.

Sierhver Giornings-Meistare elskar þad hann hefur giort, og hefur siina velþoknan a þvi; þviad hefde hann ecke siina Velþocknan a þvi, helldur hatade þad, þa hefde hann ecke giort þad. Gud sa alla hlute þa sem hann hafde giort, og sia þeir voru harla godir Gen. 1. 31. og siest þar af ad Gud hafde Velþocknan a øllum siinum Verkum, og jafnvel og so a þeim sem ecke voru giord eptir hans Mynd. Fyrst Gud hafde og so Lyst og Velþocknan a þeim, medal hanns verka sem hann þo ecke hafde skapad eptir sinne Mynd; þa hefur han miklu framar siina List og Velþoknan a Mønnunum hveria hann hefur skapad eptir sinne Mynd.

Þess lijkara sem nockud er einu þess betur gediast Manne þad. Einn Fadir hefur stærre Glede af sinu Barne, hvert ad er jafnrar Veru med honum, helldurenn af þvi Verke eda giørninge sem hann getur giort; so sem af einu Huse, er hann einhverstadar byggir; eda ødru þvilijku sem hann giorir. Sokumm þess þa, ad Guds hædsta Lyst og Velþocknan er a þvi, sem er hans Mynd og Eptirlijking; og hans Mynd var ecke ad finna medal hinna annra Skepnana,

na, þa skapade hann þessvegna Mennena eptir sinne Mynd, ad hann giæte haft siina ædstu velþocknan a Mennunum.

Eptir þvi þad er og Sameining og Samfielagskapur med þeim, sem eru hver ødrum lijkir þvi hvad elskar sier lijkt: og Gud hefur skapad Mennena eptir sinne Lijking og Mynd: þa seiger þad sig sialft, ad Gud verdur ad hafa Lyst og Velþocknan a ad vera i Sameining og Samfielagskap Mannanna, og vill ad Madurinn skule hallda sier til hans, hafa Sameining vid hann, og forlysta sig i hønum. Og fyrst Gud er sa ædste Kiærleike, þa hefur hann og feiginn viliad med deila ødrum allan sinn goda, og lata þa og niota af þvi med sier, og hafa hluttekning i þvi, Enn skyllde hann giøra nockurn hluttakande i øllu sinu þvi hinu goda, þa vard þad ad vera sa sem var hønum lijkur, og gat og so ordid hluttakande þar i/ þviad lijkur tekur vid sier lijkumm, og ecke vid þeim sem hønum er ølldungis olijkur: so kunne og ecke nockur ønnur Skepna ad verda i þvi hluttakande utann su sem var Gude nærskylldust. Hann villde og Sameina sig þeirre Skepnu sem giæte medtekid hann, i hreinne Elsku, og tied hønumm elsku aptur a mote. Hvad allt tilsamans, ecke a vid neinar synelegar og lijkamlegar Skepnur u-

kann einungis Manninn. þar fyrir hefur Gud viliad ad Mennernir alleina yrdu hluttakande i allre hans Giæsku. og þarfyrir hefur hann skapad Manninn alleine eptir sinne Mynd; hver ad er allrahellst innefalinn i fullkomnum Kiærleika.

Eptir þvi þad er og loksins natturlegt, ad þad kveikist Kiærleike, mille þess sem gefur, og þess sem þiggur; og kome fra þeim sem gefur til þess sem þiggur, og aptur fra þeim sem fær, og til þess sem gefur, og giore so bada eitt og samanbinde þa, þarfyrir eiga Mennirnir sem þiggia Guds Gafur ad þiggia þær i hreinum Kiærleika, lijka sem og Gud af hreinum Kiærleika gefur þær Mannenum, og undir eins sig sialfann, og lætur hann verda hluttakande þeirra og sins sialfs.

## Cap. V.

### Ad Gud fyrir sinn Kiærleika gefe oss og veite sialfann sig.

Joh. 4. 8.

Gud er Kiærleikurinn

Lijka sem Madurinn gefur sig olldungis Gude á valld fyrir sinn Kiærleika til Guds: so gefur

og

og Gud oss aumum Monnum sig sialfan fyrir sinn Kiærleika, med hveriunn hann elskar oss: og fyrst hans Kiærleike er fullkominn; þa gefur hann oss sig allann, og ad øllu leite fyrir sinn kiærleika; og fyrir þennan kiærleika gaf hann oss einnig sinn Son, þviad nær sa allra hædste Kiærleike er a þeirre efstu Troppu og Stijga, þa gefur hann þeim sem hann elskar, jafnvel sialfan sig. Gud hefur oss allramest og best elskad, þar fyrir hefur hann gefid oss sialfan sig, og þad i sijnum elskulega Syne.

A þessum Stofne og Grundvelle er þad bygt ad Guds Sonur er Madur ordinn, og hefur lidid fyrir oss Pijnu og Dauda. þarfyrir er þetta hinn allra agiætaste, listelegaste og huggunarlegaste urskurdur af þeirre himnesku Radsløgunar og Alyktunarkonst, sem seigir; so elskade Gud Heiminn, ad hann gaf ut sinn Eingetinn Son. Joh. 3. 16. þad er: Gud elskade Heiminn hid allrahædsta, þessvegna gaf hann og hønum sinn Son.

Frammvegis er sa Eylife Kiærleike Guds, Upprune þess eylifa Lyfs; enn Guds eylife Kiærleike er kominn til vor i Christo og fyrir hann; þessvegna høfum vier þad eylifa Lijfed i Christo. þarfyrir alyctar sialfur Drottin

þannig: ad allir þeir sem a hann trua, fyrirfarist eigi, helldur ad þeir hafe Eylift Lijf. Joh. 3. 16.

# Cap. VI.

## Hversu Mennernir eru þeim eijlifa Gude skuldbundnir fyrir þa Velgiørninga sem þeir af hønum þiggia.

1. Joh. 4. 19.

Latum oss elska hann, þvi hann hefur elskad oss fyrre.

Allir Velgiørningar eru innefaldir i Þrennu: i þeim sem gefur; i þeim sem fær, og i sialfre Gjøfinne. og af þvi, ad einn gefur, og annar fær, þa upkveikist hia þeim sem fær ein natturleg Plikt og Skyllda vid þann og til þess sem gefur.

Og sokum þess ad Gud gefur, enn Madurinn þiggur, þa verdur Madurinn med þvi mote Gude skylldugur og skulldbundinn; og þess meyr sem einn Madur fær eda hefur feingid af Gude, þess meir er hann Gude skylldugur og skulldbundinn. Nu hefur Madurinn þeigid af Gude allt þad sem hann hefur; hann hefur þeigid af hønum Lijkama og Sal, og þar ad auke Þionustu allra hinna Skepnanna, sem Gud hefur skapad og skipad til ad þiona Mannenum bæde hvad Lijkamann ahrærir og so Sa-

lina

lina. þessvegna er Madurinn fyrir slijka Velgiørninga Gude sinum Skapara og Vidhalldara i allra mesta mata skuldbundinn. hvar umm allar Skepnurnar lijka sem hropa i Eyru Mannana, og minna þa a þessa Skylldu, eins og þar segdu: Tak og þigg Velgiørninga þijns Skapara/ hveria hann hefur veitt þier fyrir oss, og þiona og þacka honum fyrir þa daglega. Himininn seigir: jeg gef þier Lios a Dagin til þinnar Vinnu, og Mirkred gef eg þier a Notenne til Svefns og hvyldar. jeg gef þier þad ununarsamlega Vor, þad heita Sumar, þad avaxtarsama Haust, þann kallda Vetur, allt til þins besta. Loptid seigir: jeg gef þier Anda og þær margskins undarligu Fugla Tegundir Vatnid seigir: eg gef þier ad drecka, þvæ þig, hreinsa þig, og gef þier margskins Fiska. Jørdinn seigir: jeg ber þig, nære þig, og gef þier þitt Biargræde, Braud, Vin, og Kiøt. sia hversu kiærann hefur hann þig, sem þig hefur skapad, og þar ad auke giørt mig þier til gagns og goda. so margar Velgiørdir sem þu þiggur, so storar Þackir ertu þijnum Skapara umm skylldugur.

# VII. Cap.

## Skepnurnar þiona Mannenum til Glede og Lærdoms.

Job. 12. 7.

Frettu Kvikfed ad, og mun þad kenna þier þad, og Fuglarnir Himinſins munu ſeigia þier þad. Edur tala þu vid Jordena, og mun hun kenna þier þad.

Heimurinn er ſkapadur til ad þiona Mannenum bæde Salarinnar vegna og ſo Lijkamans, bæde til ad gledia hann og ſo ad kenna honum. Og er þar einginn ſu Skepna af hverre Madurinn ecke kunne ad taka og edlaſt annadhvert Glede eda Lærdom, ef hann ihugar hana rettelega, vier vilium fyrſt ſkoda hverſu Skepnurnar þiona Mannenum til glede.

Þad eru Mennernir alleina ſem eru ſoleidis ſkapadir af Gude, ad þeir geta haft Glede og Fognud af þeim hlutum ſem þeir eiga: hinar adrar ſynelegu Skepnur geta þad ecke giort, þviad þær ſkinia eckert umm þad goda ſem þeim tilheyrir, Gull og Silfur og annad þeſſhattar, gledur ſig ecke af þvi goda ſem þad hefur, þviad þad ſkiniar ecke neitt þar umm. Eñ fyrſt Madurin hefur Vit, þa gledſt hann af þvi, ad Gud hefur ſkapad honum til goda ſo agiætar Skepnur. Er þad ecke eitt ſtortUndur og augliſt

ost Teikn til þeirrar miklu Giæsku Skaparans, ad allt þad sem hinar adrar synelegar Skepnurnar hafa, þad skule vera Mannsins Glede, og ecke þeirra sialfra: Gud hefur ecke veitt þad hinum ødrum, ad þær giæte haft Glede af þvi goda sem þær hafa til ad bera; til þess ad Mennernir alleina mættu hafa og niota þeirrar Glede. Alla þa Glede sem Vatnid ætte ad hafa, af øllum siinum Sætleika, Ynde, Klarleika og ødru þvi godu sem þar med filgir; hana hefur hverke Vatnid, nie nytur hennar, helldur Mennernir; alla þa Unun og Glede sem ein Ros eda ønnur Jurt skyllde hafa af siinum Ilm, hefur hun ecke sialf nie nytur, helldur hafa Mennernir hana og niota hennar. Øll su Glede sem Solinn ætte ad hafa af sinne Fegurd og sinu Liose, hana hafa Mennernir og niota hennar. og eins er þvi varid med adrar þesshattar Skepnur: þær sialfar hafe ecke neina Lyst nie Glede af þvi goda sem Gud hefur veitt þeim, helldur Mennirnir. af hveriu þad er klart og auglioft, ad øll su Glede, sem allar adrar synelegar Skepnur skylldu finna i sialfum sier, hana hafa og hennar niota Mennernir alleina, og hinar adrar siaanlega Skepnur hafa hana ecke nie niota hennar; og væru ecke hinar adrar siaanlegu Skepnurnar til, þa munde Mannanna Glede ve-

ra minne; þviad, þa hefdu þeir eingar af þeim ad gledia sig vid, og ecke hefdu þeir þa helldur neitt ad samlijkia sier vid: være og eingenn önnur Sköpud Skepna til enn þeir; þa veru þeir og ecke göfugre nie ipparlegre enn adrar þesshattar Skepnur, þviad þeir væru þa þær einustu; enn fyrst þad eru fleyre þesshattar Skepnur til enn þeir, þa kunna þeir af Samjöfnude vid fleire þesshattar Skepnur skinia og þeckia ad þeir hafa þa göfugustu og ypparlegustu Natturu af þeim öllum, og geta huggad sig þar vid, ad þeir kunna þar af ad rada og merkia, ad Gud elskar þa framm yfir allar adrar Skepnur, þvi ad Gud hefur af einskiærre Giæsku so yfrid hatt uphafid Mennenna yfir adrar Skepnur, og sett þa yfir þær allar.

Annars kann Madurinn og ad gledia sig af ihugan annra Skepna, þa hann ecke utan lijtur til sijns Lijkamavaxtar og limaburdar, og samjafnar hönum vid hinar adrar siaanlegar Skepnur; þviad þa skal hann og so þar af klarlega þeckt geta sinn Adal og ipparlegleika framm yfir hinar adrar. Þviad hin Dyrinn og Skepnurnar hafa almennelega þær Asionur sem horfa nidur ad Jördenne, enn Mennernir hafa uprett Andlit og Asionu, sem horfir til Himinsins. lijte Madurinn og so til sinnar Salar; þa getur hann

hann og so feingid sier þar af huggunar efne fra-
mar ødrum synelegum Skepnum, og þeckt þar
af sinn Ipparlegleika sem er ædre en allra þeir-
ra; þviad Mannsins Sal, er skøpud eptir
Guds Mynd, og þar fyrir utann er einginn af
øllum slijkum Skepnum eptir Guds Mynd skø-
pud. þessvegna er þad Mannenum til storrar
Huggunar og Glede, ad hann er soleidis ein
Guds Mynd medal allra synelegra Skepna. og
þecke Madur þetta, þa er hann i þvi vijs og
skinsamur: þviad þad er stor Vijsdomur, ad
Madurinn þeckir sialfan sig rett; lijka sem þad
er þar þvert a mote ein stor Favitska ad Madur
þeckir sig ecke sialfur.

Eins og allar Skepnur eru skapadar Møn-
nunum til Glede, so eru þær og skapadar Møn-
nunum til Lærdoms; þviad Madur sier klarle-
ga af Skepnunum ad hans hellstu og bestu eignir
eru ecke innefalldar i jardneskum hlutum, og
þeim sem Menn geta tekid og þreifad a; ellegar i
Mañs Forlisting med Mat Dryck og Sælgiæte;
þvi ad slijkt finnst eins vel hia skinlausum Dyrum
sem hia Mønnunum, og getur þarfyrir ecke ve-
red sa ædste Gode Mannsins; enn Madurinn
verdur ad hafa langtum ødruvijse Giæde, og
þau miklu betre, en allt þad sem þær skinlausu
Skepnur hafa hlutdeild i. Fyrst Madurinn er

mik-

miklu betre enn Bestiurnar, þa hlytur vissulega Mannsins Sæla ecke ad vera innefalinn i þvi sem Fenadurinn og Dyrinn hafa hlutdeild i. Fyrst ad Madurinn er ypparlegre enn sem øll Dyrinn, hvert sem þau eru a Jørdenne ellegar i Sionum, þa verdur þad ad vera ein ypparlegre Fæda og Dryckur, ein ypparlegre Huggun og Glede sem Mennernir hafa sijna unun i, enn su sem Dyrinn af vita, og forlista sig i; og hlytur þad ad vera þvilijk ein, sem Dyrinn vita olldungis ecke nejtt af.

Þannig hafa þa Mennernir numid nærre þvi mest allan sinn Vijsdom af hinum ødrum Skepnunum. Lækinskonstena hafa margskins Dyr og kvikende kennt oss. J Stiørnulistenne hefur Himininn uppfrædt oss; Hliodfæra konsteñ og Saunglistenn er uppfundinn fyrir hliod og hliom Jmislegs Malms og Metals.

Ja allt hvad skapad er þad er skapad Mannenum til Glede og Lærdoms og Madurinn þiggur þesshattar Velgiørninga af øllum Guds Skepnum. Þarfyrir er þad sialfsagt, ad fyrst Madurinn hefur hlotid so marga Velgiørninga af Guds Skepnum, sinum Lijkama og Salu til Nytsemdar, Brukunar og Lærdoms, þa er hann i allrahædsta mata Gude skulldbundinn fyrir þvilijkt, framar øllum ødrum Skepnum.

og þesse Skyllda er þad fyrsta Band med hveriu ad Mennirner eru Gude skulldbundnir, og hafa giørst hans Skulldunautar, hun er og so sem Rot og Grundvøllur allrar annarar Skylldu, med hverri Madurinn er Gude skulldbundinn.

# Cap. VIII.

## Hversu stor su Skyllda sie, med hverre Madurinn er Gude skulldbundinn.

Psalm. 92. 6. 7.

Drottin, hvernin eru þin Verk so stor? þinir Þanckar eru so miøg diupir; Einn darligur Madur truir þvi ecke, og sa heimske acktar þad ecke.

So stora og marga Velgiørninga sem einn hefur þeigid og feingid, so stor er hans Skyllda og Plikt vid þann/ af hverium Madur hefur þa þeigid: Fyrst Madurinn hefur nu þeigid fyrir Skepnurnar oseigianlega stora Velgiørninga af Gude; þa er hann Joutseigianlegan mata og i hædstu Treppu, Gude skulldbundinn. Madurinn er Gude so hardlega skulldbundinn, sem øll Verølldinn, og allar Skepnurnar eru ypparlegar og mikils verdar; þviad þær eru allar skapadar vegna Mannsins. Mennernir eru Gude skylldugir og skulldbundnir fyrir allt þad gott sem Himininn, Jørdinn, Loptid og Vatnid hefur

fur i sier, þviad slijkar Skepnur skilia hverke nie þeckia sialfar sin Giæde, og ecke helldur niota þær þeirra sialfar; enn Mennernir þeckia þær og eru þarfyrir Gude skulldbundnir. Og firstad Madurinn hefur Vit og Skilning, enn þær hafa eckert vit, þa er Madurinn og so þeirra vegna skylldugur ad þeckia sijna skylldu, og ad þacka Gude fyrir þær. Ef ad i einu Huse være einungis skinlaus Born, sem ecke hefdu vit a hvad gott þau ættu, med þvi ad einn Kongur giæfe og skeinckte þeim allt hvad hann ætte, og þar være þo einn heilvita Madur medal þeirra; þa være sa same heilvita madur advijsu skylldugur til ad þacka Kongenum vegna allra hinna og fyrir þeirra hond; Annars ætte oll sokinn ad liggia a honum, og tilreiknast honum, sem eitt vondt Opacklæte: Eins er þvi og varid med þessa siaanlegu Verolld. hinar adrar synelegu Skepnurnar, sem ecke eru Menn, eru eins og skinlaus og omindug Born, og hafa ecke vit a þeirra eiginn Giædum. enn Mennernir eru þeir alleina medal þeirra, sem hafa vit, og bera Skinbragd a hversu Gott þeim og allre Verolldene veitist af Gude; þessvegna eru Mennernir sannlega skyldugir ad kannast vid þvijlijkt, og þacka Gude þar fyrir, og tala fyrir allar hinar Skepnurnar. ef þad ecke skedur, þa

ver-

verdur þad Opackłæte einsomlum Mannenum tilreiknad: þessvegna eru Mennernir skylduger ad þacka Gude af alfu allra hinna Skepnanna.

Her ad auke hafe Skepnurnur eige ødlast fyrir sialfra sinna sakir, þad þær hafa, helldur vegna Mannsins: hvert eru þa ecke Mennernir Gude skuldbundnir þar fyrir? vissulega; og þess gøfugre og betre sem ein Skepna er, þess meir eru Mennernir Gude fyrir hana skulldbundnir. Jafnvel þott Mennernir hefdu þa eckert meyra af Gude þeigid, en þad goda sem adrar Skepnurnar hafa til ad bera, þa være þo Madurin meyr en nog skulldbundinn Gude og plikt-ugur fyrir þad.

# Cap. IX.

## Ad Madurinn sie Gude meir skyllduggur fyrir þad sem hann hefur i sialfum sier, enn fyrir allt þad sem er i Verølldenne.

Speck. B. 11. Drottinn þu elskar Lifid, og þinn Oforgeingelegur Ande er i øllu.

Spek. B. 2. 23. Gud skapade Manninn til Eylifs Lijfs, og giørde hann ad einu Bijlæte, ad hann skyllde vera lijkur þvi sem hann er.

1. B. Mos. 9. 2. Ydar Otte og Ogn skal vera yfir øllum Dyrum a Jordenne.

Fy-

Fyrst Madurenn þeckir og skilur, ad hann er su tignarlegasta Skepna a medal allra, þa er hann og fyrir sialfan sig Gude miklu meyra skulldbundinn, og pliktugre enn sem fyrir allann Heiminn. Þvijad fyrst allir hlutir eru skapadir vegna Mannsins, þa hlytur Madurinn vissulega ad vera meira verdur, helldur enn allur Heimurinn og allar Skepnur. Søkum þess ad i Heimeneum eru margar ypparligar Skepnur, so sem ad eru Elementinn, þeir himnesku Lijkamir, sierdeilis Stiornurnar, Solen̄ og Tungled og þetta allt er skapad fyrir Mannsins skulld, og til ad þiona honum; þa er þad liett skilid, ad Nattura Mannsins hlytur ad vera nærsta ypparleg, fyrst so margar agiætar, storar, ypparlegar, volldugar og mecktugar Skepnur verda ad þiona Mønnunum. Þannig geta og slijkar mecktugar agiætar og ypparlegar Skepnur kent oss, med þvi þær verda allar soleidis ad þiona oss Mønnumum, ad þad verdur ad vera nockud odaudlegt, oforgeingelegt og eylift i Mønnunum. Þviad fyrst þeir himnesku Lykamir, so sem Stiornur, Sol og Tungl, eru odaudlegir, og eingre hnignun undir orpnir, helldur blijfa ætid hiner somu, og ganga ecke af sier; hvernig ættu þeir þa ad þiona Mønnunum, ef þad være ecke i Mønnunum

eitt=

eitthvad ohnignanlegt oforgeingelegt og eylift. Fyrst ad sa sem þienar, ma hverke vera nie getur verid stærre eda ædre, enn sa hverium hann þionar; þa hlytur vissulega eitthvad ad vera i Mannenum, sem er stærra ypparlegra, agiætara, oforgiengelegra og odaudlegra, enn aller þeir himnesku Lijkamarnir; annars være þad ein røng aflægesleg og ofæmelig Skipun. Ef ad Stiørnurnar, Solenn og Tungled / sem eptir þeirra edle eru odaudlegar og oforgeingelegar skylldu þiena einungis daudlegum og forgeingelegum Mønnum; hverier ed eckert þad i sier hefdu, sem være odaudlegt og ohnignanlegt; þa være þad einn hlutur sem olldungis være rangur, aflaga, og mot allre Natturunne. Nu fyrst slijkar odaudlegar og ohnignanlegar Skepnur þiona Mañenum, þa hlytur og Madurinn vissulega ad hafa nockud oforgeingelegt og odaudlegt i sier; og fyrst þad er ecke Lijkamiñ, þviad Lijkamiñ kreinkist, funar, forgeingur og deyr; þa hlytur eitt hvad annad ad vera i Mannenum, sem er okreinkianlegt og odaudlegt: Og þad er sa annar af þeim hellstu Hofudpertum Mannsins, nefnelega su Skinsemdarfulla Sal; hun hlytur vissulega ad vera okreinkianleg, oforrotnanleg og odaudleg. Fyrst Salinn er nu odaudleg og oforgeingeleg, þa a hun eckert Samkvæme ad

hafa med daudlegum og forkreinkianlegum hlu-
tum, ellegar teingiast þeim i Kiærleika; helldur
þeim odaudlegu og oforgeingelegu. Þeir o-
daudlegu hlutirnir, og allrahellst Gud alleina,
a ad vera þad sem Salunne skal samteingiast.
þeir daudlegu hlutir hafa teingda Sameining
og Samkvæme vid Lijkama Mannsins, og af
þeim hefur Lijkaminn not, brukar þa og samei-
nist þeim: enn med Salinne skal alleina, sa o-
daudlege Gud hafa Samneite og Samkvæme,
og foreina sig med henne. þa er Gud alleina, so
sem Kongur i Mannsins Salu; og skal alleina
hafa i henne sinn Stol, sitt Sæte og sitt Vell-
de; og þad er Mannsins hædste Adall og Yp-
parlegleike, til hvers Gud hefur ecke upphafid
neina adra Skepnu i Verolldenne. Fyrir þet-
ta er Truud Sala i Monnunum Guds Mynd
og Bustadur. Hærre Virding kann einginn
Skepna ad odlast; þessvegna eru Mennernir
ædre ollum odrum lijkamlegum skepnum, og
ypparlegre enn þær allar. þarfirir stendur þad
obifanlegt, ad Madurinn er Gude um meyra
skylldugur fyrir þad sem hann hefur i sier sial-
fum, en fyrir allt þad sem er i Verolldenne.

## Cap. X.

## Umm þrennslags Krapt i Monnunum.

Psalm. 104. 24.

Drottinn hversu eru þin Verk so stor og mørg, øll he-
fur þu þau med Speke tilsett.

Ad so mikluleite sem Madurinn i þessu Lijfe er giordur af Likama og Sal, þa eru Kraptar Mañsins lijka sem einn Sofnudur og eitt Rike, i hveriu ad eru þrennslags Stiettir. Ein er su lægsta og nedsta, Onnur er þar nærst fyrir ofann, og su þridia ellegar sijdsta er su efsta og ædsta. Su lægsta og nedsta Stiettinn eru þeir nærande og fædande Kraptar i Mønnunum, og eru vidlijka sem Bændur, Kaupmenn og Erfidis folk. Þeirra Athøfn er, ad þeir med Konst tilbue siode og tilreide Fædu i Maganum fyrir Lijkamann, giore og orsake matar-lijst og Jlaungun, og drage til sin hvad hellst sem øllumm Lijkamannum er nytsamlegt og gagnlegt, til ad giøra hann mettann og þriflegann, og leida hvert eitt af þvi til sins Stadar; so og burtdrife og utskufe þvi sem Lijkamanum er hellst skadlegt: hvad þeir giøra med so mikelle konst, ad allrar Verralldarinnar konst kann þar ecke vid ad jafnast; þessir nedstu Kraptar þiona undir þa hærre og ypparlegu Kraptana, og vinna sifelldlega Dag og Nott, so ad þeir hærre og ypparlegre kraptar,

kunne ad hafa sitt uppheldde, og lijde eingann skort. Þviad ef einn af þem gierir ecke sitt Verk, þa forsomast allt verkid; og þeir efre kraptarnir, sem eru ypparligre hliota ad ormegnast. og eru þesser nedre Kraptar samanbundnir vid Lijkamann, ja olldungis lijkamlegir, þarfyrir eru þeir og ecke so edla og ypparlegir sem hiner adrir.

Hier eptirfilgir hin onnur Stiettinn, sem eru Kraptur Skilningarvitanna þeir merkiande Kraptar, edur skilningar viten, nefnelega, Syn, Heyrn, Smeckur, Lyktan Tilfinning, hverier allir eru ædre enn þeir fyrtiedu lægstu Næringar-kraptar. þar er og medal sialfra þeirra einn odrum ypparlegre. Sionin er ypparlegre og gofugre en Heyrninn, þviad vier getum sied leingra og vidara ummkring enn heyrt. Heyrninn og Lycktanenn yfirganga Smeckinn, þviad vier getum heyrt og lycktad vijdara og leingra burt en smackad; so yfirgeingur og heirnin Lyktanena, þviad vier getum bæde vydara og leingra heyrt en lyktad; Enn Tilfinningin er sa allralægste a medal þessara krapta, og er utstrialadur yfir allan Lijkamann.

Su ypparsta ædsta og gofugasta Stiettenn er Skinsemdinn, Viliennn, og Minned, og er hun sem Yfirvallds-Stiett, þviad hun

Stior-

Stiornar øllum hinum: Annarshafa þessir hinir ypparleguſtu Kraptar imiſleg Embætte, og margviſlegt ad taka vara a; þeir eru og ecke helldur lijkamlegir, helldur ølldungis Andlegir, og þarfyrir eru þeir ad øllu leite edla, hinir fliotuſtu og ſmaſmugleguſtu, og einginn getur þa þvingad, eins og þeir nedſtu Kraptarner verda þvingadir; þviad hver kann ad þvinga Viliañ. Viliann er ølldungis fri og lætur ſig ecke þvinga, þviad hvad hellſt Madur vill, þad vill hann frialslega og oneyddur: þeir eru og lijka ſem Radsherrar i Mønnunum byria og fullkomna einn hlut, þeir eru og prydder med mørgum Dygdum, eins og med ſijnum klædum. Viliann er pryddur, med Riettlætenu, Skinſemen med Visdomenum, Minnid med Malſnyllenne og ødru fleyra. þarfyrir eru þeſſir kraptar vidlijka og Yfirvalld i Mannenum, og eitt natturlegt rijke, ſem Gud hefur ſett og ſtiftad i Mønnunum.

# Cap. XI.

## Hverſu ſtorliga Madurin er Gude ſkullbundinn fyrir hans Elſku og adrar Gafur.

1. Cor. 4. 7.

Hvad hefur þu þad Madur ad þu hafir þadeigi med tekid?

Þad eru Tvennſlags Almennelegar Gafur



til,

til, fyrir hveriar Madur er Gude storlega skullð-
bundinn. Þa firre sier Madur og getur a hen-
ne þreifad, og þad er oll Verolldin; Su øn-
nur er hulinn og osyneleg og er Guds Elska. El-
skan er su stærsta Guds Gafa; enn sirst hun er o-
syneleg, þa verdur hun ecke alitin sem ein Ga-
fa, og er þo grundvollur og Rot allra giafa,
þviad allar Gafur renna upp af þeirre Rot og
Uppsprettu, og þær eru ecke annad enn Teikn El-
skunnar og hennar Merke, i hverium su syne-
lega Elskann lætur sig sia og merckia. Menner-
nir eru soddan darar og gicker, ad þeir hallda þa
synelegu hlutena ad vera eina stora Gafu, og
hugleida ecke, ad sa Kiærleike, sem hilst þar
undir, er miklu stærre og ipparlegre.

Eins og Reikurinn er vist Teikn til Elldsinns,
so eru og Guds Gafur eitt vist Teikn til hans El-
sku; þviad ef hann hefde ecke elskad oss, þa hef-
de hann ecke gefid oss þvilijkt. Þarfyrir eru
Guds Gafur einn Vegur og einn Stige eda
Trappa til ad koma til Guds og til ad finna hañ.
So stor sem þa gafan er, so stor hlytur Guds
Elska ad minsta koste ad vera, fra hverium ga-
fan kemur. Fyrst Gud hefur þa skapad allann
Heiminn og allar Skepnur, vegna Mannan-
na, þa er audradid hversu stor Guds Elska ma
vera til Mannanna; þviad fyrir Mannanna
sakir

ſakir elſkar hañ Skepnurnar, enn af øllum Skepnum elſkar hann i raun riettre eckert utann Meñenna, og fyrſt hann hefur upphafid og prydt Mennena framar øllum Skepnum, þa elſkar hann og ſo Mennene framar øllum Skepnum, og øllu þvi ſem ſkapad er. Og fyrſt ad Guds Elſka er ſu allra hreinaſta, ſannferdugaſta, viſſaſta, einlægaſta, hædſta og bliidaſta Guds Gafa; (þviad hann hefur ecke elſkad Mennena ſakir þeirrar Gagnſemdar ſem hann kynne ad hafa af þeim, helldur einungis af ſinne guddomlegre Giæſku, og Frivilia otilneyddum) þa er Madurinn Gude miklumeyra ſkulldbundinn og pliktugur fyrir ſliika hiartanlega Giæſku; enn fyrir allar adrar Gafur.

J øllum þeſſum hlutum er tvent athugande. Fyrſt Elſkann ſem geingur a undan, og ſiidann Gafann er filgir a eptir, og er miklu minne enn Kiærleikurinn. Guds Elſka er ſo edla og ypparleg ſem Gud ſialfur, hvøred elſkuna auglyſir. Fyrſt eckert er þa ypparlegra og betra eñ Guds Elſka, þa er og Guds Elſka betre enn allar Skepnur, þeſſvegna er Madurinn Gude, miklu meir ſkulldbundinn fyrir hans Elſku, enn fyrir hans Gafur. Og ſokum þeſſ Madurinn hlytur vegna þeirrar neydar og þreingingar, ſem hønum er omøgulegt, ad hann gete hia komiſt, ad

bruka Guds Gafur og Velgiorninga, og færa ſier þær i Nyt; getur og ecke eitt Augnablik lifad an þeirra; þa filgir þar a epter, ad ſu ſkyllda med hverre Madurenn er Gude ſkulldbundin, er oraſkanleg, oforgeingeleg, og kann alldrei ad hætta eda verda ad eingu? Vegna þeſſ og ad einginn utan Gud alleina getur gefid Mannenum ſina Veru, Liif og Anda; þa er af þvi audradid, ad Madurinn er fyrir þad Gude alleina framar øllum hlutum ſkulldbundinn og hønum plicktugur.

## Cap. XII.

### Med hverium hætte Madurinn a ad upfylla ſina Skylldu og Plickt vid Gud.

Pſalm. 18. 2.

Hiartkiætan hef eg þig Drottinn, minn Stirkleike.

Firſt ad Gud giorir Mønnunum allt gott ſialfkrafa oneyddur og obvingadur, og Mennirnir verda Gude þar med ſkulldbundnir, þa er þad ad viſu auglioſt þar af, ad þad hlytur ad vera þad i Mannenum, ſem Madurinn er ſkylldugur ad gefa Gude aptur a mot. og þad hid ſama hlytur ad vera nockud þeſſhattar, ſem ecke er fyrir utann Manninn, helldur i Mannenum: ſo ad einginn gete forhindrad eda meinad

nad einum ad gefa Gude þad hid ſama: þviad allt þad ſem er fyrir utan Manninn, þad verdur tekid fra honum a mote hans vilia, og honum kann ad verda þeſſ varnad, ad gefa þad nokrum. og þvi er þad ecke eiginlega, og med rettu eins Eign, eda hans eigid. þvi verdur ſu Gafa um hveria vier einkanlega erum Gude ſkylldugir, ecke ad vera nockud þeſſhattar utvortis, ſem fra oſſ kann ad takaſt: ja, þad kann ecke helld ur ad vera vort Lijf og Lijkamer, þviad þad verdur og ſo fra oſſ tekid, og ſtendur ecke i voru vallde, hverſu leinge vier holldum þvi; þar fyrir hlytur ſoddann Gafa um hveria vier einkanlega erum Gude ſkylldugir, ad vera þad nockud, ſem ecke verdur adgreint fra Mannſins Salu, og hun ecke getur an verid, og þad er Elſkan, og hennar getur hun ecke an verid. og ef Elſkann er ecke til þeſſ goda i Salunne, þa er hun til þeſſ vonda. Umm þeſſa vora Elſku erum vier Gude ſkylldugir.

Fyrſt Gud gefur oſſ ſitt hid ypparlegaſta og beſta, nefnelega ſina Elſku, þa er vor ſkyllda ad giora þad ſama aptur a mot, og ad gefa Gude aptur vora Elſku. eckert er betra, ypparlegra og tignarlegra i Mannenum enn hans Elſka. Elſkan er Mannſins giorvallur Feſiodur og dyrgryper, hverium Madurinn gefur ſina

Elsku, þeim gefur hann og sialfann sig. hver- ium a þa Madurinn, epter Rette Natturunnar, Plickt og Skylldu, helldur, og sem meir sæmde, fullkomlega, og ad øllu leite ad gefa Elskunnar Klenodi og fiesiod, enn Gude alleina; so ad Elska verde med Elsku endurgolldinn og betolud. Eins og Gud veitir Mønnum sijna Elsku i hædsta mata; so er og Madurin skylldugur ad gefa Gude sijna Elsku i hædsta mata, og ad Elska Gud af øllu Hiarta, af allre Sud, og af øllum Formætte Deut. 6. 5. so sem Vitid og Natturann kennir, og bydur, og synir oss ad hver sem elskar allra mest, hann a og aptur a mot ad elskast i allra mesta mata, þviad annars er Madur ecke ver- dugur þeirrar Elsku sem honum veitest.

Su stædsta Guds Kløgun yfir Mønnunum hliodar þannig: siaed hversu kiæra eg hefe ydur, hversu elska eg ydur, og þier vilied þo ecke elska mig aptur a mot. So sem Elskann er sa stædste Guds Velgiørningur, so er og Elska Mann- sins þau stærstu Laun, sem Gud fyrir hana vill hafa. Elskann er og eirnenn i sialfre sier unu- narsamleg, þægeleg, sæt og lyfleg, og an Elskun- nar er eckert þægelegt og yndislegt, þviad hvad er Otte, Heidur og allar adrar Gafur an El- skunnar? þær eru sem einn Skugge og eckert. Elskann er alltid þægeleg, og kemur sier ætid

vel:

vel: Einginn hefur verid so rijkur og megtugur, ad hann þarfyrir hafe viliad fra sier reka nockurs Mens Afhalld og Elsku; þviad hver Madur vill giarnan ad hann sie elskadur af hverium Manne. og eins er þvi og hattad med Gud. Jafnvel þott hann sie sa ypparlegaste, hædste rikaste og mecktugaste, þa forsmair hann þo einkis Manns Elsku, helldur lætur hann sier hana vel gediast hia ollum. First Elskann er Mannsins ypparlegaste Fesiodur, Klenodi og dijrgripur, þa er og Madurinn Gude umm hana skylldugur og plicktugur, hver ed og so hefur veitt Mannenum sina Elsku, sem er hans ypparlegaste Fresiodur Klenodi og dijrgriper.

Annars a þesse Capitule ecke so ad skiliast, sem Elskan eptir Syndafallid, stande i vorum eiginn krapte eda mætte, ellegar ad vier med Elskunne kunnum ad giora fullnægiu þvi sem vier vorra synda vegna, ellegar i annann mata erum Gude umskillduger og pligtugir, eda ad vier kunnum med henne ad betala hans Elsku og velgiorninga; helldur a hann so ad skiliast, ad vier einungis verdum aminntir, og oss i vorre Samvitsku yfirbevijsad, ad vier erum skylldugir til ad elska Gud; ecke alleinasta Guds Ord, helldur og Natturunar Lios yfirbevijsar oss slijkt, og ber vitni þar um a mote oss.

CAP.

# XIII Cap.

## Ad Madurinn, jafn vel og so þegar hann straffast, er skylldugur ad elska Gud.

Spek. B. 12. 18.

Þu hinn volldugc Drottnar dæmir med Hogværd, og stiornar oss med mikille Linkind.

Elska Guds er sem vier høfum adur heyrt, Upphaf og Rot allra Guds Verka, og velgiørninga vid Mennena, og lætur sig i lioſe jafnvel i þvi Straffe og Reffing, sem Gud tilskickar Mannennm. Straff og Reffing er og so Guds Verk, og skedur ecke an Guds Elsku. Hveria eg elska þa straffa eg og typta seigir Drottinn Opinber. 3. 19. og Postulin seigir, ad Gud strÿke hvern þann Son sem hann ad sier tekur Ebr. 12. 6. Elskan er Upphaf til allra Guds Verka. Hefde hann ecke elskad, þa hefde hann ecke giørt nockud Verk. Vilie þa Madur lata Guds Elsku asannast, þa skal hann og taka Guds Reffing i Elsku; ef Gud er einum Manne reidur, dæmir hann og straffar, og talar hardlega til hans; þa skal Madurinn þarfyrir ecki giøra sig reidann a mote og møgla þar umm: helldur møgla og reidast vid sijnar Syndir, sem slijkt hafa verdskulldad, hviad Gud giørir eingum orett: og hvada hellst Straff sem kemur yfir Manninn, þad hefur hanns

hanns Synd og vondſka meir enn nog forſkulldad og forþient. þeſſvegna ſkal hann taka mote ollu ſtraffe i Elſku, Þolinnmœde og Audmykt, og ſeigia med Rœningianum a Kroſſenum; vier medtokum hvad ockar giørdir voru verdar; Luc. 23. 41. og bidia Gud umm Nad, ad hann vilie þo ecke ſtraffa oſſ i ſinne Grimd, helldur lata þad vera eina fødurlega Hirting og Typtan midt i Reidenne, og minnaſt a Nadena. Eins og Gud helldur afram i ſinne Elſku til Mannana, þegar hann ſtraffar, ſo ſkal og Madurinn þa hann ſtraffaſt hallda ſinne Elſku vid Gud, lata ecke þarfyrir ſitt Hiarta falla fra Gude, og ſinn gang vikia fra hans Veige, helldur ſeigia med Aſaph: eg em þvingadur daglegana, og min Hegning er alla Morgna þar: þo blif eg ſamt med jafnade hia þier (Drottin) þu leidir mig eptir þinu Rade, og medtekur mig endelega til Æru. Pſal. 73. v. 14. 23. 24. Gud dœmir Mennena Rettviſlega, þvi ſkal Madurinn ecke aptur a mot dœma Gud darlega, hellder vegſama hans Doma, eins og David giørde, ſem ſagde: Rettlatur ert þu Drottinn og þitt Ord er riett Pſalm. 119. v. 137. i þeſſu Auglyſir ſig ſu retta Elſka, umm hveria Mennernir eru Gude ſkylldugir, og þad er hennar retta Prof.

Annars a Madurinn ſifellda koſtgiæfne a ad leggia ad hann þroiſt og vaxe i Elſkunne. Madurinn

rinn getur ecke tied Gude jafn stora Elsku, sem su Elska er, hveria Gud synir Mannenum; þviad Guds Elska til allra Manna er oendanleg eñ Mannsins Elska hefur mata og endir, og er ofullkominn. Ja þo ad Madurinn yrde jafnvel sialfur med Lijfe og Salu ad eintomre Elsku, þa være þad þo eckert mote Guds Elsku. ei ad siidur a Madurinn þo od kappkosta, ad hann kuñe af øllum Kroptum og Mætte ad elska Gud, og ætid vaxa og eblast i Elskunne til hans, andvarpa og stunda þar eptir sifelldlega, ad hann ummsidir mætte na þeirre ædstu Troppu i henne: og fyrst þad er omogulegt ad Madur i þessu Lijfe gete nad þessare hinne ædstu troppu; þa skal Madur þo ad minsta koste elska Gud framar øllum hlutum, og a Mannsins Elska ad vera Heilog, oflecktud, hrein, an flærdar, og ecke linna, ecke fyrir nockra Hørmung og motgang vijkia fra Gude, Lijka sem og Guds Elska til vor linnir alldrei, hvada Hørmung sem hann leggur a oss, helldur er hun ny hvern Morgun; Harmagr. Jer. 3. 23. og mun oss eptirfilgia alla vora Lifs daga. Psalm. 23. 6. Þegar vier erum stødugir i þvi goda; hun er hiartanlega heit, hrein, ofølsk, og utann enda. Ad visu være þad Mannenum ein stor Skømm ad hann fyrir þa allraheiloguſtu, hreinuſtu, hiart-
gron-

gronustu og Eylifu Guds Elsku, vilide gefa honum aptur eina ohreina, falska, flærdarfulla og ostoduga Elsku, hvad þo ecke þær mallausu Skepnurnar giora, sem þo eru miklu lijtilfiorligre og otignare enn Mennirnir.

---

# Cap. XIV.

## Hversu og med hverium hætte Madurinn er skylldugur ad elska Gud.

Lofkvæde Salom. 8. 7.

Þo ad Madur vilde gefa oll audæfe sins Hufs fyrir Elskuna, þa være þad allt einskesvert.

Oll Þecking a þvi sem Madurinn er Gude skylldugur, hefur sinn Grundvoll og astædu a þeirre Skylldu og Plickt, sem kemur af þvi sem gefid verdur sokum þess, ad þad er so sem sagt hefur verid ein natturleg Plickt og Skyllda, millum þess sem gefur, og hinns sem vidtekur, og su sama Skyllda er eitt klart og outslokvanlegt Natturunnar Lios og Vitnisburdur, fyrir hvorn þad þeckt verdur hvad Madurinn er Gude skylldugur. Fyrst Gud gefur þa alleina alla hlute, og Madurinn fær og medtekur allt af Gude, an sinnar Forþienustu; og ef ad Gud giæfe eckert, þa feinge Madurinn og so eckert, og fyrst adurtied

tied ſkyllda, med hverre Madurinn er Gude ſkulldbundinn, kemur af ollu þvijlijku; þa vilium vier og athuga hverſu Madurinn er ſkylldugur ad greida Gude þad aptur ſem hann hefur þeigid.

Su fyrſta Gafa ſem Mennirnir hafa þeigid af Gude, er Elſka Guds, þviad Gud elſkade Mennina, i þvi ad hann ſkapade þa, þarfyrir er Madurinn ſkylldugur ad elſka Gud aptur a mote, ſo ſem ſagt hefur verid. Allt þad goda, ſem Madurinn hefur, þad hefur hann af Gude og fyrir þa ſkulid ad Gud elſkar hann, og Madurinn hefur eckert af ſialfum ſier, ecke helldur af nockrum odrum upprunalega, utan af Gude alleina þarfyrir er Madurinn eingum um ſo ſtora Elſku ſkylldugur ſem Gude, og ecke helldur ſier ſialfum; þviad hann hefur eckert af ſier ſialfum helldur alltſaman af Gude. þar af er þad og auglioſt ad Madurinn a ad gefa Gude og ecke ſier ſialfum, ſina fyrſtu og ædſtu Elſku. þviad ſokum þeſſ Madurinn hefur alla hlute upprunalega, og fyrſt og fremſt af Gude alleina, þa er hann og ſkylldugur ad gefa Gude ſijna alla og fullkomna Elſku, og lata eingan annan verda hluttakande i henne. Og eins og hann hefur þa allrafyrſtu, hædſtu, og ypparleguſtu Elſku fra eingum odrum enn Gude; þa a og Gud aptur

a mote

a mote ad vera hans hædsta og ypparlegasta Elska: og fyrst ad Madurinn vidhelldst hvert Augnablik og an aflats af Gude, þiggur oaflatanlega velgiordir af Gude, og kann ecke ad lifa fyrir utan Gud; Gud hefur og tilsett þad so, ad allar Skepnur verda ad þiona Mønnunum, an hverra Þionustu Madurinn ecke getur lifad eitt Augnablik; þa er Auglioſt þar af, ad Madurinn er skylldugur ad elska Gud, ecke einasta fullkomlega helldur og so oaflatanlega, og a hveriu Augnablike. og þad er su Regla, hattur og mate, eptir hverium Madur er skylldugur Gud ad elska.

## Cap. XV.

### Ad allar Skepnur an aflats afyse og upphvetie Mannin til ad elska Gud.

Ordskvid. B: 8. 1.

Hvert kallar Spekinn ecke? og Vitskan lætur til sin heyra, auglioslega a Veigenum, og a Strætunum stendur hun vid Portinn hia Stadnum, þar sem Menn inngangа, ad Dirunum hropar hun, þier Heimskir merkid Vitskuna.

Guds eyliif og oaflatanleg Elska kallar, knyr og aminner Mennina til ad elska Gud af øllu Hiarta, af øllum kroptum og mætte, sokum þess ad Gud hefur elskad þa fyrst, og elskad þa

fullkomlega, ja elskad þa allrahellst af øllum Skepnum i Verølldenne, og þeirra vegna skapad allar adrar Skepnur. Enn ecke alleinasta hropar og knyr þvijlik Elska Guds Mennena til ad elska Gud sinn Skapara, helldur hropa aminna, knya og afsya ogso allar Skepnur, og allur Heimurinn a sama hatt, an aflats Manninn, til ad elska Gud: og þad skedur þannig. Allar Skepnurnar, og øll Verølldinn giøra Mannenum eptir Guds Skipun, alla þa Þionustu sem þær geta / og so vel sem þær geta, af øllum þeirra kroptum og mætte; og hvad hellst Elsku, goda og gagn, sem þær eru megungar um, hana audsyna þær Mannenum liuflega og lata hønum i tie, og eptir þvi sem Gud hefur þeim befalad. og þar med afsya þær og aminna Mennena ad þeir aptur a mote skule gefa sinum Skapara þad besta, sem þeir hafa til, og eru umm megnuger, eptir þeirra Pligt og Skylldu. Nu er Elskann þad allrabesta, sem Menninir nockurn tijma kunna til ad hafa: þarfyrir hropa allar Skepnur, ad Madurinn skule aptur a mot lata Elskuna i tie, og elska þann af hverium hañ sie elskadur, og ad hann skule giøra þad sialfkrafa og liuflega, eins og Skepnurnar þiona Mønnunum sialfkrafa og liuflega eptir Guds Bode og Skipan.

Þær

Þær beviſa kenna og hropa eirnen ad fyrſt Skepnurnar audſyna ecke Monnunum nockra falſka Þionuſtu, helldur ſannarlega, an allrar hræſne og ſvika, med þvi Gud hefur og ecke ſkapad þær til þeirrar Þionuſtu, ſem være følſk og ſvikul, heldur til þeirrar, ſem være ſannarleg, og ærleg: þvi er Madurin og ſo ſkylldugur ad audſyna ſijnum Skapara, ecke falſka, helldur hreina, oſvikula og flærd-arlauſa Elſku. eins og Skepnurnar þiona Mannenum Dag og Nott af øllum mætte og megne, ſo hropa þær, hvetia og afyſa, ad Madurinn og ſo ſie ſkylldugur ad elſka Gud, og þiona hønum af øllu Megne og Mætte, Dag og Nott. og ſo ſem allar Skepnur einungis þiona Monnunum. og hafa ecke annad aform, enn ad þiona þeim, ſo hropa þær og ſyna þar med, ad Madurinn eigi allrahellſt Gude alleina ad þiona, og øngvum ødrum; og ad hann eigi ad haga øllum ſijnum Vilia og Aforme til þeſſ ad hann gete dyrkad, heidrad, elſkad Gud, og hønum þionad framar øllum hlutum. Og lijka ſem Þionuſta Skepnanna fellur Mannenum vel i ged, og hann hefur Vel þocknan til hennar, ſo hropa og ſyna þær einnig, ad Gud hefur og Velþocknan til Mannſins Þionuſtu: ſem hann og ſo i ſannleika hefur, þegar hun ſkedur i Trunne og ſialfkrafa, og

þarfyrir og so i þeirre hreinu Elsku; þviad su allra þægelegasta Guds Þionusta, sem Madurinn kann ad lata i tie er Elskan sem kemur af Trunne til Christs, og af einum frialsum Anda, nu er eckert meir frialst og oneydt enn Elskan; þannig knya og upphvetia þa allar Skepnur oss til ad elska Gud af øllum Kroptum og Mætte, med einum godum Vilia, af øllu Hiarta, an Hræsne, so og ad elska hann alleina og engvan anndn.

## Cap. XVI.

### Ein almenneleg Regla og Lærdomur, hvernig Madur a ad gefa þad Gude, sem hann er hønum skylldugur.

Loskvæd. 5. 1. Minn Vin, kome hann i sinn Alldingard og neyte af hans edla Avøxtum.

Lijka sem Skepnurnar eru skickadar af Gude til ad þiona Mønnunum, so eru og Menninir skickadir til ad þiona Gude, og þannig hefur Gud skipad Skepnunum ad vera vorir Frædarar og Skolameistarar i þeirre sijslan. Gefum giætur ad einu Tre, þad gefur Mønnunum ecke einasta sinn Avøxt, helldur gefur þad þeim hann og so fullvaxinn, sætann, godann velsma-

smackande, fullkominn og þægeligann; þvi væ-
re han ofullvaxinn, rammur og fordiarfadur;
þa hyrdte Madur ecke neitt umm hann, og þa
hefde Tried haft forgefins erfide? a Sama hatt
eiga og Mennirnir ecke einasta ad greida Gude
sina Þionustu, so sem Otta, Elsku, og Hei-
dur, helldur eiga þeir og ad giora þad a so þæge-
legann hatt, ad su siiálan kunne ad vera einn
fullvaxinn, fullkominn, sætur, og þægelegur
Avoxtur, i nafne Christi, og i Christo, fyrir
Heilagan Anda, sem verkar i oss alla goda Avex-
te. Þetta skal Madur kappkosta af øllum Krøp-
tum og øllum Mætte, med sinne Tru og Bæn,
ad hans Avoxtur kunne ad vera Gude þægele-
gur: eins og Tried erfidar fiorar arsins Tijdir
af øllum Krøptnum þar uppa, ad þess Avoxtur
geti ordid godur og þægelegur fyrir Manninn.
Þviad Gud vill ecke hafa einn beiskann rotin og
ofullvaxin Avoxt af Mønnunum, eins og
Mennirnir vilia ecke hafa hann af Trienu, og ef
þad ecke verdur godur og þægelegur Avoxtur,
þa er øll su Fyrirhøfn, sem Madurinn hefur haft
þarfyrir, forgefins onyt og topud. Eins og
Trien þiona ecke Mønnunumm med nockrum
vielum, svikum og flærd, helldur i stærstu ein-
felldne, vitanede ecke sialf hvad þau giora, og
þad er þeirra nattura, ad gledia og hressa Man-

 ninn

ninn, ſo ad Madurinn hefur þarfyrir Ynde og Eptirlæte ad horfa a Trien og Blomſtrinn; ſo a og Madurinn af eintomre Einfelldne fyrir utan alla Metordagyrnd, Gagn og Abata, fyrir utan alla Hræſne, Svik og Vielar ad þiona Gude af hreinu Hiarta, med godre Samviſku og af fa ſlauſre Tru; og til þeſſ ad hann gete gladt ſinn Skapara, og vered honum þægelegur og þocknanlegur. þarfyrir ſynir og Natturann oſſ, hvernig vier eigum Gude ad þiona, og ad vier eigum ecke ad gefa oſſ til frids, fyrrenn vor Avoxtur/Giorningur og þionuſta þocknaſt Gude, og verdur honum þægeleg. af hveriu Madur kann og ad ſia, ad jafnvel natturann og Skinſeminn kennir, ad øll ſu Guds Þionuſta ſem annadhvert er uppdicktud eda uppfundinn af Monnum, ellegar ſkedur an einfelldne, af Flærd og Hræſne, þocknaſt Gude ecke, helldur er fyrir honum ſo ſem einn fordiarfadur Avoxtur og verdur af honum ølldungis burtkaſtadur.

## Cap. XVII.

### Ad Madurinn ſem ecke elſkar Gud, gete ei affakad ſig med þvi, ad ſlijkt ſie honum annadhvert omøgulegt, eller og ſo ofur torvelldt.

Spek. B. 13. 9. Hafe þeir ſo mikid kunnad ad þeckia, 

ad þeir kunnu hatt ad ackta Skepnuna, hvarfyrir hafa þeir þa ei miklu fyrre hennar Drottinn fundid.

1. Joh. 5. 3.

Þad er Kiærleikurinn til Guds, þad vier hólldum hans Bodord, og hans Bodord eru eigi þung.

Gud hefur gefid Hiörtum allra Manna Vilia, og i Vilianum hefur hann ſkapad og plantad Elſkuna; þvi ad einginn Madur er an Vilia og Elſku, þad getur og einginn Vilie verid an Elſku; þvi ad hvad eg elſka, þad vil eg, og og hvad eg ecke vil, þad elſka eg ecke. So getur og Madur ſkilid af Naturunne, ad hans Elſka a ad ſnua ſier til hins allra beſta, og ad hann a ad elſka hid allra beſta. Og fyrſt ad Gud er þa þad allrabeſta, þa veit hann og af Naturunne og Skinſemenne, ad hann er ſkylldugur til ad elſka Gud, hellſt vegna þeſſ, ad hann veit þad og ſo af Natturunne, ad allt þad goda ſem hann hefur, þad hefur hann af Gude. þarfyrir þa kennir Natturann oſſ, ad vier erum ſkylldugir til ad elſke Gud. og þeſſvegna verdur einginn Madur afſakadur, ad hann hefur ecke elſkad Gud. Ef Hundar og ønnur ſkinlaus Dyr hafa vit a, ad elſka þa ſem giøra þeim gott, ſkyllde þa Madurinn alleina vera plumpur, ad hann viſſe ecke hann ætte ad elſka þann af hverium hann hefur allt þad gott, ſem hann hefur, og hvad meyra ſitt Lijf og ſina Veru? hellſt vegna

þess ad hann og so veit ad sa same er einnig hinn ædste og ypparste gode.

Suønnur Orsok hvarfyrir einginn Madur getur sig afsakad þar um, ad hann ecke hefur elskad Gud, er þesse: ad Elskan til Guds er ecke neinn þungur torvelldur nie kvalarfullur hlutur, i henne getur einginn Hørmung verid; þviad annars være hun ecke Elska helldur Hatur. Kiærleikurinn þreitist eigi, hans Erfide verdur hønum ecke surt nie þungt. Lyst og Elska til eins hlutar, giorir þessvegna Erfidid, sem Madur tekur sier fyrir hendur liett, hverju þungt sem þad annars kynne ad falla. ja! þad er einginn Leide i þeirre rettu Elsku, þviad kome Leide þar til þa er þad ecke framar Elska, Kiærleikurinn er þolinnmodur. Hann umber alla hlute, hann truir øllu, hann vonar allt, hann ummlídur alla hlute. 1 Cor. 13. 7. ad Elska er sætt, æskelegt, ununarsamlegt, fagnadarfullt og gledelegt. þarfyrir getur eingenn Madur afsakad sig fyrir þvi; helldur verdur þad bevisad uppa oss alla; ad vier erum skylldugir til ad elska Gud, og ad giora þad med Lyst og Glede; Fyrst Elskan er þad allrasætasta ununarsamlegasta og æskelegasta Verk, sem Madurinn kann ad giora. Og vier þeckium og so Guds vinseinge af þvi, ad hann hefur ecke viliad hallda Mannenum til einrar oþolande, þun-

rgar,

grar, torvelldrar og kvalafullrar Guds Þionustu, sem kynne ad giora Mannenum þungt i Skape, veikia hann, þreyta og þia til fulls: helldur til einnrar ununarfullrar, sætrar, listelegrar og þægelegrar Guds Þionustu, sem er innefallinu i Elskunne til Guds. þessvegna blifur þad vist og satt, sem sagt er, ad einginn Madur kann i þui affsakadur ad vera, ad hann hefur ecke elskad Gud.

Þo a þetta allt ecke so ad skiliast, sem Madurinn eptir Syndafallid kunne af Natturunne, og sijnum eiginn krapte ad elska Gud; þviad su sanna Guds Elska er eptir Syndafallid ein yfirnatturleg Guds Gafa, og Madurinn er af sialfum sier so spilltur, ad hann er þar til olldungis onytur, og getur ad minnsta koste ecke þeckt Gud, enn sidur Elskad hann. Enn þad hefur alltsaman þa Meining, og a so ad skiliast, ad hvers Manns eigid Hiarta og Samvitska bevisar þad uppa Mann, ad hann er skylldugur og ad elska Gud, og er argare og verre enn eitt skinlaust Kvikende, ef hann giörir þad ecke. Þad synir oss einnig þa yndisfullu Natturu og Edle Elskunnar, so ad vier, sem erum Christnir, giætum þar med ordid uppvaktir til ad þeckia slikrar Elsku Vinfeinge, og Sætleika, og þess kostgiæfelegar ad idka þad,

sem ecke einungis Guds Ord, helldur og ennig Natturunar Hlaup yfirbevisar oss, ad vier sieum skylldugir til ad æfa.

## Cap. XVIII.

### Ad øll su Skyllda og þionusta sem Madurin er Gude umm skylldugur, sie sialfum Mannenum alleina til gagns og goda.

Psalm. 19. 12.

Eirnin verdur hinn Þion fyrir hyn Bod aminntur, og hver ed vardveitir þau, sa hefur mikil Verdlaun.

Søkum þess ad Gud, so sem adur hefur verid bevisad i þeim fyrsta og ødrum Capitula, hverin og ecke verdur a mote sagt, er einn oendanlegur fullkominn og yfirgnæfanlegur gode, og þarf ecke ad medtaka og þiggia neitt af nockrum, fyrst hann hefur i sier sialfum allan Fullkomlegleika, og þad er omøgulegt ad hann skule nockud vanta, ellegar hann skule þurfa eins añars Þionustu vid, og hafa þar af nockurt gagn og abata; þa er þar af audradid ad Gud hefur einga þørf a nockurs Manns Þionustu. og þessvegna stendur i Ordskvidab. 9. 12. Siertu Vitur, so ertu þier Vitur, siertu Hadgiarn þa muntu þad ein-

einnsaman bera. Og Elihu seigir i Jobs B. 35. v. 6. 7. Ef þu syndgast (mote Drottne) hvad kannt þu vid hann ad giora? og ef þijnar Misgiordir eru margar, hvad kannt þu honum ad giora, og þo ad þu siert Riettvis, hvad kant þu ad gefa honum? eda hvad skal hann medtaka af þinum Hondum. Enn ef Madurinn þionar Gude, þa kemur þad honum sialfum til Gagns og goda, og þione Madur ecke Gude, þa hlytur hann sialfur Fordæmingu af þvi. Ecke alleinasta su Þionusta sem kemur fra ollum Skepnunum hlytur ad vera Monnunum til goda og nytsemda, fyrst Gud þarf hennar ecke med, og hun a þo ecke ad vera forgefins: helldur hlytur og so þar ad auke oll su Þionusta, sem Mennirnar sialfir giora Gude, ad vera eingum odrum enn sialfum þeim til gagns nytsemdar og nota. Þarfyrir a Madur og so þess kostgiæfelegar og af ollu Hiarta og af ollum Kroptum Gude ad þiona, fyrst þad er til hans eigin gagns, og Gud hefur eingan abata ede not þar af. Gud er so godur og giæskurikur vid mannenn ad hann syner Mannenum Elskunnar veg, til þess ad Madurinn a þessum Elskunnar veige, og þa hann elskar Gud sialfann, kunne ad odlast og ausa allt gott upp ur Brunne og Uppsprettu þeirrar eylifu Giæskunnar.

Eja! hvijlik yfirvættis Guds Giæska er þetta

ta, til Mannanna, ad hann hefur eckert skapad og skickad til sialfs sins gagns og goda, helldur alltsamann Mannenum til nota og goda/ og hefur sett þad so til, ad nær Madurinn elskar Gud og þionar honum, þa skal hann, þess meyr sem hann elskar Gud og honum þionar, niota þess, og þess helldur ødlast allt gott af þeim eylifa Goda.

Enn þad er ecki sagt i þeirre Meiningu, ad Madurinn kunne, med þvi hann elskar og dijrkar Gud, ad forþiena og forskullda nockud Gott af Gude; þvi allt þad Gott sem Gud lætur Manninn, er hann dijrkar og elskar hafa not af, þad kemur alltsaman fra Guds einskiærre Miskun og Nad; helldur er þad Meiningin, ad Gud hefur þad so tilskickad fyrir siijna Giæsku, ad hann vill lata þa sem hann elska og honum þiena, verda æ meyr og meyr af Nad hluttakara i hans goda; og eins og Bræde og Reide Hrellingar og Harmkvæle verda ad koma yfir allar Salir þeirra Manna, sem Illsku driijgia; so sem Paulus seigir; so skal Heidur, Vegsemd og Fridur vera yfir øllum þeim sem gott giora; Rom. 2. 8. 9. 10. og þarfyrir stendur þad fast og oefad sem sagt er, ad ef þu ert fromur og radvandur, þa hefur Gud eckert gagn af þvi/ helldur þu sialfur; fyrst Gud hefur einga þørf fyrir þad; og ef þu ert

ert vondskufullur og rangsnuinn, þa hefur Gud eingann skada af þvi, helldur einungis þu sialfur; og þvi seigia Menn almennelega.

Edla Dygdum yfred kiær,
alldrei Launenn þverra,
Enn um halsenn optast slær,
Odygenn sinn Herra.

# Cap. XIX.

## Samjafnan Tvennslags þionustu; þeirrar sem Skepnurnar syna Monnunum, og þeirrar sem Mennernir audsyna Gude.

Ordskvidab: 3. 21. 22. Son minn, lattu ecke (Speking) fra þijnum Augum vikia, þa muntu farsæll og hygginn verda. þadmun verda Lijf Salu þinne.

Fyrst þad er tvennslags Þionusta til; Þionusta Skepnanna, sem þær audsyne Monnunum; og Mannanna, sem þeir audsyna Gude: og þær badar koma Mannenum til gagns og nota: þa vilium vier athuga i hveriu þessar tvennslags Þionustur eru sier sialfum lijkar, og i hveriu þær eru sialfum sier olijkar. Madur getur ecke umbunad þa þionustu, sem hann hefur af Skepnunum, þviad hann hefur eckert, hvarmed hann fae þad giort, fyrst ad

ad allt þad sem hann hefur er Guds, og heyrir Gude til. Þessgioriſt og ecke helldur þorf, ad Madurinn þannig ſkyllde launa ſliſka Þionuſtu, þviad Godſemd, Meinleyſe og þionuſta allra Skepna hefur ſinn uppruna fra Gude, þarfyrir a ſu Elſka og Þacklæte, ſem ſkyllde fyrir þetta vera, latinn i tie, ecke ad greidaſt Skepnunum, helldur Gude, fra hverium ad allt gott kemur, og hefur ſinn Uppruna; og jafnvel þott Skriftinn ſeige, ad Madur ſkule vera þacklatur vid þa Menn ſem honum gott giora; þa a þad þo ecke odruviſe ad ſkiliaſt, en ad ſo miklu leite ſem þeir eru þau godu Medol og Verkfære Guds, ſo ad ſu Þock og Kiærleike, ſem þarfyrir a ad lataſt i tie, tilheyrir þo i firſtunne og allrahellſt Gude, ſem alla hialp giorir þa ſem a Jordu ſker. ſo ſem Spamadurinn ſeigir Pſ. 74. 12.

Madurinn þarf hvern dag Skepnanna Þionuſtu vid, til ſins Lijfs og Naudþurftar, enn þeſſvegna a hann þo ecke ad feſta ſitt Hiarta og Elſku vid þær, helldur alleinaſta vid ſinn Skapara, af hverium þær hafa allt þad gott ſem þær hafa; og med hveriu þær kunna Mannenumm ad þiona. Ad ſonnu lifir Madurinn vel af þeirre Þionuſtu, ſem Skepnurnar audſyna honum, og an þeirrar þionuſtu giæte Madurinn

rinn ecke lifad eitt augnablik. Enn hvadan hafa þær þad, ad þær giora Manne þa Þionuſtu? er þad ecke af Gude; þviad af hønum og fyrir hann og i hønum eru aller hlutir. Rom. 11. 36. Skepnurnar kunna ecke einum ad hialpa nie þiona, nema Gud ſkipe þad ſo; og þad er Manne eckert gagn ad hann lifir vid þa hialp ſem hann hefur af Skepnunum, ef hann ecke undir eins veit og þeckir, ad øll ſu Hialp kemur fra Gude, og ad Madur lifir þarfyrir i hønum: þeſſvegna verdur Madurinn afyſtur og aminntur med ſlijkra Þionuſtu Skepnanna ad þiona Gude og elſka hann.

Þad er eins og Gud villde þar med ſo ſeigia til vor: Sia þu lifir fyrir Skepnanna Þionuſtu, og fyrir þær hefur þu þad natturlega Lijf, af þeim Krapte ſem þær hafa feingid af mier, og jeg hefe þeim gefid: þarfyrir ſkallt þu læra af þeim ad þiona mier og elſka mig. Strax ſem Þionuſta Skepnanna, og allrahelſt Loptſins, tekur enda, og Madurinn ecke brukar hana framar, þa deyr hann, og miſſir ſitt natturlegt Lijf. a vidlijkan hatt, ſtrax ſem Madurinn hætter ad þione Gude og ad lifa i Chriſto, þa er hann i burt fra Gude, og er lifande Daudur. og eins og þad er Mannenum eckert gagn ad hann lifir, þegar hann ecke ogſo lifir gudrækelega:

ga: ſo kemur þad ecke helldur Mannenum til gagns ad Skepnurnar þiona undir hann, ef hann ecke og ſo ſialfur þionar Gude. og eins og þad er betra ad lifa Gudrækeliga enn Natturlega, ſo er þad og miklu betra, ad Madurinn þione Gude, enn ad allar Skepnurnar þionudu einum Manne.

Ja, ſa Madur ſem ecke þionar Gude, er ecke þeſſ verdugur ad hann hafe not af nockrar einnrar Skepnu Þionuſtu: þviad eins og Skepnurnar lifa til þeſſ, ad þær ſkule þiona Monnunum; ſo lifa Mennirnir og ſo til þeſſ, ad þeir ſkule þiona Gude. þar fyrir þiona og ſo allar Skepnur Monnunum, ad Madurinn ſkule i ſtadinn þiona Gude. og ef þad ecke ſkedur, þa er þionuſta allra Skepnanna til forgefins og onyt, og þa hefur Madurinn ſkammarlega ſvikid og misbrukad allar þær Skepnur, ſem honum hafa þionad. Þarfyrir hefur Gud ſkipad og tilſett ad allar Skepnur ſkylldu þiona Monnunum til þeſſ natturlega Lijfſins; ſo ad Mennernir ſkylldu þar af læra, ad þeir eru pligtugir og ſkylldugir til ad þiona Gude, og ad lifa Gudrækelega. Þetta er Samlijkingenn og Miſmunurinn a þeim tvennſlags Þionuſtum, ſem Skepnurnar audſyna Mannenum, og Madurinn audſynir Gude.

CAP.

# Cap. XX.

## Ad Madur meige klarliga sia af þeirre Þionustu, sem Skepnurnar giora, ad GUD vissulega hefur alla hlute sier i hende, og vidhelldur þeim.

Spek. B. 11. 26. Hverninn kann nockud ad standast ef ad þu villdir ecke? Eda hvorninn kynne þad ad vardveitast sem þu ei kallad hefur.

Fyrst Madurinn getur ecke lifad eitt augnablik an Þionustu hinna annara Skepnaña, og er þo su ypparlegasta Skepna, og hinar Skepnurnar, edur skapadir hlutir eru miklu audvirdisligre; þa er þar af augliost, ad þad er einn Gud til, sem og so vidhelldur hinum ødrum Skepnunum; þviad ef sa være eingiñ sem hiellde þeim vid, þa være þær betre og ypparlegre enn Madurinn; fyrst Mennirnir þurfa þeirra vid; og þær hefdu þo ecke Þørf fyrir neinn sem yrde ad hallda þeim vid. Enn fyrst þær eru miklu audvirdislegra enn Mennirnir, og Mennernir verda vissulega ad vidhalldast af þeim; þa verdur þar af ad vera augliost, ad þvilijkar Skepnur þurfa miklu meir þess vid, sem vidhallde þeim. Þviad ef su gøfugasta Skepnann, hver ad er Madurinn, þarf þess vid sem henne vidhallde, þa þurfa miklu meir

þær Skepnur, sem eru audvirdislegre, þess vid sem þeim kunne ad vidhallda.

Og fyrst su gøfugasta Skepnann, sem er Madurinn vidhelldur ecke ødrum Skepnum, eda skøpudum hlutum, helldur vidhelldst miklumeir af þeim, þa verdur þar af ad vera augliost, ad þad sie enn nu ein gøfugre Nattura til, enn sem Mannsins, fyrir hveria ad sliikar Skepnur vidhalldast fyrir Mannsins sakir. Þviad sa hinn same sem vidhelldur Skepnunum, hann vidhelldur og so Mønnunum fyrir Skepnurnar: og þad gerur einginn annar verid, en sa, af hveriumm bæde Menn og allar adrar Skepnur hafa sinn U pruna; þviad af hverium nockur hlutur hefur sinn Uppruna, af þeim hinum sama helldst hann og so vid: Þessvegna þa vidhelldur Gud øllum Skepnum Mannanna vegna, enn Mønnunum vegna sialfssins. Þannig þeckia þa Mennirnir af þvi ad þeir halldast vid, ad þad ma einhvør sa vera til, sem vidhallde øllum hlutum.

## Cap. XXI.

### Ad allur Heimurinn hafi fyrir Þionustu Skepnanna og Mannanna eina undrunarlega Sameining vid Gud.

Jerem. 10. v. 7. Þier Drottinn er einginn lijkur, þu ert stor og þitt Nafn er mikils hattar! hver skyllde ecke ottast þig þu Kongurinn Heidinna Þioda?

Malach. 1. Em Eg nu Fadir; hvar er þa minn Heidur? Er eg Herran, hvar ottast Menn mig?

Skior so vel og athuga hvilijk ein undrunarlig Nidurskipan og Sameining þad er a mille Guds og allra Skepna, fyrir þær tveñslags Þionustur. Allar Skepnur þiona Mønnunum, og eru skapadar vegna Mannanna, og fyrir þeirra Þionustu eru þær i Sambande og Sameining med Mønnunum. Þannig bindur Þionusta Skepnanna þær sialfar vid Mennena. Enn Mennirnir bindast vid Gud fyrir Guds Þionustu (med þvi þær þiona Gude.) Gud hefur i fyrstunne af Elsku skipad alla hlute Mønnunum til goda, og af eintomis Elsku dregur Gud og so Mennena jafnan til sin. Þarfyrir hefur Gud skipad / ad allar Skepnur skylldu þiona Manninum, og hann elska: Enn þegar Madurinn þar a mot þienar ecke Gude nie elskar hann, þa er Þionustu og Elsku allra Skepna, sem þær audsyna Mannenum, spillt; og hialpar øngum neitt. Enn ef Madurinn þionar Gude og elskar hann, þa hlytur bæde Guds Þionusta og Skepnanna Þionusta ad snuast Mañnenum til gagns og goda.

Skepnurnar hafa eckert gagn af þvi, ad þær þiona Mønnunum. allt þad gagn sem þar af kemur, er sialfum Mannenum til nota; enn þessmeyr sem Skepnann þienar Mønnunum, og þess krøptuglegar sem hun helldur þeim vid, þess ypparlegre, og gøfugre er þvilijk Skepna, og a samahatt; þess kostgiæfelegar sem Madur þionar Gude, þess ypparlegre er hann, og þess stærra gagn og not hefur hann af þvi. Þviad Gud hefur eckert gagn af Mannsins Þionustu, og hlytur Madurinn alleina sialfur allt gagnid. Þannig eru þa allar Skepnur samanbundnar vid Mennena, og Mennirnir samanbundnir vid Gud fyrir beggia þeirra Þionustu.

O Gud giæfe ad þad Band Einingarinnar og trurrar Þionustu, med hveriu Mennirnir þannig ættu ad vera bundnir vid Gud, være so fast og oupplleysanligt, sem Þionustuband Skepnanna er til Mannana! Skyllda og Þionustuband Skepnanna vid Mennenna slitnar ecke. Gud hefur hnytt þad so hart, ad Skepnurnar verda an aflats ad þiona Mønnunum, og geta ecke annad enn þionad þeim: Enn vesæll Madur, sundurslijtur, þessverr, optlega og margsinnis Þionustu og Elskuband sins Guds, og þad er þess verr, ad hann fullkomnar þad sem hinir vitlausu seigia i Psalm. 2. 3.

latum oss þeirra (Drottins og hans smurda) Bönd-
i sundur rifa, og i burt fleyia fra oss þeirra Reipum og
giora þeir sig so þar med audvirdelegre enn allar
Skepnur; jafnvel þo ad Madurinn sie af Nat-
turunne til giordur ypparlegre og ædre enn
þær allar. Ef þad er falligt og gøfuglegt; ad
Skepnurnar sem eru undir Mønnunum, þiona
Mønnunum so sem sinum Herra? hversu miklu
falligra og fegra er þad þa, og hversu miklu gø-
fuglegra er þad þa, ad Mennirnir þione Gu-
de? Ef ad su ytre og lijkamlega Skepnanna
Þionusta er fogur og yndisfull, hversu miklu
fegre og yndislegre ma þa vera su innre og and-
lega Guds Þionusta? Þviad so miklu betre sem
Salinn er Lijkamanum, so miklu betre og gø-
fuglegre er einnig Þionusta Salarinnar enn
Lijkamans; þannig verda þa allar Skepnur sam-
anbundnar vid Gud, fyrir þa Þionustu sem Ma-
durin lætur Gude i tie; og verda i Elskunne
fullkomnar, til þess ad þær skule ecke vera ska-
padar til onytis.

# Cap. XXII.

## Ad su Fijrsta og hellsta Elska, sem vier erum Gude ummskylldugir, fæde af sier eina adra Elsku til Mannanna.

1. Joh. 4. 21.

Þetta Bodord hofum vier af honum, þad hver hann elskar Gud, hann elske einnig sinn Brodur.

Madurinn; er, so sem adur hefur verid bevisad, Gude um alla sina Elsku fullkomlega skylldugur og pligtugur. Og Elskann er su fyrsta Skyllda, sem Gude a ad greidast. af þessu er Augljost, ad þad er oriett, og imote Rettvisenne ad gefa nockrum ødrum þessa sina Elsku. Þviad fyrst Gud, so sem kennt hefur verid, skeinkir og gefur Mønnunum sina fullkomna Elsku; þa eru og Mennirnir skylldugir ad endurgialda Gude eina fullkomna Elsku, og ma þarfyrir ecke skipta sinne Elsku, og gefa Gude Halfpartinn / og einum ødrum annann Helminginn. Gud alleina a ad vera elskadur af øllu Hiarta, af allre Ønd, og af øllum Mætte Deut. 6. 5. og einginn annar. Allt þad gott sem Skepnurnar kunna ad giøra, kemur fra Gude. Þegar Skepnurnar giøra Mønnunum nockud gott, þa giøra þær þad ecke af sier sialfum; helldur giorir Gud þad fyrir þær; hann bæde vidhelldur þeim, hefur skapad þær, og so skipad þær til ad þiona Mønnunum, og an hans kunna þær eckert og megna ecke neitt.

Fyrst ad Madurinn er og so ein Skepna sem er skipud af Gude til ad þiona ødrum Mønnum, sem

sem asamt honum eru til; þa er af þvi augliost, ad ef Madurinn giorir ødrum nockud gott, þa ma hann ecke tileinka og tilskrifa sier þad sialfum; helldur a hann ad tileinka og tilskrifa þad Gude, hver ad er Herra Himins og Jardar, og hverium alleina ad allir hlutir tilheyra. Og fyrst Madurinn er skylldugur til ad elska Gud yfir alla hlute fram / þa verdur hann lijka so ad elska þad sem Gud hefur kiærast af øllum sinum Skepnum, annars er hann i osatt vid þann goda Gud, og getur ecke vid hann forlikast. Enn nu elskar Gud Menniina framm yfir allar Skepnur, og þessvegna eru og so Mennirnir skapadir eptir Guds Mynd: þarfyrir hver hellst sem elskar Gud, hann er og so skylldugur ad elska adra Menn, so sem þa sem skapadir eru eptir Guds Mynd. Þarfyrir getur sa ecke elskad Gud rettelega, sem ecke elskar Mennena, so sem þa er skapadir eru eptir Guds Lijking. Næst eptir Gud a Elskann ad audsynast Guds Mynd, enn ad Madurinn sie Guds Mynd, þad seigia og hropa allar Skepnur.

## Cap. XXIII.

Orda og Nidurskipan Skepnanna synir oss, ad Mennernir eru Guds eigin Mynd.

1. Bok. Mos. 1. 26. Gud sagde Vier vilium giora Manninn eptir Mynd og Lijking vorre.

Af medal Skepnanna er ein viss Rod og Orda/ og margsslags imislegar Troppur og Greinarmunur. hvar med þær ad nockru leite eru lijkar Gude/ og so ad seigia sem sleckte epter honum/ ein meir/ onnur minna. Þær lifande Skepnur/ sem hafa Sanns og Tilfinning/ eru lykare Gude og hafa meir af honum/ enn þær sem ecke kunna ad sansa sig/ og eru tilfinningarlausar/ þær skinsemdarfullu meir enn þær skinlausu. Þar vier nu auglioslega siaum ad þad er hvilijk Nidurradan medal Skepnanna ad ein er Gude lijkare og hefur meir af honum/ enn onnur/ fra þeirre audvirdeleguſtu Skepnu/ allt til þeirrar ypparleguſtu/ og vier þaraf vitum/ ad Madurinn er su ypparlegasta Skepnann; þa meigum vier og klarlega sia af þvi/ ad su hædsta og ypparlegasta Trappa Guds Jmyndar/ hlytur ad vera i Monnunum/ hverier ed eru Endir og Takmark allra annara Skepna. Og þarfyrir verda Mennirnir ad hafa verid fra fyrsta Upphafe Guds Lijking og eiginnleg Eptir-Myndan; þviad annars være nidurradan Skepnanna til onytis/ af hverium ætid ein filgir og geingur nær Gude/ enn hinn onnur. Gud hefur innplantad i allar Skepnur eitt Teikn

eda

eda Fotspor, med hverium Madur getur rakid Spor hans sialfs, so sem þeirra Skapara. Eins og Madur þrickir Signete a Lack; þa hefur Gud latid eina Eptirþricking og spor vera eptir sig i øllum Skepnum, fyrir hver ad madur kann ad uppgøtva hann, þo eru þau i sumum meire enn i sumum minne.

Enn a Mennena, sem eru su ypparlegasta Skepnann, hefur hann giorsamlega þrickt sinn Signete tilfulls, og sinne Eptirmyndan, so ad Madur sier giorla hans Lijking a þeim, hvad Madur ecke kann, ad sia a hinum ødrum Skepnunum. Þessvegna kennir þa Ritningen Skepnanna oss, ad Mennernir eru ad øllu leite og fullkomlega skapadir eptir sialfs Guds Mynd. Fyrst ad Gud er þa ein andleg skinsemdarfull, Riettlat og heilog vera, þa hliota og Meñernir, sem eru hans Mynd, ad vera eins a sig komner: Af hveriu þad er þa augliost, ad Madurinn, ad so miklu leite, sem hann er Guds Mynd, verdur ad hafa eina andlega Sal og Skinsemdarfullt Hugskot, i hveriu ad su retta Guds Mynd i fyrstunne liete sig auglioslega sia og merckia.

# Cap. XIV.

## Ad hver Madur ut af fyrir sig sie skylldugur ad elska annan innbyrdis so sem sig sialfann, og ad þesse Elska sie sialfum hønum nytsamlig.

1. Joh. 4. 8.

Hvør hann elskar ecke sa þeckir ecke Gud, þviad Gud er Kiærleikurenn.

Sokum þess ad allir Menn eru skapader eptir Guds Mynd, og Gud vill giarnsamlega af einne hiartgroenne Elsku eundurnya sina Mynd fyrir sin̄ HeilagaAnda i øllumMøn̄um, og giøra þa alla saluholpna fyrir Christum. þessvegna þa skulu allir Menn, og allrahellst Christnir-menn og truadir elska hver annan innbyrdis, sem sialfa sig, so sem þeir, hverier ad eru af sama Edle, somu Natturu og Ættar; og einn a ecke ad virda einn annann fyrir sier, so sem þann er hønum kiæme ecke neitt vid, helldur so sem þann, sem er af sama Uppruna. þviad þad er einn Gud, af hverium allir menn hafa þeigid þeirra Lijf og Veru, og hann hefur giørt þa alla af einu Blode, so sem Paulus seigir Giørn. P. 17. 26. þessvegna hvad sem Madurinn æskir sier sialfum, þess a hann og ad oska ødrum,

ødrum, og a þad ad vera hans Hiartans Eptirlaungun, ad øllum Mønnum mætte lijda vel, og ad þeir ſem Gud hefur ſkapad eptir ſinne Mynd, og eru frelſtir og endurkeyptir fyrir Chriſtum, mættu aller eflaſt til gods, og frelſaſt fra þvi vonda.

Þarfyrir ſkal þad ſterka Fridar og Sameiningar-Band vera med Mønnunum, og allir Menn eiga ad alytaſt ſem einn Madur, þviad þeir eru allir ſkapadir eptir Guds Mynd, og hafa allir einn Frelſara og Saluhialpara. Eins og ſu Fyrſta og ſtædſta Elſka heyrir Gude til, og a hønum ad greidaſt med rettu, ſo a og ſu Ønnur Elſkann eptir Natturunnar Rette, ad greidaſt þeim, ſem er ſkapadur eptir Guds Mind. Fyrſt Madurinn er vegna ſinnar Salar ſkapadur til ad vera Guds Mynd, þa er auglioſt þar af, ad hver Madur a ad hafa eins annars Sal, lijka ſo kiæra ſem ſina eiginn. Þannig eru tvø Elſkunnar Bønd i Mønnunum. Med þvi fyrſta er Madurinn bundinn vid Gud, og med hinu ødru vid ſinn Naunga. og þad annad vex af þvi firſta, og være ecke þad firſta, þa være ecke helldur þad annad. Þar fyrer athuga þu mitt Barn undrunarlega Nidurradan! Gud hefur elſkad Mennena fra fyrſta Uphafe, og elſkar þa oaflatanlega. og þvilijka oaflatanlega Elſku auglyſa

lysa einnig Skepnurnar med þeirre daglegre Þionustu er þær audsyna Mannenum. þannig dregur Gud Mennena til sin fyrir siina Elsku, og þar yfirbevisar hann þeim, ad þeir eru skylldugir til ad elska hann. og undir eins yfirbevisar Gud Mønnunum, ad þeir eru eptir hans dæme skylldugir ad elska sig innbyrdis an aflats, og þessvegna hefur hann og i fyrstunne plantad sina Mynd i þeim øllum.

Su Elska sem er þannig medal Mannanna indbyrdis, kemur sialfum þeim til gagns og til hins besta; þviad fyrst su fyrsta Elska, um hveria Mennirnir eru Gude skylldugir, og Guds Þionusta, kemur Mønnunum so sem adur hefur verid bevisad, alleina til hins besta, þa verdur þad vissulega ad vera, ad su ønnur Elskan, sem Mønnunum tilheyrir, verdur og so ad koma Mønnunum einungis til goda; þviad su ønnur Elskann kemur af þeirre fyrstu. Þad er einn Partur af Guds Mynd i Mannenum, ad Madur elskar sinn Naunga, en nu er þad sialfra Mannanna gagn, nytsemd og gode, ad þeir eru Guds Mynd. ad elska Gud og Menn, er su fyrsta Skyllda sem Madur a ad giora. Þessvegna verdur su Elska ad vera Mannsins hellstu og ypparlegustu Glæde. Allt þad gott og øll þau Not sem Madurinn a adhafa,

ver-

verdur ad hafa eina Rot, af hverre þad uppvex og upprennur. Þesse Rot er Elskann, og hvadhellst sem ecke uppvex af henne, af þvi kann Madurinn ecke rettelega ad hafa nockud Gott eda Gagnsemd. Þvi er þad auglioست, ad þess meyr sem Elskan til Guds og Mannanna vex og eykst i einum, þess meyr vex og eykst eins ypparste gode.

# Cap. XXV.

## Fyrst allar Skepnur þiona øllum Mønnum an Greinarmuns, þa kenna þær oss med þvi, ad allir Menn skule hallda hver annan innbyrdis sem einn Mann.

Malach. 2. 10. Høfum vier ecke allir einn Fødur? hefur ecke einn Gud skapad oss? Hvarfyrir forecktumm vier þa hver annan.

Gud hefur skapad Skepnurnar þannig, og inngefid þeim þad, ad þær an Adgreiningar og Mismunar þiona øllum Mønnum. Og ad so miklu leite sem þad stendur i þeirra vallde, þa giora þær þad eirnenn, og þiona aungvum meir edur minna, enn ødrum. Elldurinn logar eins vel fyrir Fatækum, sem Rijkum; Eins þiona og hinar adrar Skepnurnar sier hve-

hverium Manne an Greinarmuns; pær virda ecke einn meir enn annann; giøra eingann Mismun a Borgara eda Bonda, Haum eda Lagum, Rijkum eda Fatækum. Jordinn þienar Bondanum eins vel og Herramannenum; so og einnig Loptid, Vatnid, Brunnarinir, Dyrinn, ja ogso Solinn, hver ad er su Fegursta Skepna, og þienar þo øllum Mønnum jafnt og eins mikid.

Hvad kemur þa til þess, ad allar Skepnur þiona Mønnunum an Mismunar? þad skedur vegna þess, ad Gud vill ad allir Menn skule virda og hallda hvern annann innbyrdis, lijka sem einn Mann. þarfyrir hefur Gud skipad øllum Skepnum, ad þiona øllum Mønnum og veita þeim Virding firir utan Mismun. Þvi þær eru allar giørdar og skapadar eptir Guds Mynd. Þessvegna a og Madurinn ad þiggia Þionustu Skepnanna med Þacklæte; ef hann ecke giørir þad, þa er hann ei þess verdur ad nockurein Skepna skule hønum þiona. Hvad hugsar þu Madur? fyrir hvada orsøk, ætlar þu ad Gude hafe skipad, ad so margar agiætar Skepnur af hverium allur Heimurinn er fullur, skyllde þier þiona? þvi hefur Gud þvilijkt tilsett, þier til Þionustu? An alls efa þessvegna, ad þu att ad haga þier so sem Guds Mynd; og

værer þu ecke skapadur eptir Guds Mynd, þa mætter þu vera vissuppa, ad ecke nockur einasta Skepna være buinn til ad audsyna þier slijka sierdeilis Hlijdne og Þionustu. Fyrst þær skinlausu Skepnurnar þiona þier þa, og virda þig þessvegna, ad þu ert skapadur eptir Guds Mynd; þa attu þess miklu framar ad þiona Naungauum, og virda hann, fyrst hann er og so skapadur eptir Guds Mynd. Þarfyrir kenna Skepnurnar þier, hvarfyrir þu eigir ad þiona þijnum Naunga og ad elska hann; og þad einnig; ad lijka sem allir Menn eru þeim so sem einn Madur, so eiga þeir ad vera fyrir þier so sem einn Madur.

Allir Christnir-Menn eru hluttakendur i þeirre einu Sameiningu Guds og Kiærleika, og hver Madur er skapadur eptir Eiginnlegre Mynd þess Einasta Guds. Þad er og ein almenneleg Elska, sem Gud hefur a ollum Monnum, fyrir hveria hann hefur skapad þa alla i fyrstunne eptir sinne Mynd. þannig eru og Guds Velgiørningar almennelegir; allir Mēn hafa og eina almennelega Þørf, Skort og Naudþurft, so ad þeir þurfa allir Guds vid. Þeir eru og allir skylldugir til ad elska Gud, vegna þeirra Velgiørninga sem þeir þiggia af honum, og eru allir skylldugir til ad þiona honum

num fyrir þa, so sem allra þeirra Herra. Þeir hafa og allir eitt almennelegt Upphellde, ja eina almennelega Natturu, og eitt almennelegt Nafn, ad þeir eru og kallast Manneskiur; niota og allir þionustu af øllum Skepnum an manngreinaralits, fyrir utann Adgreinning og Mismun, eru og allir undirorpnir þeim eina og sama Endir, hver ad er Daudinn. Þarfyrir eiga þeir vissulega allir ad hallda sig hverier vid adra sin a millum, sem einn Mann, og hallda Frid og eindrægne inbyrdis.

Af øllu þessu vex og so tvofallt Broderne: Fyrst eitt almennelegt Broderne, søkum þess vier erum allir Guds Skepnur, og høfum vora Veru af Gude, so sem allar adrar Skepnur. J annan mata eitt sierdeilislegt og nærskylldara Broderne, og Frændseme, med hveriu Mennirnir eru skildir fra ødrum Skepnum, og er i þvi innefalid, ad allir Menn eru skapadir eptir Guds Mynd. Þetta er nu þad sem Natturann kennir oss af þeim Truarinar Artikula umm Skøpunenna. Enn Evangelium kennir oss eñ þa eitt hærra ipparlegra Broderne i Christo JEsu, fyrir hvert vier allir, sem erum iñplantadir Christo fyrir Skirnena, erum eitt; og erum allir inbyrdis Limir under einu Hofde, sem ad er Christur, a hverium allur Liikaminn samtengist, og eirn Limurinn ødrum hangir Eph. 4. 15. 16.

# Cap. XXVI.

## Ad sa meste Stirkleike, sem Madurinn hefur, kome af þeirre Forlijkun. edur Einingu, sem su natturlega innbyrdis Skyllda bydur Mønnunum ad hallda.

Ephes. 4. 3. Verid kostgiæfnir ad hallda Eindrægne i Andanum fyrir Band Fridarins.

Fyrst sa hædste Stirkleike kemur af Eindrægnenne, eñ ostyrkleike og ecke nema einungis Vanmattur af Osamlynde og Oforlikun; Þa er þar af auglioſt, ad þess stærre sem Eindrægnin er, þess stærre er Stirkleikinn, og þess stærre Eindrægne, sem þad er med Mønnum, þess Sterkare eru og Mennernir innbyrdis. Enn so ad þesse Eindrægne kunne ad vera rett stor, Þa hlytur hun ad hafa sijna Uppsprettu og Uppruna af Forlikunnenne vid Gud, þess meira sem einn er fyrir Truna og Elskuna samteingdur Gude, þess stærre er og hans Eindrægne vid Guds Søfnud, og adra Christna-Menn. Hver sa sem er samteingdur Gude fyrir Kiærleikann, eda hver sa sem elskar Gud hiartanlega, sa hinn same giører sig ecke fraskila sinum Naunga; helldur ad mikluleite sem hønum er mogulegt, þa helldur hann Frid og Eindrægne vid alla

S Menn.

Menn. Þad er omøgulegt ad nockur gete Gud elſkad, og undir eins hatad þann ſem elſkar Gud af Hiarta. Ja þeſſ meir ſem einn elſkar Gud, þeſſ meir vill hann og elſka þann ſem er elſkadur af Gude: og þeſſ meir ſem Mennirnir elſkaſt inbyrdis þeſſ meir ſamteingiaſt þeir innbyrdis. Þeſſe Eindrægne varir ſo leinge, ſem Kiærleikurinn varir, enn Kiærleikurinn kann og a ætid ad vara. Þarfyrir getur og a Eindrægnen ætid ad vera, og þeſſ meir ſem Elſkann vex, þeſſ ſterkare verdur Eindrægnen, og þar af kemur einn oyfirvinnanligur Stirkur.

So ſier Madur þa, ad þegar Mennirnir elſka Gud, þa elſke þeir ſig ſialfir innbyrdis, og verda fyrir þeſſa Elſku ſterkir og mecktugir. Enn þegar Mennirnir hyggia alleinaſta ad ſialfum ſier, og elſka ecke Gud, helldur leitar hver ſins Abata einungis, þa verda þeir rangſnuner ſundurlyndir, og þar med olldungis veikir og vanvanmattuger. Þarfyrir kemur Einndrægninn ad ſtoru Gagne, og til mikils gods manna a medal, og er þeirra ſtærſte Stirkur. Og ſo leinge ſem Eindrægnin varir, ſo leinge varir þad gott, ſem Mennirnir geta allir tilſamans nytt ſier og brukad. En nær þeir verda ſundurlyndir þa getur einginn haft not af þeſſu almennelegu goda, helldur fer hver fyrir ſig a mis

mis vid þad, sem þeir allir hofdu til samans, og gatu behalldid sameiginlega, og haft gagn af. Ef ad Menn hielldu fast a Eindrægnenne, og væru þar i stødugir, þa giæte þeim einginn Aras nie Ofbellde ad skada ordid. So mikid gott hlytst og vex af Elsku Guds og Mannanna.

Þannig erum vier nu allt hingad til, allt fra þeim nedstu Skepnunum, lijka sem uppeptir einum Stiga, komnir upp til Guds, til Guds Þeckingar og Kiærleika, so sem til þess ædsta Goda, þess hædsta Visdoms, þeirrar hædstu Macktar / og þess fyrsta Upphafs allra hluta; og hafa Skepnurnar þar i yfirbevisad oss, ad vier erum skalfskylldugir til ad elska Gud; erum og sidan aptur nidurstignir fra Skaparanum til Skepnanna, fra Elsku Skaparans, til Elsku Mannanā; þetta er su natturlega uppog nidurganga.

# XXVII. Cap.

## Umm Elskunnar Natturu, Eiginlegleika og Averxte.

Luc. 11. 35. Þvi sia so til ad Lios þad sem i þier er sie ei Myrkur.

Vist er þad, ad vier hofum eckert, sem i raun riettre

riettre ſie vort eigid, og ſtande i vorum efnum og Vallde, nema Elſkuna: þarfyrer er ein rett og god Elſka vor einaſte Fieſiodur, og lijka ſem allt þad gott er vier eigumm, og þar þvert a mote ſu vonda Elſka, allt vort hid illa, og øll vor Oluka og Fordiorfun; og þa er eckert gott af øllu þvi oſſ vidkemur. Ef ad vor Elſka er god, þa erum vier og ſo godir og radvandir; enn ef vor Elſka er vond, þa erum vier vondir. Elſkann ſynir og beviſar hvert einn er godur eda vondur. So ſem eckert getur betra verid i oſſ; enn ſem god Elſka, eins getur eckert verra fundiſt i oſſ, enn vond Elſka og folſk. Og fyrſt vier hofum eckert ſem med rettu ſie vort eigid, eins og ſagt hefur verid, utann Elſkuna; þa er og audradit, ad þegar vier gefum nockrum vora Elſku, þa hofum vier gefid honum allt þad ſem er i vorre eigu: ſo og eirnenn, nær vier hofumm burtkaſtad og tapad vorre Elſku, þa hofum vier ſpillt og tapad øllu þvi ſem vier høfdum, og hvad meira er, vier hofum ſpillt, tapad og miſt oſſ ſialfa; og vier miſſum þa vora Elſku og gløtum henne, þegar vier ſnuum henne til þeſſ ſem Illt er, og tilhvers ad Elſkan a ecke ad brukaſt. Fyrſt ſu goda Elſkan er og ſo allt þad gott ſem vier eigumm, og ſu vonda Elſka, vor ſtærſta Illſka; þa er af þeſſu auglioſt, ad allar Dyg-

dir

dir eru rotfestar i þeirre godu Elskunne; og þar þvert a mote, allar Dygdir og Lestir i þeirre vondu og følsku. Þarfyrir hver sem rettelega þeckir Eigennlegleika Elskunnar, hann þeckir og rettiliga þann ipparsta Goda, sem og einnig þa stærstu Vondsku.

# Cap. XXVIII.

## Eiginlegleike Elskunar er, ad hun samteingir sig og giørist eitt med þeim hun elskar.

1. Joh. 4. 16.

Gud er Kiærleikurinn; og hver i Kierleikanum blijfur, sa blijfur i Gude, og Gud i hønum.

Elskann samteingir sig þeim sem hun elskar; þviad þad er Edle og Nattura Elskunnar, ad hun gefur, utbitur og hurtskeinkir sig sialfa þeim, sem hun elskar, og fyrst Elskan verdur ecke þvingud; þviad eingiñ getur neydt eda þvingad nockurn til ad elska annan; þessvegna er og Elskann ein frijviliug Gafa, hver ed gefur, af sier sialfre til, liuflega, og oneydd, sialfa sig og utbijtir sier sialfre. Hvad sem nu er ødrum gefid, þad er i hans vallde, þar fyrir er og El-

skann i þessvallde sem hun er gefinn, og verdur hun hans eiginn og i hans vallde.
Fyrst ad Madurinn hefur þa ecke nockud annad sem sie hans eigid, jafnvel þott Gud hafe hønum þad allt inngefid, nema sina Elsku, þa er þar af auglioft, ad hver sa sem gefur ødrum sijna Elsku, hann gefur hønum sig og so sialfan; og med þvi mote samtengist sa sem elskar, vid þann, sem er elskadur, verdur eitt med hønum, og so verdur eitt ur þeim badum: og til þessarar Sameiningar verdur einginn neyddur eda þvingadur, helldur er hun sialfviliug/ yndisfull og sætt; og dregur þann sem elskar til þess sem hann elskar; so ad Elskann fær og so sitt Nafn, af þvi sem hun elskar. Þvi ad elske Madur iardneska hlute, þa heitir þad ein iardnesk elska; elske Madur nockud daudt, þa heitir hun ein daud Elska; elske Madur Dyr og Fenad, þa heitir þad Dyra og Fenadar Elska; elske Madur Meñena, þa heitir þad mannleg Elska; og ef Madur elskar Gud þa heitir þad Gudleg Elska.
Þannig getur Madur fyrir Kiærleikann og Elskuna ummbreitst, annadhvert i þad sem er tignara, eda i þad sem er otignara. Sokum þess ad Elskann ummbreitir og so Vilianum, og ein god ummbreiting og umskipte eiga ad ske til þess, sem er betra og tignara; þarfyrir þa ei-
gum

gum vier ecke ad gefa vora Elsku þvi, sem er lakara enn vier sialfir; helldur þvi sem er betra; ja vier skulum gefa hana olldungis i þess valld sem er hid tignasta, ipparlegasta og kostulegasta, þad er Gude alleina, annars verdur vor Elska og vor Vilie oedla og ad eingu. Natturann kennir oss, ad þegar nokur Umbreiting er god, þa ummbreitast þeir hlutirnir sem lakare eru i þad sem er betra og ædra. Elementinn, so sem ad eru Jordinn, Vatnid og Loptid, umbreitast og verda ad Jurtum og Triam; og Jurternar ad Natturu Dyranna, enn Dyrinn ad Hollde og Blode Mannanna, þannig a og so vor vilie og vor Elska ad umbreitast og verda ad þvi sem er betra, nefnelega til þess sem er gudlegt, med þvi mote ad hun verdur hluttakande i þeirre guddomlegu Natturu Annars er allt onytt og til einkis, og su retta Nidurskipan Natturunnar verdur brotinn og fotrodinn. Þessvegna hropar og kallar oll Natturann, ad Gud sie þad fyrsta, besta og tignarlegasta, sem a ad vera elskadur af oss, fyrst hann er betre ypparlegre og agiætare enn allar Skepnur.

# Cap. XXIX.

## J Heimenum er eingin hlutur ſem forþiene nockra ſierdeilis Elſku af oſſ, utan þad ſem kann ad elſka oſſ aptur, og getur forbetrad vora Elſku.

1. Joh. 2. 15.

Eigi ſkulud þier Heiminn elſka, nie neitt þad i Heimenum er.

Fyrſt vor Elſka er ſu veglegaſta og ypparlegaſta Gafa, og dregur vorn Vilia, til Vilia Natturu og Edles þeirra hluta ſem vier elſkum; ſo ad þad ſem vier elſkum, ſtiornar vorum Vilia; og þad er hverke rett nie billegt, ad einn lijtilſiorlegre og overdugre hlutur ſkule ſtiorna og hafa yfirrad yferþvi ſem er gøfugra og betra. Vor Vilie og Siñe erog ſo i Saleñe og Andanum og þarfyrir er hvertveggia þeirra gøfugra og betra, enn allt þad ſem er likamlegt. Þarfyrir er einginn lykamlegur hlutur þeſſ verdur, ad hañ ſie ſierdeiliſlega elſkadur af oſſ; og þarfyrir er hverke Gods nie Audæfe, Tre ellegar Element, Hus eda Hagar, Dyr eda Fuglar, ja ecke ſialfur vor eiginn Lijkame og Lijf, þeſſ verdt, ad niota vorrar ypparleguſtu og inneleguſtu Elſku. og fyrſt þad ſem er gøfugra, hærra og betra

tra, stiornar rettelega yfir þvi sem er otignara og lakara, og med þvi Gud er sa hædste og tignarlegaste, þarfyrir er Gud alleina þess verdur, ad hann sie elskadur af oss framar øllum hlutum. og utheimtir þa su retta Nattura og Eiginlegleike Elskunnar þad, ad Gud alleina skule elskast af oss i allra frekasta lage, og eckert annad.

Sokum þess, þad er bæde faviisslegt og orett ad elska þad, af hveriu Madur kann ecke aptur a mot elskadur ad verda, og þad sem ecke hefur vit a hvad elskann er, og ad hun er Mannsins dirmætaste fiesiodur; þvi skulum vier þeirrar Orsakar vegna, ecke gefa vora Elsku nockre þeirre Skepnu, sem eckert Liif i sier hefur, og ei getur auglyst oss aptur a mot nockra Elsku, helldur einungis fordiarfar og kvolar alla vora Elsku, giørir hana, iardneska, bestiulega, og ad emne daudre Elsku: helldur skulum vier gefa Gude vora Elsku, og elska Gud, sem getur elskad oss aptur a mot; og fyrst Gud elskar oss framar enn allar adrar Skepnur, þa er skylldugt og rettviist ad vier elskum hann framar øllum ødrum Skepnum, hellst vegna þess ad hann ecke spillir vorre Elsku, helldur giørir hana ypparlegre, og gefur oss aptur a mot sina allra tignarlegustu Elsku, hver ed langt yfirgeingur

alla vora Elsku; þviad hans Elska er fyrir utann mælir og mata, so og eylif, og varir æ og ad eilijfu yfir þeim sem hann ottast.

# Cap. XXX.

## Þad er tilhlidelegt, ad su hellsta Elska Mannsins sie gefinn Gude framar øllum hlutum, so sem þeim hver ad er hinn fyrste og sijdaste, og Upphaf allra Skepna.

5. Bok. Mos. 32. v. 4. Gud hann er trulyndur og an allrar Vondsku; hann er Rettferdugur og godur.

Oll Natturann ber vitne umm i Mannsins Samvitsku, ad su hellsta og ædsta Elska eige ad gefast Gude: Fyrst vegna þess, hann er sa h) dste og eylife Gode. Þarnærst, vegna þess ad Mennirnir og allar Skepnur hafa sinn Uppruna af hønum; og i þridia lage, af þvi ad Guds Giæska og Elska, sem hañ audsynir øllum Skepnum gefst og so Mønnunum. Þvi utkrefur Netturinn, og su natturlega Skyllda þad, ad Elskann til Guds gange undan Elsku til annara hluta, og hafe i Mannenum hinn fyrsta og ypparlegasta stad. Vissulega er eingin hlutur so maklegur vorrar Elsku, sem Gud sialfur; Og þad er su hin ypparlegasta, retta, sanna,

sanna, tilhlidelegasta og skickanlegasta Elska, ad vier hann elskum. Enn þegar Sialfs-elskann ellegar Elska til Heimsins, hefur hid ædsta Sæte i Mannenum, og Madur fyrst og fremst elskar annad hvert sialfan sig, ellegar nockra adra Skepnu; þa er þad ein oskickanleg, orettvis, folsk og ogudleg Elska; og er þad bæde a mote Guds, og a mote Natturunnar Nidurskipan, Logmale og Veniu. Nær eg gef mier sialfum þa fyrstu Elsku, hveria mier somer ecke ad lata mier sialfum i tie, helldur Gudi; þa giore eg Gude þann stærsta oriett, og vanvirde hann i allra mesta mata. Og er þad Gude a mote a tvefalldan hatt; Fyrst med þvi mote, ad eg hef ecke Gud i so mikille Virdingu, og ecke so kiærann, og ecke so miklum Havegum, sem mig sialfan. Þarnæst med þvi, ad eg tek þad fra Gude sem hann a med rettu framar ollum Skepnum, og gef þad þeim hlutum sem eru skapadir af honum; sem er sa stærste oriettur, og i mot allre Natturenne; og allt hid sama skedur, hvad heilst sem eg sierdeilislega annad hvert elska meir enn Gud, ellegar jafnt Gude.

Cap.

# Cap. XXXI.

## Ad ſa Madur, ſem elſkar ſig ſialfann framar øllum ødrum Hlutum, giøre ſig ſialfann ad Gude, og elſke ſig ſialfann meira enn Gud.

Dan. 9. v. 7.

Þu Drottinn ert Riettlatur, enn vier meigum ſkammaſt vor.

Pſalm. 115. v. 1.

Eigi oſſ Drottinn, eigi oſſ, helldur Þijnu Nafne gef Þu Dijrdena.

Fyrſt ad Gud er Upphaf og Endir allra hluta, Þa a hañ alleina med rettu Þa hellſtu Mannſins Elſku; og Þad er ſkylldugt, ad hann alleina ſie elſkadur framm yfir alla hlute. og nær Madurinn giørir Þad ecke, helldur elſkar ſig meyr enn Gud, Þa fremur hann Afgudadijrkun, og giørir ſig ſialfan ad Afgude; ſem er hinn ſtærſte Fiandſkapur gegn Gude, Þviad Þar med helldur Madurinn ſig ædre og ypparlegre ad vera enn Gud, og hefur ſig kiærare enn hann: og ſokum Þeſſ ad Elſkann ſnijſt ad Þvi og ſamteingiſt vid Þad ſem Madur elſkar, Þa lender Madurñ Þar vid, ad hañ Þannig elſkar ſig ſialfan meir enn Gud,ølldungis Gude fraſnuinn. Og fyrſt ad ſlijkur Madur elſkar ſig ſialfann all-

allra hellst, og framm yfir allt, þa elskar hann, og so alla hlute fyrir sialfs siins skulld, og i sier sialfum, i stadinn fyrir þad, ad hann skyllde annars elska alla hlute fyrir Guds skulld, og i hønum; og hefur hann þa i sier sialfum Grundvoll og Astædu sinnar elsku, sem hann þo med rettu ætte ad hafa alleinasta i Gude. og fyrst soddan einn Madur elskar sig sialfan, so filgir hann einungis sinum Vilia, og ecke Guds Vilia; þviad af Sialfs Elskunne uppkemur og so Einþycke, og eiginvilie, Metordagyrnd og Hros. Og þannig tekur þa Madur þad sem tilheyrir Gude, og leggur þad undir sig, og tileignar þad sier. Allt eins og ef einn tæke Coronu fra einum Konge, og sette hana uppa sig sialfann. Þvi so vill Madurin þa sialfur vera Gud og Kongur, og hefiast til Riikis i mote Gude, og striida vid hann. Med soddan mote ollir Sialfs Elskan þvi, ad Madurinn verdur Guds svarinn høfud ovinur.

## Cap. XXXII.

Þegar ad Elskann til Guds hefur yfirradinn i Mannenum, og er hans hellsta Elska, þa er hun su fyrsta Rot, Upprune og Brunnur alls Gods. Eins liika þegar Sialfs Elskann hefur Yfirradinn, þa er hun Uppspretta og Rot til alls hins Vonda.

Oſ. 13. v. 9. Iſrael þu kemur ſier i Olucku, þvi ſiin Hialp er alleinaſta hia mier.

Elſkan er eptir ſijnum hætte orſøk til allra hluta, og allir hlutir ſke fyrir Elſkuna. Fyrſt Elſkann til Guds, og Elſkann a ſialfum ſier, eru innbyrdis ſvarnir Fiandmenn, þa hlytur ſu eina ad vera yfridgod, og ſu ønnur yfrid vond; Enn nu er Elſkan til Guds yfrid god, þviad hun a advera þad ypparlegaſta, ſem er i Mannenum. ſo er og Elſkan til Guds eitt guddomlegt Sæde i oſſ, af hveriu ad allt gott vex, og eckert vondt kann ad vaxa, af þeirre Guddomlegu Elſkunne: þviad fyrſt Elſkann ſamteingir ſig vid þann ſem hun elſkar: þa ſamteingir ſig Elſkann til Guds vid Gud, hver ad er ſa ypparſte Gode; blifur ennig og hvilir i Gude, og Gud i hønum, ſo gledur hun ſig eirnen i Gude, og Gud i henne: þviad Gledinn fædiſt af Elſkunne, ſo ad David ſeigir i þeim 28 Pſalme v. 7. Drottin er minn Stirkleike og minn Skiolldur, a hann vonar mitt Hiarta, eg em holpinn, og mitt Hiarta er gladvært. Hun utbreidir ſig og yfir alla Menn, og gefur ſig hverium Manne, eins og Gud. Elſkann til Guds þarf eingrar Skepnu vid, hun hefur nog i Gude, i ſijnu hædſta Ynde og Glede. þvi er þad auglioſt ad Elſkann til Guds er hardla God.

Iſa-

J sama mata er og Sialfs-Elskann, og su sem ecke elskar Gud, þar hvert a mote, hardla vond. hvad og dagleg reinsla kennir; eins og eckert vondt getur vaxed i oss af Guds Elsku, helldur allt gott; so er sialfs Elskan þar hvert a mote, ein Rot til alls ills i oss, af henne framkemur allt illt, af henne framkemur oll Orettvise, Synd, Odygd, Blindne, Vanvitska, Kvol og Angist. Med Sialfs-Elskunne giorir Madurinn sinn eigin Vilia ad einum sølskum Gude, eda Afgude: Lijka sem sa sanne Gud er ein Uppspretta til alls gods, so er og eirnenn sa falske Gud, sem er Mannsens eigenn Vilie, Uppspretta til alls ills. J Sialfs elskunne yfirgefur Madurinn Gud, og helldur sig einungis til Skepnunnar, hveria hann allramest elskar; nu er þo hver Skepna giord af aungvu, hefur og i sialfre sier eingan Stødugleika/ stadfestu og vissu, helldur stundar af Natturunne til sinnar Foreidslu og ad verda eckert, og ætid lijdur hun nockurn Skort og Brest. Fyrst Elskann ummbreitist nu i þess Edle, sem Madur elskar, þa kann sa Madur, sem elskar sialfann sig, ecke ad hafa nokra Stadfestu eda vissu, helldur sifelldlega ad reika hingad og þangad, og vera ostødugur, getur alldreigi haft Ro, vantar ætid eitthvad, og er si-þurfande, vegna þess, ad

ad hann hefur med sinne Oordulegre Elsku ummskipt og ummbreitt sier i edle og Natturu þess hins forgeingeliga. Søkum þess ad Skepnan er i sialfre sier Hegome og Forgeingelegleike, þa umsnyr og ummbreitir sa Madur, er sig sialfan elskar, sier sialfum i soddan Hiegoma og Forgeingelegleika. Og med þvi hann er kominn uppa Skepnurnar, þa elskar hann þær og so vegna sinnar þurftar og Neydar, og er þeim undirgiefinn. og vegna þess ad Skepnurnar fordiarfast, umbreitast, og verda ad eingu, þa er og þvijlikur Madur sifelldlega i Sorg og Angist, þar hann elskar þær: þarfyrer søkum þess, ad Sialfs-Elskann er su fyrsta og hellsta Elska i Mannenum, þa giorir hun Manninn ad Guds Ovin, uppfyllir hann med øllu Vondu, og steypir hønum i Oluku.

Og so sem Elskan til Guds giorir Mansins Vilia so almennelegann, ad han meddeiler sier øllum: eins giorir Sialfs-Elskan, þvert a mote, Mannsins Vilia, osundarfullan hreckvijsann og rangsnuinn, so ad Madur giorir eingum neitt gott, og hans Vilie verdur agiarn, orettvijs, slæmur, ummhverfur, hofmodugur og hrokafullur. eins og Elskann til Guds giorir Viliann roligann, fridsaman, og yndislegan; so giorir Sialfs-Elskann þar þvert a mote Vilia

ia Mannsins oroligann, ofridsamann, ovingiarnlegann. Guds Elska giorir Vilian friann, so ad Madur er einkis hlutar Undirsate nie Prœll, enn Elskann til Skepnanna giorir Mannsins Vilia frelsislausann, og ad Prœle og Pye allra Skepna. Elskan til Guds giorir Mannsins vilia fastann, vissann og stødugan i Gude; enn Sialfs-Elskan giorir Manninn ostødugann ovissann og hvikulan, so sem adur hefur sagt verid. Elskann til Guds giorir Manninn hyrann, sterkann og rijkan: Enn Sialfs-Elskann giorir hann oroligan, angursaman, veikan og orbyrgann. Elskan til Guds, giorir Maninn þægeligan hia øllum, enn Sialfs-Elskan giorir hann øllum hvummleidañ, fullan Haturs og Tvidrægne.

## Cap. XXXIII.

### Elskan til Guds og Sialfs-Elskann eru tvær Rætur alls þess sem Mennirnir giora. Um Averte Sialfs-Elskunnar.

Rom. 8. 7. Holldlega ad vera sinnadur, er Fiandskapur i gegn Gude.

Hvad hellst sem Vilie Mannsins giorir / þad kemur alltsaman og stiornast af adurgrein-

dre Tvennslags Elsku; þviad hun er Upprune til allrar annarar Elsku, og þvi er þad augliost, ad þecking a øllum edrum hlutum, hvert sem þeir eru godir eda vondir, framflytur og so af þessare Tvennslags Elsku. Guds Elska er Upprune til ad þeckia allt þad sem gott er i Mannenum; enn Sialfs-Elskann er Upprune til ad þeckia allt þad sem illt er i Mannenum. Hver sa sem ecki þeckir Guds Elsku, hann þeckir og ecke helldur, þad gott sem Madurinn hefur; og hver sem ecke þeckir Sialfs-Elskuna, hann þeckir og ecke helldur þad vonda, sem er i Mannenum. Þviad hver sem ei þeckir Uppruna til gods og ills, sa hinn same veit ecke helldur hvad illt er, ellegar gott. Guds Elska er þad Lios sem upplysir, og med þvi mote gefur hun bæde sig sialfa og sinn Motpart sem er Sialfs-Elskan, tilkynna: enn Sialfs Elskann er myrkur, sem forblindar Mennena, ad þeir geta hverke sied nie þeckt sialfa sig, og þad gott ellegar vondt, sem er i þeim sialfum.

Annars sliptar og Sialfs-Elskann alla adra odygd i Mannenum. Madurinn er giordur af tveim Portum, sem er Lijkame og Sal, hvadann tvennslags adgreind Elska uppkemur, ein af halfu Salarinnar, en onnur af halfu Lijkamans. En hafe Sialfs-Elskann yfirhond i

einum,

einum, þa uppvex af Sälunne Elska og Eptirlaungun til Vegsemdar, stors Alits og Tignar: og af Lijkamannum, Elska til Vellystar. Hver sem sialfann sig elskar, hann elskar odara undir eins annadhvort sijna eiginn Æru og Metord, ellegar Holldsins Velkiist, Og þetta tvent elskar hann sem sina tvo stora Afgude, og vex þar sidan af, allt þad sem þienar til Metorda og Hollds-Vellystingar; allt soddan ma þa vissulega vera elskad fyrir Mannsins sialfs Virdingar og vellystar sakir. þar af vex eirnenn Elska til ad na gotse og audæfum, elska til ad na Gunst og Metordum; so ad eins eiginn virding kunne þar med ad eflast og vidhalldast. þvi uppvellur af Sialfs Elskunne fyrst Stolltleike, med hverium Madur elskar sialfs sins Virdingu og Vegsemd. þar næst Vellyst og Ohof i mat og drick, med hveriu hann elskar, þa lijkamlegu Lyst og Gaman; og i þridia lage, Agyrnd, ellegar Jlaungun eptir gotse og Rijkedæme. Hver sem elskar sialfs sins Virding, hann getur ecke þolad þad nockud, sem nidurbrytur Sialfs-Elskuna. þar af kemur Reide og Hefndargyrnd, þar af upprennur Hatur og Ofund, ad madur eyrir illa þvi Goda, sem finst hia odrum. þar af ris eirnenn Slen og Lete i Vinnunne, fyrst

Erfidid er gangnstædt Holldsins Vellyst; og þannig koma allar odigdir af Sialfs-Elskunne.

## Cap. XXXIV.

### Ad elska Gud fram yfir alla hlute stiftar Frid og Eindrægne; enn Sialfs-Elska stiftar Þrætu og osamlynde.

Col. 3. 14. Framm yfir allt þetta, ka ikladest Kiærleikanum, hver ad er Band Algiorlegleikans.

Ef allir Menn hefdu hina somu Elsku til þess einasta goda, og allir elskudu þad sama, þa være Elsku allra Manna eins hattad, og þa være hun samlynd; þa yrde og vissulega ollum monnum ad vera eins hattad innbyrdis; fyrst þeir hefde allir eins hattada Elsku. hvar af þad er auglioſt, ad ef allir Menn elskude Gud, þa mættu þeir ad visu vera samlyndir, og elska hverier adra innbyrdis, og þa være Elskan til Guds orsok til Eindrægnennar þeirra a medal, og stiptade einsaman Frid og Forlikun: Enn fyrst þad skedur ecke, og Menniruir elska sialfa sig, þeirra eigin Virdingu og Vilia, þa tvistrast þeirra Elska i sundur; og ecke er hun alleinasta fraskilinn Gude vegna þess, ad sa sem elskar sinn eiginn

eiginn Vilia og sina eigin Virding hann giorir sig sialfan ad Afgude; Hvar af pad kemur, ad so mikil sialfsmijdud Virding og Sialfs Elska sem er i Verolldenne, so margir Afgudir eru og so i henne; helldur er hun ogso fraskilinn sijnum Naunga sakir Osamlyndis og Tvijdrægnes; Pviad hver sem endelega vill ecke annad enn hafa sinn Vilia fram, hann þyrdir ecke umm hvad adrir Vilia, og par med skilur hann sig fra Fride og eindrægne vid sinn Naunga. Og hver sem elskar sijna eiginn Virding, og stundar eptir henne, hann elskar ecke eins annars Virding, helldur hatar hana: af hveriu uppkemur, Hatur, Ofund, Tvijdrægne, Prattan og Stiriolld; fyrst hver einn vill hallda sinne Virdingu so rijkt, og forsvara hana. Pannig er pa Sialfs-Elskann Rot til alls osamlyndis: enn Elskan til Guds upprune til alls Fridar og Samþyckis.

# Cap. XXXV.

## Ad hver einn fae þeckt af sinne Eigin-Elsku til sialfs sins, hvad hann er skylldugur ad audsyna Gude.

1. Timoth. 1, 5. Summa Bodordsins er Kiærleikurinn af hreinu Hiarta, og af godre Samvitsku, og af omeingadre Tru.

Einginn Madur kann ad verda ſannfærdur med nockru ødru betur, enn med ſier ſialfum; og ſu Beviſing ſem kemur af Samvitſku ſialfs Mannſins, er hin viſſaſta og kroptugaſta. Nær Madur lijtur a ſig ſialfan ſo ſem einn Speigil, þa þarf hann ecke ad hafa adra Beviſing, enn ſialfan ſig; og ecke liggur honum a ødrum vitnisburde. Nu hefur adur verid beviiſad ad Gud, eptir Rette og Skylldu Natturunnar, a ad vera elſkadur framm yfir alla hlute, og ad, ſa ſem elſkar ſig ſialfan framar øllum ødrum hlutum, hann giorir ſialfan ſig ad Afgude. Vilie hann enn þa vita hvad hann a ad lata Gude i tie, og hvad hann er honum ſkylldugur; þa lyte hann einaſta til ſialfsſins, og hugleide hvad hann vill ad Menn late honum ſialfum i tie. Fyrſt þu ſialfur villt vera elſkadur og i afhallde framar øllum ødrum, þa ſier þu af þvi, ad þu ert ſkylldugur ad giora þad ſama vid Gud og elſka hann, og rækta framm yfir allt, gior þa ſo vel og ſet Gud i þinn Stad, og ecke ſialfan þig i Guds ſtad, og gef honum þa Elſku framar øllum hlutum, hveria þu villdir gefa þier ſialfum. Ef þu elſkar þinn eiginn Vilia, filgir honum og fullkomnar hann, þa vegna þeſſ ad þu att ad elſka Gud yfir alla hlute, þa ſnudu aptur og elſka Guds Vilia, filg honum og fullkom-

komna hann framar øllum hlutum. Elskir þu sialfs þins Virding, og vilier þu ad hver Madur skule efla hana og auka; þa sia so til, ad þu giorir hid sama vid Gud. ersida uppa þad, ad allir Menn kunne ad auka og elsa Guds Virdingu. Eins og þu hatar þa, og þier er illa til þeirra sem rijnga þijna Æru; so attu ad hata þa og vera þeim reidur, sem hindra og skerda Guds Æru; ef þu elskar sialfan þig, þa elskar þu þinn eigin Priis, og Lof, og villt giarnan ad hver Madur hrose þier og lofe þig, og ad hver Madur skule tala vel umm þig; þad hid sama ert þu og so Gude skylldugur, og þu att ad oska ad Gud sie og vegsamadur af hverium Manne, og ad einginn Madur a Jordenne vanvirde hans Nafn: og hugsa fyrst; eg ann mier sialfum þvijlijks, þa skal eg þusundsinnum meir unna mijnum Gude þess. þu villt ad hver einn Madur skule trua þier vel, og eingin skule tvila um þijn Ord, ellegar hallda ad þu siert ligare; slikt hid sama skallt þu og so giora vid Gud; þu skallt trua hans Orde stoduglega og an alls tvils, og reida þig ætid uppa hann; skallt og þess oska ad allir Menn gete truad og reidt sig uppa hann. þarfyrir er klart og augliost, ad hver Madur hefur i sier sialfum, einn klaragnn, og osvikulan

Speigil, i hverium hann kann ad sia, um hvad hann er Gude skylldugur, og ad slijkur Speigill er þa rettelega brukadur, þegar Madurinn stendur uppur Guds Sæte, og Stole, og lætur Gud sitia þar i sialfann. og er þesse Speigill og Vitnisburdur so viss, ad hann fyrir utan Skrif og Bækur sannyrder hvern Mann.

## Cap. XXXVI.

### Umm Avøxt Elskunnar til Guds, sem er Glede i Gude.

Psalm. 5. 12.

Lat þa glada vera i þier, sem þitt Nafn elska.

Endirinn, til hvers allir hlutir keppast, er þeirra Avøxtur. Jmislegt Sæde gefur imislegann Avøxt. Fyrst þad er nu i Mannenum tvenslags olijkt Sæde; sem er Elskan til Guds og Elskann til sialfs sijns; þa framkemur af hverutvegge þessu Sæde sierdelislegur Avøxtur. Fyrst þetta Tvennslags sæde er hvert gagnstædt ødru, þa er og þeirra Avøxtur hver a mote ødrum, og er sa eine hardla godur, annar hardla vondur; so sem adur hefur synt verid: Endir og Avøxtur alls þess sem Madur gierir er annadhvert Glede ellegar Hrigd,

Hrigd, og þad er Mannsins Avinningur, Abate og Avoxtur i ollu hans Erfide. Enn med þvi ein Rett Glede er einn godur Avoxtur, yndislegur og þægelegur; þa hlytur hinn same ad koma af godu Sæde; og fyrst Hrigdinn, nær hun er skadleg er einn vondur Avoxtur, þa verdur hun og ad uppspretta af einu vondu Sæde. Su sanna og retta Samvitskunar Glede med hverre vier glediunst og fognum i Gude, kemur þarfyrir og uppris af Elskunne til Guds; enn Sorg og Angist og Pijna i Samvitskunne, hver ed skilur oss vid Gud, kemur og orsakast af oleifelegre Elsku til Skepnanna, og allra hellst af Sialfs-Elsku; hun er upphaf til allrar annrar oleifelegrar Elsku a Skepnunum.

Hvar sem einginn-Elska er, þar getur og einginn Glede verid, fyrst Gledinn kemur af Elskunne; en lijka sem Elskann er, so verdur og Gledinn vissulega ad vera, sem kemur af henne. ef Elskan er Gudleg, þa er og so Gledinn Gudleg: sie Elskann jardnesk, og hange vid þa jardnesku hlutena, þa er og Gledinn jardnesk. sie Elskann alltid fost vid Gud, þa gledur hun sig i Gude: þad er su ypparlegasta Glede, sem Madur kann nockurn tijma ad girnast; og hun er og so forsmeckur þeirrar Glede sem veitist i eylifu Lijfe. ef Elskan være i þessu Lijfe full-

kominn, þa være og gledinn fullkominn, enn med þvi elskann verdur fullkominn fyrst i þvi ødru Lijfe, þa verdur og so Gledinn fyrst fullkominn i ødru Lijfe: lijka so sem vier munum þa elska Gud æfinnilega, so munum vier og þa gledia oss i Gude æfinnlega; eins og Elskann verdur þa fullkominn, so a hun þa og ætid ad hafa fullkominn giæde, sem eckert vantar, hver ad eru odaudleg, oendanlig, oumbreitanleg, og ohnignanleg. Fyrst Elskann a þa einnig ad vera hrein, oflecksud og Guddomleg; so a einnig Avøxturinn ad vera þvilijkur, nefnelega hreinn guddomleg og oflekud Glede, su hin allrabesta og kostulegasta Glede, og a ad innebinda i sier þa stærstu og ypparlegustu Unun, þann stærsta og ypparlegasta Frid, þa fagnadarsomustu Salarinar Kiæte, þann stærsta og mesta Sætleika, Anægiu, Feiginlegleika og Sadning i allra stærsta mata; þad farsælasta Lijf. ja þad eylifa Lijf. þviad þad eylifa Lijf er ecke annad enn eylif Glede. Enn jafnvel þott Guds Børn niote ecke þessarar Glede þannig i allra stærsta mata i þessu Lijfe; þa niota þau hennar þo ad nockru leite og hafa so sem forsmeck þeirrar eilifu Glede. þviad fyrst G:ds E'sku er uthellt i þeirra Hiortu, so verdur og Gledinn, so sem Avøxtur þeirrar Elsku, ad vera þar hia eptir

sijnum

sijnum hætte: þvi seigir og S. Paull Rom. 14. 17. ad Guds Rijke sie Riettlæte, Fridur og Fognudur i Heilogum Anda. og Phil. 4. 7. ad Fridur Guds bevare vor Hiortu og Hugskot i Cyristo Jesu.

Jafnvel þott þetta Huggunarlios vitie ecke þeirra truudu her so olldungis yfirgnæfanlega, þa koma þo samt Neystarnir af þvi i Hiortu þeirra til ad upplysa þa, og endurnæra i þeirra Sorgar og Motlætinga myrkrum. þott þeir verde her ecke hluttakarar i þeim mikla Straume og Hafe Vellystinganna sem giefst i odru Lijfe, þa driupa þo samt droparnir þar af i þeirra Salir, umm hvert so stendur i Psalm. 100. v. 1. Singid hatt Lof Drottni oll Verolldinn. og Psalm. 89. 16. Sæll er sa lidur sem þa Gledennar-Skemtun kann; Drottinn i liose þijns Andlitis munu þeir ganga. og þad endurnærir þa so vel, ad þad er eins og þeirra Skal være fleytefull af Huggun, so ad Brudurinn þessvegna tekur so til ords þar um i Lofkvæde Salom. C. 2. v. 4. 5. Hann sem mig elskar leidde mig i Vinkiallaran og Kiærleikurinn er hans Merke yfir mier: hann lijfgade mig med Blomstrum og nærde mig med Eplum, þvi eg er siuk af Astenne.

Hver sem þessa glede hefur, hann hefur allt þad sem hann vill oska og girnast; hans Sala er olldungis mett og vel anægd, og getur sagt med

med Glede: Drottinn er minn Hyrdir mig mun ecke neitt bresta Psal. 23. 1. enn med þvi þesse Glede uppsprettur af sannre Elsku til Guds, hver ed kemur af Trunne a Drottinn vorn Jesum Christum, þa er þar af audradid, ad so framt sem vier vilium hafa þennan hædsta goda, niota og smacka slijka Huggun og glede, og hafa i oss einn lifande Vitnisburd umm þad eylifa Lijf; þa eigum vier ad stunda og keppast i Trunne alleina eptir þessare rettre Elsku til Guds, og sinna eingu odru enn henne. og þarfyrir seigir einnig St. Pall Eph. 3. 19. ad þad sie betra ad elska Christum, enn allt ad vita.

Annars fyrst þesse Elska er i oss, og ecke fyrer utann oss, þa þott hun sie ofullkomin, þa er þo þar af auglioft, ad vier hofum þennan fiesiod i vorre Sal, og þurfum aungvu utvortis þar vid ad auka, hverke Gulle nie Silfre Virdingu nie Metordum, Konst eda Havegum, Tungumale eda alite, Mat eda Dryck, ellegar nockru odru tijmanlegu, helldur er þad alltsaman innebundid og falid i einsamlre Elskunne til Guds. af hveriu vier kunnum og so ad rada, ad med þvi Elskann a ad verda fullkominn og eylijf i odru Lijfe, og þar verdur þess vegna einn eylifur Fridur fognudur og Glede; þa munu

og

og Mennernir hafa i sialfum sier Fesiod og Rijk dom sinnar Glede, sem eingin skal geta stolid ellegar tekid fra þeim; þeir munu jafnan hafa sijna Glede i sier sialfum, hvar til þeir hverke þurfa Gulls nie Silfurs, ecke virdingar nie nockrar utvortis Vegsemdar; Elskann til Guds skal vera þeirra fullnægia.

Þennan Rijkdom þeckir einginn nie skilur, utan sa sem hefur hann i sier, og i hverium hann finnst. og hver sem hefur hann i sier, hann girnist eckert utvortis, hann ofundar eingan af nockru; þviad hann er mettur og saddur af sijnum eiginn goda, af sinne eiginn Glede, og girnest ecke annad enn Elskuna til Guds, i hverre hans Glede og Lijf er innefalid: þad er og adgiætande, ad ecke aleinasta nockrer, helldur og allir þeir sem hafa þa sonnu Tru geta haft þessa glede, þessa dyrgripe og þennann Fesiod Elskunnar i sier. þviad þott einn hafe Truna, og Elskuna til Guds og hennar Glede i sier, þa minkar ecke fyrir þad eins anars Tru, Glede og Elska til Guds, helldur eykst hun miklu framar, og utbijter sier a einn oendanlegan hatt; so ad einn truadur Madur einganveigin hindrar einn annann i þessu, helldur gefur orsok og efne þar til, ad þvij-

þviilikar Gafur vaxe i þeim og efleſt. allteins og morg trie brenna fliotara þa þau eru laugd hvert vid annad, enn ſem eitt ellegar faein. Þeſſ meir ſem Madurinn elſkar Gud, þeſſ meir gledur hann ſig i Gude, bæde vegna annara og ſialfs ſins, og þeſſ fleyre ſem þeckia Sannleikann og elſka þad goda, þeſſ ſtærre verdur ſu Elſka, og Gledinn verdur þa audþeckt, eptir þvi ſem Gude þocknaſt ad lata Manninn finna hana. eins og Gud ſkiptir ſine Elſku med Mønnunum, ſo ſkiptir hann og ſo ſiine Glede, og opinberar ſig fyrir honum eptir þvi ſem hanns Elſku er varid Joh. 14. 21. og þannig hefur Guds Elſka Glede og Þecking, ſinn miſmun og troppur i øllum truudum Mønnum, og ſo eine hindrar þo ecke hinn annann i þeſſu. og þaraf getum vier einnig audvelldlega ordid aſkinia, hverſu ſtor ad verda mune ſu eylifa Glede i ødru lijfe, med þvi Gud vill þa ølldungis utauſa ſinne Elſku og Glede til allra utvalldra, uppfylla þa þar med, og vera allt i øllum; 1. Cor. 15. 28.

Cap.

# Cap. XXXVII.

## Umm Averte Sialfs Elskunnar, og ad einginn sonn Glede gete vared af henne, helldur einasta svikul Glede.

Jac. 4.9. Vered vesallegir, sytid og harmed, ydar Hlatur skal umsnuast i Grat, og ydar Glede i Hrigd.

Lijka sem ein sonn og gudleg Glede kemur af Elskunne til Guds, eins kemur einnig og orsakast ein folsk og hegomleg Glede af þeirre Folsku Sialfs-Elsku.

Sialfs-Elskan elskar sinn eigin Vilia, eiginn Lofstyr og Pris, eiginn Virding, eiginn Vellist og adra holldsins List. þar fyrir elskar hun og so allt þad, sem þienar til ad vidhallda eigin Virding og Vellyst; so sem ad er timanlegt gots og rikdomur, Metord, afhalld Manna og annad þess hattar. Enn fyrst allt þvijlijkt er ostodugt, og kann skiotlega ad missast, þa verdur Madurinn ad vera sijfelldlega hræddur umm, ad hann kunne ad missa þad og tapa þvi, hann verdur ad hafa umhyggiu fyrir, hversu hann gete þad forvarad og halldid þvi vid magt; verdur og þar þvert a mote ad bera hatur og Strid vid þad sem kann ad spilla þessu hans godu, og taka þad fra honum, vid hvert hann

hann helldur so fast med sinne Elsku. þessvegna er þad auglioſt ad hann getur ecke rettelega gladst i sialfs sins Elsku; helldur er þesse Glede meingud med Hrædslu og Hrigd, og mun lok⸗sins snuast i stora Sorg. þessvegna er þad ein svikul andstygdar Glede; þviad eins og Sæ⸗ded er, so er og avøxturinn.

Vier høfum og firr beviſad, ad Sialfs⸗El⸗skann er oskickanleg, oriettvis, følsk, ohrein, spillt, full af løstum, illsinnud, skammarleg, gagnstæd allre Natturunne og Skepnunum, þar med ein Rot allra Okosta, alls ills, eitt Eitur, Daude, Myrkur, Villa, Blindne, Lige, og Rot til allra Liga, Ja su hin hellsta orettvise, ellegar Modir og upprune alls orett⸗lætis; þessvegna ber og so þvijlijkt vondt Sæde vondan Avøxt, sem er ein følsk ohrein, illsinnud smanarleg og skamarleg Glede i mote Gude og sijnum Naunga: hun fagnar og gledst af þvi sem er a mote Gude, a mote øllum Riette og Rettvise: hun gledur sig i Syndenne, Løstum og Skømmum, hvar med Gud verdur van⸗heidradur og foracktadur, og er af fremsta megne Gude a mote. Eckert getur verid Møn⸗nunum til stærre fordæmingar, enn ad glediast og hafa ynde af þvi sem Gud hatar og er hønum

i mo⸗

i mote. þviad ef þad er illt ad elska nockud sem er Gude a mote, þa er þad miklu verra ad gledia sig i þvi; þviad soddan Glede er a mote allre Natturunne, og a mote øllumm skepnum, er bæde an Guds og a mote Gude, ur hveriu ecke getur annad ordid eñ sa eylife Daude, eylif Armæda, Sorg/ Hrigd og Myrkur.

Þviad lijka sem su gudrækelega Glede leidir Manninn alltid nær og nær til Guds, eins leider þar þvert a mote su holldlega Gledinn, Manninn æ leingra burt fra Gude; su gudlega Glede eykur og styrkir þa guddomlegu Vinattu; enn su falska Glede eykur og eflir Fiandskap gegn Gude; su gudlega Gledinn mettar og stadfestir Viliann i Guds Elsku, og gierir Samvitskuna glada, lisltuga, sæta og yndislega; enn su holldlega Glede, giørir Hiartad og Viliann, ostødugann, orolegann, bitran og þverudarfullann. Þa gudlegu Glede, getum vier haft fyrir utann Erfidsmune, og uppakostnad, an annara Manna adstodar, og fyrir utan nockurn skada; enn þad ber optsinnis til, ad Madur getur ecke haft þa holldlegu Glede utan med storre Fyrirhøfn, erfide og uppakostnade, og þad meira er, med yfirfliotanlegre Gnægd, i timanlegum hlutum; so og med an-

nara Manna skada og fordiorfun. Su hin gu-
lega Elskan og Gleden, stiptar, eykur og vi-
helldur Fride, Vinattu, Eindrægne og ollu
godu manna a medal, enn su falska Glede, stif-
tar Ofrid, Fiandskap, Ovinattu og Osam-
lynde, og kemur mikelle fardiorfun og olucku
a stad.

Af þeirre guddomlegu Glede getur eckert illt
og eckert Hneixle vared nie uppkomid, enn af
þeirre folsku Glede getur ecke varid utan allt
illt og stort Hneixle. Su gudlega Glede upphve-
tur og afysir Manninn til alls gods; enn su
falska Glede upphvetur og knyr hann til alls þess
sem illt er. Su gudlega Glede er lifande, hialpar-
fus, ununsamleg, ypparleg, heidurleg og æru-
leg, enn su holldlega Elska og Glede er svi-
virdeleg og skammarleg; lastafull og oheidar-
leg. Su gudlega Glede er Gude þocknanleg: enn
su falska Glede hatar Gud sem allra mest. Su
gudlega glede eykur gudlega Girnd og Eptir-
laungun, og uppvekur i Mannenum þreinging
eptir Gude og ollu Godu; enn su falska Glede up-
vekur og eykur i Mannenum Gyrnd til alls hin
vonda. Su guddomlega Glede upplysir Hiar-
tad, Vitid og Skilningenn, uppfyllir þad med
Visdome og Guddomlegre Þeckingu; enn su
fal-

falska Glede formyrkvar og forblindar Vitid og Skilninginn, og uppfyllir Hiartad med Fijfilsku og Hiegomaskap: Su gudlega er ein sonn Glede, og svikur eingann; enn su holldlega Glede er lygegiorn, og er eckert annad, eñ sem eintomis Svik og Afvegaleidsla.

# Cap. XXXVIII.

## Umm þann sijdarsta Avoxt sem vex af Sialfs-Elskunne og falskre Glede, sem er Sorg og Angur þess eylifa dauda.

Rom. 8. 13. Ef þier lifid eptir Holldenu, munud þier deyia.

Adur hefur greint verid, ad su eylifa Glede vex og framkemur af þeirre guddomlegu og eylifu Elskunne; af hveriu þad er audradid ad hvar Elskan til Guds er ecke, þar kann ecke helldur su eylifa Glede ad vera ellegar nockud af þvi goda, sem heyrir til þeirre eylifu Glede; helldur verdur þar ad vera, ein eylif Vesølld an allrar Glede og goda. og þvi getur i þeim sama stad ecke annad verid, enn einungis Hiarta-sorg og Hrelling, þviad Mannsins Sal skal þa koma til sialfrar sinnar, og finna i sier sialfre, ad

hun hefur tapad þeim eylifa og hædsta Goda, og getur alldrei meir til eylifdar nad hønum aptur, eda hann feinged, og sialf hefur hun ollad þui, ad þetta er sked, og hun sialf hefur verid orsøk til þess. og jafnvel þott hun med storre Þreynging, Kveine, og Hliodum stunde til þess ad na þvi aptur, sem hun hefur, þa mun þad þo alldrei skie umm alla Eylijfd; Af hveriu ecke getur annad uppkomid og orsakast, enn oaflatanleg Hiartans Angist, Kvøl og innvortis Pijna i Salunne.

Og fyrst einn fordæmdur Madur kann alldrei umm alla Eylifd ad friast og leysast fra þeirre kvalafullu Sorg og Angre, vegna þess goda sem hann hefur mist og tapad; þa oskar hann alltid ad hann være ecke meir til; hvad þo alldrei getur sked, helldur verdur hann ad vera so allajafna, og lijda og þola fordæmingena um alla Eylifd; af hveriu ecke kann annad ad koma og orsakast, enn sem eitt Eylift Hatur gegn sialfum sier, og ad einn fordæmdur Madur verdur ad bølva sier sialfum eyliflega, vegna þess ad hann verdur þannig eylyflega ad sia sijna Skømm, sijna Andstygd og Vidbiod, sem hann getur ecke þolad, stadest nie lidid, og verdur þo slijkt ad þola lijda og bera til eylifrar

tijdar.

tiidar. Þannig hlytur su skammarlega og o[illegible]yfelega Sialfs-Elska umsider ad snuast og verda ad eins eigin eylifu Hatre og Bolvun.

# Cap. XXXIX.

## Hvernig vier eigum ad gefa Gude vorum Skapara alla hlute og heidra hann alleina.

Psalm. 95. v. 6.

Komid latum oss tilbidia og nidurkriupa, og framfalla fyrir þeim Drottne sem oss hefur giort.

Med þvi vier vitum, ad Gud er sa sem hefur skapad oss, einnig vidhalldid oss, ja er og so vor Fadir: Hveriumm ættum vier þa helldur ad giora alla Virding enn sem honum? Hvern skylldum vier helldur akalla, bidia og tilbidia, vegsama, lofa og prisa, enn þann sem oss hefur skapad? Uppa hvern ættum vier ad reida oss, utan uppa hann? Uppa hvern ættum vier ad setia alla vora Von nema uppa hann? Hvern skylldum vier helldur elska enn hann? J hveriumm ættum vier meir adglediast, enn i honum? Hvern ættum vier ad hallda fyrir vort hædsta Traust, Jlaungun og Eptirþreying, utan hann?

 hann?

hann? Hvern skylldum vier helldur elska en þann sem oss hefur skapad eptir sinne Mynd. Hvern skylldum vier helldur virda enn þann, sem hefur virdt oss so mikid, og þad framar øllum skepnum? hverium ættum vier ad gefa oss med øllu i valld, utan honum, sem med sinne Elsku hefur gefid sig oss ad øllu leite, og ølldungis, og hefur skapad oss til þess, ad vier skylldum eyliflega lifa med honum, eyliflega blifa hia honum, og eyliflega glediast med honum? Hvern ættum vier þa helldur ad elska og virda en þann, sem hefur utvalid oss, ad vier skylldum vera hans Børn, og gefid oss sialfan sig til ad vera vor Fadir.

Hugleid þarfyrir o þu Madur, hvarfyrir Gud hefur skapad þig heilvita Mann, og þad er sked þessvegna, ad þu att ad gefa honum alla krapta þins Hugskots og þiñar Salar: fyrst Gud hefur þa skapad þig þannig, ad þu getur elskad nockud, þa elskadu Gud; fyrst þu getur þeckt nockud, þa þecktu Gud; fyrst þu getur ottast nockud, þa skalltu ottast Gud; fyrst þu getur virdt nockud; þa skalltu virda Gud; fyrst þu kannt ad bidia, þa tilbid þu Gud; fyrst þu getur lofad og prisad, þa lofadu og prijsadu Gud! fyrst þu getur dast ad nockru, þa skalltu

dast

dast ad þijnum Skapara og himneskum Fødur: fyrst þu getur truad, vonad og reidt þig uppa nockud, þa skalltu trua og vona a Gud, og reida þig uppa hann. fyrst þu getur verid gladur og katur, þa gled þig og vert katur i Gude. og þetta skallt þu þess helldur giora þar fyrer, ad allir hluter eru i Gude, og hann megnar øllu, og þad meyra er, hann gietur allt med oendanlegum hætte og mata; so og stiornar hann yfir øllum hlutum, so ad þu getur fundid alla hlute hia Gude og i Gude, og ødlast allt hvad þitt Hiarta girnist, ef þu einasta hefur þina unun i honum. og af þessu filgir su retta og sanna Guds heidran; þvi hver sem ottast og elskar Gud, sa hinn same heidrar hann, enn hver sem ecke elskar hann og ottast, sa hinn same vanheidrar hann, þar þvert a mote. Þannig heidrar madur Gud med hlidnenne, enn vanheidrar hann med ohlidnenne. og eins er þvi varid med Truna og Vantruna, Vonena, og Vonarleysid; med Lofgiord og Spott; med Þacklæte og Oþacklæte, og adrar þesshattar Dygdir og Odygdir. Og er af þessu klart og augliost, ad Mannenum er eingin hlutur betre, agiætare, heidurlegre, loflegre og nytsamlegre, enn ad hafa Gud i heidre, og eingin skammarlegre

andstyggelegre, vidbiodslegre og skadlegre e. vanvirda Gud.

# Cap. XL.

## Umm vora eigin Virding, hver ad er þvert a mote Guds Virding, og hennar svarinn Ovinur.

Psal. 115. 1.

Eigi oss, Drottin, eigi oss, helldur þinu Nafne gef þu Dyrdena.

Þegar Madurinn leitar ecke Guds dyrdar i øllumm hlutum, kappkostar ecke ad utbreida og ebla Guds Ord, þa giorir hann ecke so sem Guds Skepna, Skopun og Handaverk; helldur fremur hann þad sem bæde er a mote Gude, og Nidurskipun allra Skepnanna hveriar Gud hefur skapad til sinnar Dijrdar. og þo giorir Madurinn þad sem enn þa er verra, þegar hann giorir allt sier sialfum til Virdingar, til sins eigin Lofstirs og hrosunar, til ad utvega sier stort Nafn, og þad ad utbreida. Þviad med þvi rænir Madur Gud sinne Dijrd, hveria hann alleina a ad hafa, verdur opinber Guds

Guds Ovinnir, og setur sig sialfan i GudsSæ-
te, so sem Lucifer, og verdur ad steipast hræde-
lega nidur ur því aptur. Þvíjlijk Manneskia
uppfyllir sitt Hiarta med eiginn Virding og hro-
se, a hvert hann stundar Dag og Nott, og
rekur so Guds Dijrd olldungis burtu ur sijnu
Hiarta. Hans Hiarta ætte ad vera fullt af
Guds Dyrd, samt er það fullt med hanns ei-
ginn Virding; og þessvegna finnur Guds
Dyrd eingan stad nie rum i þess Mans Hiarta,
ja þvijlijkur einn eitrar og fordiarfar ecke allei-
nasta sitt eigid Hiarta med slijkre Ærugirnd,
helldur vill hañ og þar ad auke uppfylla og eitra
annra Manna Hiortu, sem skylldu vera Sæte
og HusGuds Dijrdar, med sinne eiginn Virdin-
gu, og vill ad hann sie hatt-acktadur af þeim og
virdtur; rekur so Gud fra sinum Stole og utaf
Mannanna Hiortum, enn setur sig sialfan
med sinne eiginn Æru þangad aptur. Hvar
kynne nockurstadar ad vera stærre Fiandskapur
gegn Gude enn þesse? þarfyrir ef þu villt ecke
vera Guds Ovinur, þa sia so til, ad þu snarle-
ga faer utsliett þijna eiginn Elsku og virding af
þijnu Hiarta, og dempir hana þar og deydir.
Vilier þu vera Guds Vinur, þa verdur þu
ad hata og afneyta þier sialfum; þviad fyrir

þina eigin Æru verdur þu Guds Ovin. fyrir sialfs sins Æru verdur Mannenum utkastad af Himnenum, þad er fra Gude og hans auglite, i eylijfa Skømm og Svivirding: þad er sa Avøxturinn sem vex af Sialfs-Æru og Elsku.

Hverf þarfyrir aptur, giør Jdran, tru a Christum og lif i hønum sem ein ny skepna, so mun hann Jata þig ad vera einn af sijnu Folke. til hinna anara sem ecke hafa giørt Jdran, hell-dur lifad eptir Holldenu i Adam, ja i Diøflenum, mun hann seigia; alldrei þeckta eg ydur, farid fra mier allir illgiørda Menn; Matth. 7. 23. so er og þijn æra alldeilis i mote Elskunne til Christum, og afmaer hana ad ølluleite ur þinu Hiarta. Fyrst Elskann til Christum er vor ædste gode, vor ypparsta Speke og Konst, þa lat þina eiginn Æru og Elsku til Heimsins fara ut af þinu Hiarta, so ad Elskann til Christum meige ganga þarinn; þviad þar kann hverig ad forlikast vid adra: og i Elskunne til Christum fullgiørist og endast vor Christindomur, med hverre Elsku Gud eyliflega virdist ad gledia, metta og uppfylla vora Sal

A M E N.

Nidur-

# Niðurlag þeirrar fiordu Bokar.

Þessar Fiorar Bækur um þann Sanna Christindom hafa þessvegna feingid sitt Nafn af þeim Sanna-Christindome, ad i þeim verdur sierdeilislega hondlad umm Truna a Christum og hennar Rettlæte, sem og einnig um Christelegt Lijferne, hvert ed olldungis og ad ollu leite hefur sinn Uppruna af Trunne og Truarinnar Rettlæte; og er þesse Bok ecke skrifud fyrir Vantruada, helldur fyrir Truada, ecke fyrir Heidenna helldur Christenne Manna Skulld, hverier allir hafa medtekid þa Christelegu Tru; enn flestir af þeim lifa þo alldeilis Ochristelega, og neita krafte Truarinnar 2 Tim. 3. 5. eda vilia ecke underskanda hann. Þarfyrir a allt þetta Verk, þo hellst ad so micklu leite sem vidvikur daglegre Jdran, og christelegu Framferde þannig ad skiliast, ad Truinn a hvervetna, ad vera Grundvollvrinn og Astæda til alls þess sem hier utheitmist og utkresst. og ma ecke neirn virda þad so, sem hier sie nockud tileignad eda tilskrifad vorum holldlegum frijvilia ellegar godum verkum. Þviad slijkt ma Madur eingvanveiginn þeinkia; helldur vera vissuppa, ad allt lijtur til þess, ad fyrst þu, o Madur, ert ordinn Christinn i Skijrnenne, og ert sinurdur;

med

med Heilogum Anda; þa att þu ad lata Christum og Heilagann Anda lifa og stiorna i þier, ad þinn Christindomur meige vera sannur Christendomur / og ecke hræsne eda flærd.

Anniars ad eg nockud greine um þessa Fiordu Bok utaf fyrir sig: þa ma ecke sa sijdare ellegar anar partur af henne skiliast i þeirre Meining, sem vier af vorum holldlegum Vilia og Edle kynnum ad elska Gud, þviad Elskann er Gafa Heilags Anda, og einganveiginn Avoxtur vorrar holldlegrar Skinseme nie Krapta; helldur er þad meiningin, og þesse Annar Partur er þess innehallds, ad vier ecke alleina af Guds Orde og Heilagre Ritningu, helldur og so af Natturunnar liose verdum sannfærder i voru Hiarta og Samvitsku þar umm, ad vier erum skylldugir til ad elska Gud vegna hans storu Elsku, hveria hann audsynir oss og i liose lætur fyrir allar Skepnur, hver røk, er Natturunnar Lios þannig oss gefur, yfirbevisa ollum Monnum sijna Skylldu, hvert sem þeir eru Heidnir eda Christnir, truader eda vantruadur, og getur einginn haft þar a mote. þviad Gud audsynir oss og i liose lætur sijna Elsku fyrer allar Skepnur, og allir þiggium vier hans Velgiorninga, og þar med skulldbindum vier oss til ad elska hann aptur a mot, sem

oss

oſſ elſkar; og þeſſvegna kallar, aminnir og upp-hvetur og ſo Gud oſſ ſyrir allar Skepnur til þeſſarar hans Elſku, hverrar allir Menn vondir og goder i þeſſu almenelegu lijfe niota.

Þvi kann og ſo viſſulega Guds Elſka ad læraſt og þeckiaſt af Natturunnar Bok, og verdur jafnvel Heidingiunum þar med yfirbeviſad, ad þeir eru ſkylldugir til ad dijrdka og elſka Gud, ſem og Paulus kennir Rom. 1. 19 etc. ſo ſeigir einnig Spamadurinn i þeim 3. Pſalme 2. v. Mikel eru verkinn Drottins; hver þann athugar þau, ſa hefur ſifellda liſting þar af. og i þeim 92 Pſal. v. 5. ſtendur. Þu Drottinn lætur mig gladværan ſingia ut af þinum Verkum, og eg hroſa Verkum þinna handa. Enn hverning kunna Guds Verk og giorningar betur ad vidfrædigiaſt og acktaſt, enn ſem a þennann hatt, ad vier latum þau þannig upphvetia oſſ til ad elſka og dyrdka ollum hlutum framar, þeirra Meiſtara og Skapara, ſem er Gud alleina. Gud gefe oſſ þann Skilning og Vijsdom ad vier mættum ſlijkt þeckia, og vegſama ſo Gud i ollum hans verckum bæde her og þar ſijdann an enda

A M E N.

---

Pſalm. 73. 25. Nær ad eg hefe ad eins þig Drottinn þa hyrde eg hvercke umm Himinn nie Jord.

(o)